# HVSS-POSTilla/
## EDVR
## EINFALLDAR
# PREDIKA-NIER

Yfer øll Hatijda og Suñudaga Gudſpiøll
Aared um̃ Kryng.

Giørdar
Af
Veledla og Velerwverdugum Byſkupenum yfer
Skalholts Stifte.

## MAG: Jone Thorkels Syne
VIDALIN.

### Añar Partureñ.
Fra Trinitatis Suñudeige til Adventu.

Prentud a Hoolum i Hialltadal/ Af Marteine Arnoddsſyne/
Añó 1720.

# A Trinitatis Hꜳtijd.

Gudspialled/ Joh. 3. Cap.

I þañ Tijma / Var þar eirn Madur af Phariseunum/ Nicodemus ad Nafne/ eirn Høfdinge Gydinga. Hañ kom til JEsu a Næturþele/ og sagde til hañs: Rabbi/ Vier vitum ad þu ert eirn Læremeistare komeñ af Gude/ þvi eingeñ gietur giort þau Teikn sem þu giorer/ utañ Gud sie med hønum. JEsus svarade og sagde til hañs. Sañlega/ sañlega seige eg þier/ þad eingeñ nema hañ/ sꜳ ed fædest ad nyiu/ fær ad siꜳ GVds Rijke. Nicodemus sagde til hañs. Hvørneñ mꜳ Madureñ Endurfædast þa hañ er gamall? Hvørt gietur hañ horfed aptur i siñar Moodur Kvid / og fædst so ad nyiu? JEsus svarade. Sañlega/sañlega seige eg þier/ nema þad nockur verde Endurfæddur wt af Vatne og Anda/ þa kañ hañ ecke iñ ad gꜳnga i Guds Rijke. Hvad af Hollde er fædt/ þad er Holld. Eñ hvad af Andanum er fædt/ þad er Ande. Undrast þu ecke/ ad eg sagde þier/ad ydur byriar ad fædast ad nyiu. Vindureñ blæs hvar er hañ vill/ og þu heyrer hañs Þyt / eñ eige veitst þu hvadañ hañ kiemur/ eda hvørt hañ fer. So er og sierhvør af Andanum fæddur. Nicodemus svarade og sagde til hañs. Hvørneñ mꜳ þetta skie? JEsus svarade hønum / og sagde. Ertu eirn Meistare i Israel/ og veitst ecke þetta? Sañlega/ sañlega seige eg þier/ ad vier seigium þad vier vitum/ og vitnum hvad vier sied høfum/ og vorn Vitnisburd medtaked þier ecke. Hafe eg sagt ydur Jardneska Hlute/ og þier trwed ecke/ hvørneñ munud þier þa trwa/ ef eg segda ydur Himneska Hlute? Eingeñ uppstijgur til Himens/ utañ sꜳ sem ofañ stie af Himne/ Mañsins Sonur/ sꜳ sem er a Himne. Og so sem Moyses upphoof Høggormeñ a Eydemørkeñe/ lijka so byr-

iar

iar Mañsins Syne upp ad hefiast/ so ad aller þeir sem a hañ trwa/ fortapest eige/ helldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

# Exordium.

MIkil var Blindne Heidingiaña fordum Daga i Guds Dijrk-an/ Hiner Vijsustu af þeim sogdu/ ad eitt miked Rijke kyñe ecke leinge ad standa fyrer utañ Einvallds-Dæme/ þo skop-udu þeir sier Ótal Gude til ad stioorna allre Verolldune/ svo sem eiñ være ecke fær um̃ ad rꜳda fyrer þvi/ er þeir þo af Nꜳtt-uruñar Lioose þeckia mꜳttu/ ad hñ siꜳlfur skapad hefde/ og svo ad þeir a einhvern Hꜳtt feingiu smijdad sier Einvallds-Dæme i Heimen-um/ þa trwdu þeir/ ad eiñ være þeirra mestur sꜳ ed odrum stioornade/ ætte þo slijkt ad vera epter Mañligum Plagsid/ svo ad hañ þurfte fra vid a stundum/ eins og Agamemnon siña Under-Konunga/ þoott hañ hiete hiꜳ Grickiñ Konungaña Konungur. Þegar eg athuga þetta/ þa kiemur mier i Hug þad sem Pꜳlus skrifar / 1. Cor. 3. Ad Speke Veralldar þssarar sie Heimska hiꜳ Gude/ og under eins brenur mitt Hiarta i mier af Elskuñe til mijns Skapara/ ad hñ hefur Open berad oss sijnum Vesalingũ/ þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum/ þar vier trwum a eiñ Gud Þreñañ i Einingu og Einañ i Þreñingu/ hver ed einkis vid þarf/ eñ aller hañs/ og er Siꜳlfrꜳde allra Hluta bæde a Himne og Jordu/ svo sem David seger i Psalm. 115. Vor Gud er a Himnũ/ og giorer hvad honum lijkar. Þess-arar hꜳleitu Guddoomsins Þreñingar Veglega Hꜳtijd eigum vier nu i Dag ad hallda/ ꜳ hverre oss verdur Predikad þad Evangelium sem iñebindur þa hellstu Velgiorninga er Fader/ Sonur og heilagur Ande hafa veitt oss syndugum Moñum til Myskunar/ þad er End-urgietningeñ og Endurlausneñ/ af hveriũ allt añad hꜳnger sem hiñ Nꜳduge Gud vill lꜳta oss þioona til Sꜳluhiꜳlpar. Vm̃ siꜳlfa Hlutena hefe eg ꜳdur i þssare Book vijda talad/ Eñ þad er merkelegt



16 —

i þessu Gudspialle/ ad hier kiemur eirn Høfdinge Gydinga/ eirn Meist-are i Israel til ad læra þessa Himnesku Fræde af hønum sem til þess var sendur wr Fodursins Skaute/ ad Openbera hana syndugum Mønn-um. Þvi viliumm vier nu hier af athuga eirn froomann enn þo fæviisann Lærefvein/ og under eins eirn goodann og svo Alviisann Meistara/ med þeim Lærdoomum er þeirra Samtal med sier færer.

Styrk oss til þessa Verks goode Gud med Naad þijns Anda/ fyr-er Sonarens Forþienustu/ A M E N.

## Vtleggingenn.

HAR Var EJnn MADur Af PHAriseunum seger Textenn: Hvilikann Vitnisburd DRottenn giefur þessum Flock maa allvijda sia i Gudspiallamanana Bookum/ og þo ecke sijdst hia Matth. 23. Cap. Hvar hann medal annars kallar þa Eytur-Orma og Nødru-Kyn/ þo fanst þesse Gudhrædde Madur medal þeirra/ Þad Ord stend ur stødugt umm Æfe/ ad þecker Gud þa sem hanns eru/ seger Postulenn.

Lær þad af þessa gooda Manns Dæme/christenn Madur/ ad ei sam-lager þu þig vondre Verølldu þessare/ þoott þu hliooter i henne ad lifa. Þar var þo einn Abraham i Gerar/ eirn Loth i Sodooma/ eirn Hobadia i Achabs Hwse / einn Simeon / einn Zacharias/ þesse Nicodemus og Joseph af Arimathia a Christi Døgum/ hverier hiner sijdustu tveir ecke samþycktust Gydingum i Lijflaate DRottens/ Luc. 23. Svo vared ydur og/ Børn mijn/þier sem lifed i hreckvijsre Olld þessarre medal vor/ enn vilied þo DRottenn Ottast/ ad ecke draged þier Ok med henne/ svo þier ei medtaked af hennar Plaagum/ helldur skijned svo sem Lioos i Myrkvum Stad a medal þessarar Þreckvijsu Kyn-Sloodar/ og treisted þvi ad sw Alvolduga Bæn er Frelsarenn beidde fyrer sijnum Lærefvein-um/ hun nær og til ydar/ ef þier Otteft Gud/ þar hann sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader/ecke ad þu taker þa burt wr Heimenum/helldur ad þu vardveiter þa fra hinu vonda. Siooren er salltur/enn Fiskarner sem

þar

þar iñe liþa/ þr eru þo ecke sallter. Svo eiga Guds Børn ad vakta sig fyrer Spillingu þeirre sem i Heimenum er aþ Gyrndeñe / svo sem Petur ad Orde kiemst/ þooft þau verde ad synda i giegnū þeña skwla Dam̄ / a medañ Gud vill reyna þau med þvi ad horþa uppa alla þa Ohæþu sem þar iñe frameñ verdur. Þesse Madur var eiñ Høþdinge Gydinga/ man Eþa eiñ aþ þm̄ 70. Ølldungū þss mikla Raads/ samt var hoñū svo miøg gieþed um̄ Velþerd Salar siñar/ad hñ þookt est ecke Oþ=goodur til ad læra aþ JEsu/ hvern hañs Lagsmeñ kølludu Vijn=Svelg/ Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra. Hvad giøra þeir hier a moot er sig kalla Høþdingia medal vor? og eru þo Vesælingar ad reikna hia Nicodemo/ Eg voga ad segia/ þeir vita ecke sumer hvad þr eiga ad trwa/ Frædeñ haþa þeir lært ad soñu/ eñ eg þecke þa sem ecke skilia ollu meir i þm̄ helldur eñ Giellldingur Drottningareñar Candaces i Spaadoome Esaiæ/ eñ hvert þr eru svo Leide samer til ad lata sier Vndervijsa svo sem hañ var/ þegar Philippus til hañs kom/ Act. 8. Þad bid eg þa ad Hugleida sem jaþnvel hafa sijna Salusorgara fyrer Heilsusamlegar Kieñingar/ og þoott sumer aþ þeim meige vita ad nockru Leite/ hvad þr eiga ad trwa og giøra/ þa meiga þeir þo ecke Sañleikañ heyra aþ Prestsens Muñe Reidelaust/ medañ hñ þeiger yfer Lstū þra og Skømum/ þa er hñ Guds Eingell/ eñ tale hañ um̄ nockra Ohlutvendne/ þa sturlar hñ Israel eins og Elias/ 1. Reg. 18. Hañ skytst under Caldæos eins og Jeremias/ Jer. 37. og verdur allt til Saka fundet/ Gud betre þssa Tijma/ Taled þad sem oss er þocknanligt søgdu Judar fordum/ sw Olld er apturkomeñ/ Spaadoomur St. Paals er rættur/ þeir samañ hrwga sier Lærendum epter þvi sem Eyrun klæia/ Meñ lata svo dætt ad Løstū sijnum eins og Mooder ad einasta Syne / jaþnvel þoott þr sieu bæde marger og liooter/ Meñ elska siñ eigeñ Prest eins og Siaalldur Auga sins/ svo eru Meñ vidkvæmer nær hañ snertur er/ svo sem væru þad Saar/ og ad mestu Leite eru vorer Hoþdingiar svo lynder eins og Joa-

ekim Konungur/ þa hañs Þienare Judi hafde lesed hønum þriu eda fiøgur Blød af Spaadoome Jeremiæ/ þa skar hañ Bookena i sundur z kastade heñe i Elldeñ/Jer.36. Eg ætla þa einu gyllde þoott allar Bækur være brendar sem hliooda uñ Guds Otta/ og aller Mennar tilbyrgder sem þar uñ tala.

Nicodemus kom til JEsu a Nættar-Þele/ æn Efa byrer Otta saker eins og Joseph af Arimathia/er var heimugligur Christi Læresveiñ søkum Hrædslu vid Gydinga/ Joh. 19. Veikleike fañst nockur hia þessum goodu Møñum i slyku/og þo var þad Upphaf til þeirra Nialþrædis/ Eñ þu s eingañ þarft ad Ottast i þvi ad fylgia Christo epter/ Tak þier Dæme af Nicodemo i þvi ad vilia læra af hønu/ og þeim sem hañ hefur i siñ Stad sett/eñ ecke i þvi ad fordast Verølldena ad slyku/þad er audræded af Samtale Drottens vid hañ/ ad hñ hefur ecke vered miøg Froodur i Christendoomenum/ þegar hañ fyrst kom/eñ ecke varde þad leinge/þar til hañ vogade ad forsvara Christum berlega i Rædenu/er hañ sagde: Dæmer nockud vort Løgmaal Mañeñ nema hañ sie ædur heyrdur/Joh. 7. Og mætte heyra þar fyrer: Ert þu og vordeñ Galileus? sem var hin mesta Smæn medal Gydinga. Þad mætte synast ad wfe være med Christ/ þegar hañ var svo sem Illrædis-Madur til Dauda dæmdur og a Gálgañ uppfestur/ hvar hañ liet sitt saklausa Lyf/ ecke er Lyklegt ad þeir Joseph mune hafa vered Froodare uñ Upprisuna helldur eñ Læresveinarner/ samt vogudu þeir ad Greftra hañ/ og vordu þar til Femunum synum. Svo er Gud Krøptugur i goodum Vilia þott veikur sie/ eñ þu sem vordeñ ert sañfroodur uñ Dyrd Drottens i hañs Upprisu/ og veitst ad hañ situr til Kraptarens hægre Handar/ breyt epter Nicodemo i þessu/ og lat þier einkis Mæl svo skylldt vera/ad þu aftrækest riett ad giøra/lat einga Veralldar Magt svo ofbiooda þier/ ad þu i miñsta mata skierder Dyrd þyns Guds i þvi ad fremia þad epter Mañaña Bode sem hañ bañad hefur. O hversu fævysser og Onyter eru aller

þeir

þeir ed kalla ſig Ohulta nær þeir giora allt hvad hiñ Vollduge bijdur
þeim/ Heyre þeir hvad Drottenñ ſeger pyrer Muñ Zophoniæ/ Cap. 1.
Eg ſkal a þeim Dege ſtraffa alla þa ſem ſtockva yper Þroſkullda/
hverier ed uppfylla Hws Drottna ſiña med Ræne og Svikum.
Sama er um̃ allt añad ad ſegia ſem nockur Ofrijkes Madur bijdur a
moote Guds Bode/ hvert hñ er hærre eda lægre Stiettar/ þañig var nu
Nicodemo hættad ſem ædur er ſagt þa hañ kom til Jeſum/ eñ hvert
Eyrended vered hape er audſært ap Lauſnarans Andſvare/ þo ecke
ſtande hañs Spurning wtþryckelega i Gudſpiallenu/ hañ hepur æn
Epa viliad frædaſt af Drottne/ med hveriu moote hñ kyñe Guds Rijke
ad erpa/ eñ Drottenñ ſem allt viſſe hvad med hönũ bioo/ hañ ſvarar
hönum ecke eins og hinum Rijka Ynges-Mañe/ hia Matth. 19.
er friette hñ ad hvad hñ giora ſkyllde ſo hñ mætte eignaſt eilijpt Lijp/
hverium hñ vijſade til Lögmaalſens/ af hvers Verkum eingeñ kañ þo
Hoolpeñ ad verda/ Hvar pyrer? ap þvi hañ þockteſt Lögmaaled upp-
fyllt hafa: Ecke ſvo ſem Phariſæis og Herodis Þienurum er komu
til hñs med vidlijkum Formaala og Nicodemus/ eñ þo puller af Vnd-
erhyggiu og Flættſkap/ og ſpurdu ad/ hvert ad leypdeſt ad giepa Key-
ſaranum Skatt edur ei: Ecke ſvo ſem Kieñemoñunũ z Olldungunũ
er ſpurdu hñ ad ap hverium Myndugleika hañ kiende / Matth: 21.
DRottenñ viſſe ad Nicodemus var i Lögmaalenu noogu Froodur ad Gyd
inga Plagſid/ þvi hañ var eiñ Meiſtare i Jſrael/ þar pyrer tekur hñ
ecke ad undervijſa hönũ i þvi ſem hönũ var Aboota vant / og opnade
hönum enar pyrſtu Dyr Lijpſins Vegar/ ſem er Endurpædingeñ/ med
þeſſũ Ordum: NEma Ad EJñhver FÆDeſt Ad NYiu/ Þa Kañ
Hañ Ecke Ad Sia GVDs Rijke. Hier af mæ ſiæ hverſu megnt
Fæpræde ad drottnad h epur medal Gydingaña i Andlegũ Epnũ þeg-
ar Chriſtur kom. Þad ſyneſt ad þeir hape ecke þeckt Vppruna Syn-
dena/ jafnvel þoott þeir mættu leſa hia David Pſ: 51. J Syndeñe
em eg aleñ / og i Syndeñe hitnade miñe Moodur med mier: Ecke

Endur-

Endurfædinguna/ edur ætlad ad Umskurnen munde vera hennar Med=al af Gude tilskickad/ helldur svo sem nockurskonar utvortis Teikn/ med hveriu Jsraels Foolk være adgreint frá ødrum Pioodum / þar þo Moyses seger þm̃ berlega Deut : 30. DRottenn mun umskiera þitt Hiarta og þyns Sædis Hiarta til ad elska DRottenn Gud þinn af øllu Hiarta þynu/ og af allre Ondu þinne svo ad þu lifer/ hvar ei kann ad vera annad meint enn þad sem Paulus umtalar/ Rom : 2. er hann nefne=er Umskurn Hiartans sem er i Andanum z ecke i Bookstafnũ/ hverr ar Lofstyr ecke er af Monnum helldur af Gude. Ur þessare Villu vill nu DRottenn fyrst hialpa Nicodemo/ og meigum vier christner Menn O'Daudlegar Packer Gude kunna / ecke einasta fyrer þad hann hefur Endurgieted oss til einnar lifande Vonar / sem Petur ad Orde kiemst/ 1. Pet : 1. helldur z þad/ad hvert Barned a medal vor æ Kost a ad nema þa himnesku Speke um̃ Endurgietninguna og hennar Krapt sem þesse Hålærde Olldungur visse eckert af. Gud giæfe ad bæde Kienne, Fedur og Forelldrar hefdu svo mikla Astundan a ad bry=na þvilykt fyrer synum Bornum og hinu Einfølldu/ svo sem þad er liooft i Guds heilaga Orde/ þa mundu Menn ecke svo optlega flecka sitt Skyrnar=Klæde sem Menn giøra/ þa mundum vær hafa meira Traust i Mootgangennũ og i Freistingunnũ/ af þvi ad vier erũ Christo innplantader z setter i hũs Ryke/ z Kraptur Skyrnarennar munde fram ar auglysa sig i Endurnyungu Lyfdaganna/ og Deydingu Holldsens helldur enn almennelega skiedur. Þad er merkelegt ad Endurlausn=arenn brwkar þetta Ord AD FÆDast Ad NYiu. Skyrnenn er ecke neinn Stundar=Þvottur er giøre Mann hreinann um̃ Sinn fyrer Gude/ helldur verdur hinn Skyrde ny Skiepna i Guds Auglite/ og þar fyr=er kallast þ Endurgietningar Laug/ Tit : 3. hverrar Kraptur varer um̃ allann þess Alldur/ er ecke afræker sinn Skyrnar Sattmæla/ helld=ur kostar Kapps um̃ ad endurnyia hann med Betrun Lyfernesens Dag=legana. Sialed til/ Born myn/ Madurenn fædest i Heimenn daudur

Uppruna

i Vppruna Syndeñe/ blindur i sijnum Sæluhialpar Efnum/ þvi Nolldlegur Madur skyniar ecke hvad Guds Anda er/ seger Paulus/ 1. Cor: 2. Er þ ecke þa ad fædast ad nyiu ad heilagur Ande i Skijrneñe upplijser Hugskoted/ endurskapar Viliañ/ z giefur oss nyiar Andlegar Gafur/ ad vier fæum sied Guds Rijke/ þeckt þad i Truñe/ samþijkt þvi er um þad talad verdur/ ad vier leitum þess/ langar epter þvi/ og ødlumst þad um sijder/ hvad Omøguligt er Hollde og Bloode/ svo sem Postuleñ vottar/ 1. Cor. 15. Spekingarner segia ad Madureñ sie Madur fyrer Sælareñar Skulld / þvi añars bere hañ eckert af Kvikindunu/ svo er hñ og Guds Madur alleina fyrer heilagañ Anda er vier i Skijrneñe medtokum/ añars er hañ ecke einasta Skynlaus/ helldur og daudur i Andligañ Mata / þvi er þetta Guds Verk riett kallad Endurfæding. I Añañ Mata er oss kuñigt ad vier fædumst i Heim þeña Børn Reideñar/ sem Paulus skrifar/ Þañeg er vor Natturleg Fæding/ eñ i Skijrneñe verdū vier Guds Børn/ þar verda oss fyrer alls eckert alleina fyrer JEsu Christi Forþienustu Synderñar fyrergiefnar/ eñ vier Riettlatter fyrer hñs Nad/ og til Arfs tekner med Guds Syne / þvi svo umtalar Paulus Endurfædinguna / Tit. 3. Seged mier/ er ecke slijkt ad nyiu fæddur ad vera? I þridia Mata iñebindur og Skijrneñ i sier Avøxt Endurfædingareñar/ sem er Endurnyungen/ hver ed Daglega a fram ad koma og i Vøxt ad fara / fyrer hverta Madureñ Endurfæddur verdur eiñ ny Skiepna/ 2. Cor. 5. skapadur i Christo til goodra Verka i Skijrneñe/ eñ Jklædest Daglega einū nyum Mañe sm̄ Endurnyiast epter hñs Mynd er hañ skapad hefur / og i þessu þreñu er Endurgiefningen foolgen hveria DRotteñ vill teiknad hafa med þvi Orde ad fædast ad nyiu. Þo skal eingeñ svo dæarlegur vera / ad hañ meine ad þad noog sie / ad færa Børneñ a Kyrktuna/ og lata þau þar Vatne ausa/ og tala Guds Ord yfer/ eñ alldrei sijdañ vekia i þm̄ Krapt þessa Himneska Medals med Gudrækelegre Vppfrædingu. Þolanligra være ad kasta þeim

wt a Mørkena og lata uppeta aþ Vørgū/ſm̄ þo er hiñ verſte Glæp-
ur/ helldur eñ ad ala pad upp/ ſem Gud ſkapade i Moodur Lijþe/ og
Endurſkapade med heilogum Anda i Skijrnar-Laugeñe/ Fiandanum
til Pioonuſtu og høñū i Bræd/ ſm̄ er Guds ſvareñ Ovinur. Vm-
ſkoreñ var Nicodemus/ Endurgieteñ var hñ epter þre Guds Skickan
ſem varde allt til Chriſtum/ eñ þo var hañ ſvo Ofroodur um̄ ſialþs
ſijns Endurþædingu. Meinar þu ad Barne þijnu/ ſem kañ ſkie
alldrei þær ad heyra nema Fævitſkuna / þvi mune betur þarnaſt eñ
þeſſum lærda Mañe? Nema þu alet pad a hiñe hreinu og ſkynſam-
legu Mioolk Guds Orda/ſem Petur um̄ talar/ 1. Pet. 2. Eþ þu ert
þær þar um̄/og ſiert þu ecke/ſm̄ eg dylſt ecke vid ad margur mune vera/
hvad Gud betre/ þa ſkamaſt þijn ecke ad ganga med Nicodemo/jaþn
vel a Nattar-Pele/ pad er heimuglega / eþ þu blygdaſt vid ad giøra
pad Openberlega/ þar þu ert gamall vordeñ/ til Chriſti Þienara ed-
ur añara ſm̄ betur vita / til ad læra Fræde þa er þu matt ecke añ
vera/ ſvo þu þær hoolped bæde þiñe og ſvo þeirra Salum er þier er
til trwad/nema þu vilier kveliaſt aſamt þm̄ i eilijþū Helvijtis Loga/
ſem Gud haþde boded þier med chriſteligre Vppfrædingu til Himna
Rijkis ad leida. || Ecke fær Nicodemus þetta ſvo brædt ſkiled er
JEſus ſagde honum/ og þvi talar hañ um̄ Holldlega Fædingu/honū
þoocke þ Ogar ad Madureñ Skyllde Hverþa Aptur i Siñar Mood
ur Kvid Nær Hañ er Gamall/ Og Fædaſt Svo ad Nyiu. Eñ þoott
pad være ſvo langt fra hañs Þanka og yfergeinge hñs Skynſeme
er JEſus talade / ſamt forlætur hañ ecke DRotteñ ad helldur/ og
vill heyra meira hier um̄ talad. Olijkur var hñ þm̄ ſem a vorū Døg-
um ecke vilia lata ſier i Guds Orde undervijſa/ St. Pals Spa er
rætt a þeim er hañ ſeger/ 2. Timoth.4. Ad þær Tijder mune koma/
ad þeir mune ecke lijda Heilſuſamligañ Lærdoom/ þeir hlaupa i Felur
nær Þra Chriſteñ-Doom a ad rañſaka/ þeir ſkioota Børnum ſijnum
undañ nær þvilijkt ſkal um̄ Hønd haþa / þeir hæda ad Kieñendunum

nær

nær þeir i slijku vilia giora sitt Embætte / og hroosa þvi hver fyrer ødrum/ ad þeir a einhvern Hatt hafe getad slopped fra þvi ad lata Leidsegia sier til Himna Rijkis. Þetta giora nockrer af þm a medal vor. sem bæde eru skijrder og ganga til Guds Bords/ þrisvar/ fioorum sinnum a Are hveriu/ en reidast Guds Þienara ef hann vill ecke leifa þm og Børnum þra/ ad eta og drecka Holld og Blood DRottens sier til Fordæmingar. Þu Vitfirringur/ munt þu þa helldur vilia til Helvijtis fara/ og þar eilijflega brenna/ en ad lia Eyru þijn heilsusamligre Kienningu/ svo þu meger þinna Saluhialpar Medala verduglega niootande verda? Edur villt þu leida þinn Kienne-Fodur i þann Salar-Voda ad hann hafe Alltared til ad syndga/ eins og Ephraim/ þad giora þo aller þeir ed þa vijsvitande til Alltares taka/ sem þess Overduger eru. || Ecke styggest DRottenn vid þssa Einfelldne Nicodemi/ hann vill ecke þenna brakada Reyr i sundur brioota/ helldur til þess ad uppræta þessa Favitsku wr hans Hiarta um Lijkamliga Fædingu/ þa seger hn hverneg þssare Andligu Endurgietningu sie vared/ med þssum Ordum: NEma Ad Einn ENDurfædest Af VAtne Og ANDa/ þa Kann Hann Ecke Ad Inngannga I GUDs RIJke. Hann blessadur hafde þa alla Reidu skijrast lated nær þetta skiede/ og Johannis Skijrn hefur Nicodemo alkunnig vered/ þa var og Logmal Umskurnarennar afmad/ svo ad i Christo gylldte hverke Umskurn nie Yfer-Hwd/ þvi Tijme Endurbootarennar var komenn/ sm Paulus umgietur Heb. 9. Enn Skijrnenn var aptur i hennar Stad innsett/ og Drottens Kvølldmaltijd skomu sijdar i Staden Paska-Lambsens / hver ed vara mun asamt Skijrnenne þar til Verølld þrijtur. Þess gietur Paulus/ 1. Cor. 11. er hann bydur ad vier med þessu Himneska Giesta-Bode skulum kunngiora Dauda DRottens þar til hann kemur. || Til þssarar alvijsu Rad-Stofunar hinnar haleitu Guddoomsens Þrenningar vijsar nu Frelsarenn þessum sijnum Læresvein/ og leggur Orsokena til/ sm þsse goode Madur hefur ecke ædur skyniad/ HVad Sem

Aꝼ HOLLdenu Er FÆdt þad Er HOLLd/ Eñ HVad Sem Aꝼ ANDanū Er FÆdt/ þad Er ANDe. þad er Vpphaꝼ Christ-endoomsins ad Madureñ vite ecke einasta ad hñ sie spilltur ad nockru Leite aꝼ Vppruna Syndeñe/ helldur og olldunges i Syndeñe daudur/ svo ad vor Nattura verdur ad Endurꝼædast med ollu/ hvad Omogu-ligt er ad skie kuñe nema fyrer Almattis Krapt Guds er Mañeñ i fyr-stu skapade riettañ edur heilagañ/ svo sm̄ hiñ vijse Salomon ad Orde kiemst/ Eccl. 7. Og þss vegna heꝼur vor goode Kieñe-Fader Lutherus Lated Logmaled undañ ganga odrum Portū christelegs Lardooms/ ad vier aꝼ þvi kyñū ad sia vorn Holldligañ Saurugleik/ svo þad yrde þañeg vor Typtunar Meistare til Christum. || Eñ HVad Sem Aꝼ ANDanum Er FÆdt/ þAd Er ANDe/ þad er/ þad sem End-urꝼædt er/ og aꝼ Gude ꝼædt/ Joh. 1. J hverium Guds Sæde er/ 1. Joh. 3. þad er Ande/ ecke svo ad Hollded umbreytest i Anda/ helldur verdur sa hiñ same Andligur Madur/ eins og Adam vard ad liꝼande Sal/ 1. Cor. 15. þad er liꝼande Madur/ hañ verdur eiñ Ande med Gude eꝼ hañ ahanger honum/ 1. Cor. 6. og Foottredur ecke Guds Sattmala/ jaꝼnvel þoott ecke sie þss Von i þessu Daudliga Hollde/ ad vier aldeilis Andliger verdū/ þvi er sw Glijmañ a mille Holldsins og Andans/ er Paulus svo optlega talar um̄/ þad skiedur fyrst i Vpp-risu Riettlatra ad vier Andliger verdū til fulls/ þa munu vorer Lijk-amer Andliger og Englunum jaꝼner verda/ og vorar Saler eitt med Gude sm̄ verda mun allt i ollu a þvi Gledeñar Lande / þvi neꝼnest hun og Endurꝼæding hia Mat. h. 19. Cap. þad er Vppreisn allra Hluta / svo sem Petur þad kallar/ Act. 3. || Visse DRotteñ ad ei munde Nicodemo skiliast þetta eñ nu/ þvi seger hñ strax epter/ VND-rast Ecke Ad Eg SAgda þJer/ Ad YDur BYRiade Ad NYiu Ad FÆDast / Og ecke einasta seger hañ þad / helldur þar ad auke framsetur hañ eitt Omootmælanlegt Dæme uppa Favitsku hañs/ og añara Daudligra Maña/ sm̄ langt eru ꝼra þvi ad skilia þa Hlute er

þeir

Þr Dagliga um̃gængast/ auk helldur ad þeir skynia mune þa himnesku er svo længt yfer gænga Mañligañ Skilning/ VINDureñ BLæs Og Þu HEyrer HAñs Þyt etc. DRotteñ blies a Læresveinana og sagde: Medtaked þier heilagañ Anda. H. Ande kom i sterkum Vinde yfer Postulana a Hvijtasuñudøgũ. Svo tekur nu Frelsareñ hier Dæme af þeim Hlut sem Andanum var lijkastur / til ad hiælpa Fæfræde þessa einfallda Mañs. Vier heyrũ aller Vindeñ þioota/ vier fiñum hañs Megn a Lijkamanum/ eingeñ sier hñ þo/ eingeñ veit hvar hñ hefur sijn Vpptøk/ Vindureñ blæs a sømu Stundu i Imsum Stødũ af Austre og Vestre/ af Nordre og Sudre. Seig mier/ hvar hafa þesser Vindar sijn Vpptøk? hvørt fara Þr? hvar slotar þeim? fyrst eingeñ hefur eñ nu fundest svo vijs/ ad hañ giete sagt oss þad/ hversu muñũ vier þa skynia þad sm̃ miklu meir yfergeingur vorn Skilning. ‖ Eñ Svo Eru Og ALLer ÞEir Sem Af ANDanũ Eru FÆdder/ þeir fiña Guds Anda Hræringar i Sælu siñe þegar hñ straffar Syndena/ uppvekur Ydranena / lijfgar Trwna/ kveiker Elskuna/ ebler Þolenmædena/ og verkar adrar christelegar Dygder. Vier vitũ og ad hñ er fra Gude komeñ/ af þvi Ritningeñ hefur sagt oss þad/ eñ hverneg hñ er fra Gude wtgeingeñ og i Hiartad komeñ/ þad vitum vier ecke/ þvi Guds Rijke kemur svo þad verdur ecke adgiætt seger Frelsareñ/ Luc. 17. Ecke helldur vitum vier hvert hañ fer/ þvi Andeñ fer i burt og kiemur iñ aftur/ vier vitum ad hañ færer oss iñ i eilijft Lijf/ ef vier slockvum hañ ecke/ eñ þad Lijf þeckium vier ecke nema svo sm̃ fyrer Speigel og i Ræd-Gætu/ þvi þad er Osynelegt eñ nu hvad vier verda munum/ og vort Lijf er foolged i Gude/ Col. 3. Þar fyrer sæ sm̃ fiñur Verkaner H. Anda i Sælu siñe/ og vill þo ecke Endurfædinguñe trwa/ þad er eins og villde hañ neita þvi ad Vindureñ bliese/ eñ giæte þo ecke siælfur a Jørduñe staded fyrer Ofvidre. Ef vier þvi neydumst til Natturuñar Verkan ad trwa/ þoott ei skilium vier heñar Orsøk eda Vpptøk/ þvi skylldum vier ecke giefa vora

af þm̃ hlut sem andan er lijkastu

og heimfær uppá þá, sem fina H. anda skan i Salu sine, þó þr e viti frá upp og frá hvarf

 Skilningu

Skilningu fængna under Hlydne Trwarenar i Andlegum Efnum sem svo miklu eru Oskilianlegre.

Ecke ber Nicodemus a moote þessũ Vijsdoomsfulla Sañleika/ er DRottenn talade / eñ þo vill hañ frædast giør hier um̃/ og þvi seger hñ: HVerneg Mæ þEtta SKie? þar fyrer tekur Lausnareñ til þess sem sterkast var/ þad var hñs eigeñ Vitnisburdur/ sm̃ er i Fodur-sins Skaute: SAñlega/ SAñlega SEge Eg þJer/ VJer VJ-tum HVad VJer SEgium/ Og VJtnum HVad VJer SJed HOfum. Eingeñ Røk edur Vitne eru svo sterk sem þetta / GVd hefur þad talad: þvi sagde JEsus Fordum vid Gydinga/ Joh: 8. þoott eg bere Vitne af sialfũ mier/ þa er þo mitt Vitne stødugt/ eñ þetta visse Nicodemus eñ þa ecke / Hañ sagde ad sønu i Ondverdu Samtalenu: MEJstare/ VJer VJtum þu Ert Eiñ LÆRE-FAder Af GVDE/ þvi EJngeñ Kañ Ad GJiøra þau VErk/ Sem þu GJører/ NEma GVD SJe Med HOnum. Hefde hañ sagt J HOnũm/ þa hefde hñ riett talad/ Eñ svo var hñ eñ þa ecke upplystur/ þo byriade hønũ ad trua Christo/ þar hañ ætlade/ ad hañ være af Gude/ og giørde svo mikil Kraptaverk/ eñ DRotteñ liet hañ ecke leinge vada i Villu þessare/ helldur skÿrer hønũ berlega fra/ hver hñ sie/ segiande: EJNGeñ Mun uppfara Til HJmens/ Ne-ma Hañ Sem OFan Stie Af HJmne/ MAñsins SOnur/ HVer Ad Er A HJmne. þetta Ord Ad VPPstÿga Til HJmens/ mer-ker i Ritningũne/ ad rañsaka Guds Leyndar Rææd/ svo seger Agur um̃ Ethiel og Ucal/ Prov: 30. þad er um̃ hañ sem heiter GVD Med Oss og sæ MATTuge/ þad er CHRJSTur/ Hver mun uppfara i Himineñ/ og ofañ þadañ? þad er/ hver mun Guds Leyndardooma Rañsaka/ þar um̃ talar svo Moyses/ Devt: 30. þad Bodord er eg byd þier i Dag/ þad er ecke huled fyrer þier/ edur langt i burtu / þad er ecke i Himnenum svo þu segia þurfer/ Hver mun fara fyrer oss upp i Himeneñ? þau Ord wtleggur St: Pææll/ Rom: 10. þegar hñ hef-

ur

ur mdur talad um̄ Leyndardoom Mañsins Riettlætingar fyrer Gude/ Cap: 9. Þu skallt ecke segia i Hiarta þynu/ Hver mun fara fyrer oss upp i Himeneñ? Þad er ad toga Christum ofan wr Hædunum: Hvar fyrer? Þvi hañ var Einusiñe ofan til vor komeñ/ og færde oss þessa Himnesku Speke wr Skaute Fødursens/ þvi þurfte eingeñ upp aptur ad fara i Himeneñ/ til ad rañsaka Guds Vilia um̄ Mañsins Sæluhialp/ Þ er hid sama sm̄ Drotteñ seger hier Nicodemo. Eg sm̄ ad vid þig tala i Lyþkingu syndugs Holldz/ ad Hegdan funden̄ sm̄ Madur/ z er ofan komeñ af Himne/ af mÿns Fødur Skaute/ Eg veit hvad eg sege/ og vitna hvad eg sied hefe/ eingeñ añar mun uppfara i Himeneñ til ad rañsaka Guds Vegu/ nema eg/ sem nu er a Himne/ þoott eg hier vid þig tale/ þvi byriar þier mÿnū Ordū ad trua/ ef þu villt hoolpeñ verda/ Þesse er Efalaust Meining Frelsarans / þvi eingeñ hefur um̄ Alldur Gud sienañ/ sa Eingietne Sonur Fødursens/ sm̄ er i hañs Skaute/ hñ hefur oss þad openberad seger Joh: Cap: 1. Eñ Lÿka Sem MOyses VPPhoof HOggormeñ a EYdemorku/ Svo BYriar MAñsens SYne upp Ad HEfiast/ seger Frelsareñ. Eiñhver mætte ad spyria/ Hvad kiemur þesse Fyrermyndan hier vid? Eingeñ er betre/ christeñ Madur/ i øllum Fiarsioodū Ritningareñar/ eingeñ sem betur hlyde uppa þad Efne/ sem hier var um̄talad/ þvi valde Frelsareñ hana til ad Sañfæra Nicodemum med/ hver hañ visse ad var uppfrædur i Løgmælenu. Paulus seger Hebr: 9. er hañ þyder gamla Testametesens Foorner uppa Christū/ sialfur Gydingur fyrer ødrū Gydingū: Hversu miklu framar mun þa Blooded Christi (seger hñ) sm̄ fyrer hiñ eilÿfa Anda hefur Foornfært sialfañ sig Oflecckadañ Gude/ hreinsa Samvitsku vora af daudlegum Verkū/ til ad þioona Gude lifanda. Seged mier/ Hvar verda vorar Samvitskur fyrst hreinsadar? J Skÿrneñe/ þar fyrer kallar Petur hana Sættmæla goodrar Samvitsku/ Fyrer hvad verda þær hreinsadar? Fyrer JEsu Blood/ sm̄ Vitanlegt er af Postulans Ordū/ er strax voru leseñ/ Hvar

gaf

gaf Frelsareñ Þwt? J Grasgardenū/i Þijng=Hwse Pilati/ eñ allra helst a Krossens Galga/ þvi þar blædde sialfu Lijfenu til Olijfes/ og Daude hañs var Fullkomnan vorrar Hreinsunar / þvi sagde hañ under Andlaated/ þad er Fullkomnad. Hver Fyrermyndan gamla Testamentesens hlyder nu best uppa Krossfestingu DRottens? Eingeñ betur eñ þesse/nær Moyses epter Guds Bode upphoof Eyrormeñ a Eydemørku/ Moyses heingde Ormeñ uppa Tried/ svo er og JEsus a Galgañ uppheingdur/ uppa Tried bar hañ vorar Synder/og feste þar Handskriftena þa sem moote oss var/Col.2. J þeim Orme var eckert Eitur/ þoott hañ være hinum ødrum lijkur. Guds Sonur er ad allre Negdan funden sem Madur/þo ann Syndar/ Hañ er fyrer oss synduga Orma Madkur og ecke Madur vordeñ / jafnvel þoott hañ være hreiñ og heilagur/og fraskileñ Syndurunū/ Ja /þoott hñ ecke visse af Synd/ þa giørde Gud hañ ad Synd/svo vier yrdum Guds Riettlæte i hønū/ 2.Cor.5. Aller þeir ed litu þañ Eyrormeñ/ sm̄ Moyses uppfeste/ þeir urdu læknader af Eytur=Orma Bitenu. Þu miñ HErra JEsu ert a Tried upphafeñ/ svo ad aller þeir ed þig lijta Trugreñar Augum þeir verde læknader af þvi Bite/ er hiñ slæge Høggormur Diøfulleñ beit vora fyrstu Moodur med/ og oss sijdañ Daglega bijtur/ þvi seger hier og i Gudspiallenu : SVo Byriar MAñsens Syne Upp ad HEfiast/svo ad aller þeir sem a hañ trua Fyrerfarest ecke/ helldur hafe eylijft Lijf. Þu hefur sagt/DRotteñ miñ/Ef eg Upphafeñ verd mun eg draga alla til mijn/Joh.12. Þad er ecke Gydinga einasta/helldur alla þa af øllū Þioodū/sm̄ þiñ Fader hefur þier giefed. Svo drag oss þa/ Herra JEsu/sm̄ buum i þessu fatæka Lande/ hvetia þu eins vel leyst hefur med þijnu dyrmæta Bloode og adrar Þiooder/Drag oss sege eg under þiñ Kross/ ef þier svo lijkar/ ja/uppa Krossen med þier/ ef þad ma til þiñar Dyrdar gagna og vorrar Sæluhialpar. — Þad er oss fyrer minstu þijnum minstu Vesælingum/ Vier vitum þu sagder vid Gydinga/þegar þier hafed Mañsens Son upphafed/ þa munut þier þeckia ad Eg em hañ/Joh.8. þvi truū vier ad þu ert/DRotteñ miñ/ad sigrudum Dauda/ Diøfle og Helvijte yfer alla Himna hafeñ i þijna Dyrd/

til

til ad bwa oss þar Vist i þijns Fodurs Hwse. Drag oss þangad med þier / O HErra JEsu / svo ad hvar sem þu ert þar meige og þijner Þien arar vera / Þier med Fodur og heilögum Anda / sie Valld / Heidur / Dyrd og Kraptur / þu hæleita Guddoomsins Þreñ, ing um Allder Allda A M E N.

# Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 16. Cap.

Vm þañ Tijma. JEsus sagde til Phariseaña. Þar var eirn Rijkur Mañ / sem klæddest Perle og Purpura / og lifde hvørn Dag i Vellistingum prackuglega. Og þar var eirn Þurfamadur Lazarus ad Nafne / hvør ed wte laa fyrer hañs Dyrum / fullur Kauna / hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Molum / sem fiellu af Borde hins Rijka. Þa komu Hundar og sleiktu hañs Saar. Eñ so skiede / ad hiñ Volade andadest / og vard boreñ af Einglunum i Fadm Abrahams. Eñ hiñ Rijke andadest lijka / og var grefstradur. Eñ sem hañ var i Helvijte og Kvol unum / hoof hañ upp sijn Augu / leit Abraham æleingdar / og Lazarum i Fadme hañs. Þvi kallade hañ og sagde: O Fader Abraham myskuna þu mier / og send Lazarum hingad / ad hañ drepe hinu fremsta sijns Fingurs i Vatn / og kiæle Tungu mijna / þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs: Sonur / hugleid þu / ad þu medtookst hid gooda i Lijfe þijnu og Lazarus lijka hid vonda / þvi hlijt ur hañ nu ad huggast eñ þu ad kveliast. Fram yfer allt þetta / er a millum vor og ydar / miked Diwp stadfest / so ad þeir sem hiedañ vilia fara til ydar / gieta þad ei / og eige þeir helldur þadañ fra ydur / upp til vor komest. Og hañ sagde þa. Eg bid þig Fader / ad þu sender hañ i mijns Fodurs Hws / þviad eg hefe fim̄ Brædur / þad hañ skijre þeim fra / so ad eige kome þeir i þeñañ Kvalastad. Og Abraham sagde til hañs: Þeir hafa Moysen og Spaameñena / heyre

þeir þeim. Eñ hañ sagde: Nei Fader Abraham/ helldur ef nockur Framlideña være til þeirra / þa mundu þeir Yðran giora. Eñ hañ svarade hønum: Ef ad þeir heyra ecke Moysi og Spamønnunum/ þa munu þeir ecke helldur trwa þo ad nockur Framlideñ upprijse.

## Exordium.

Allie ydur Audur til/ þa heinged ecke Hiartad þar vid/ seger David/ Psalm. 61. Ecke fordæmer hañ Audeñ i sialfum sier/ helldur Ofmikla Elsku a hønum. Rijkdoomureñ er goodur þm̃ er riett kañ ad brwka hañ. Audur er Abl fra Hluta sem giora skal/ seger Cicero. Orlætur Madur Felaus/ hñ er eins og eiñ Kappe Vopnlaus. Eckian sw er lagde eiñ Pening i Guds Kistuna/ hun lagde ad søñu meira eñ aller hiner Rijku/ þvi hun gaf af Fatækt siñe/ Eñ hefdu þeir eins miked giefed af siñe Audlegd/ epter þvi sem Tala rañ til/ þa munde þad og af DRottne ecke sijdur vel hafa þeiged vered. Være Rijkdoomureñ ecke Guds Blessan / þa munde hñ ecke hafa heited hønum til Launa sijnum Elskendum/ er vardveita hñs Bodord/ og ecke sæmt Astvine sijna þar med. Abraham/ Isaac/ Jacob/ Joseph/ Barzelai/ hin Sunamiska / Joseph af Arimathia/ og adrer miklu fleire voru Rijkesmeñ og þo Guds Viner kallader/ eru þvi Audæfen stoor Ast-Giøf DRottens / þvi seger Salomon/ Prov. 10. Ad Blessan DRottens giøre Rijka/ og Hormungen mune ei nælgast þa/ þau eru Riettvijsum Mañe til mikils Heidurs/ þvi seger hañ eñ þa aptur/ Prov. 14. Audæfe hins Vijsa eru hañs Corona/ med þm̃ kuñũ vier Løndum og Lijdum ad hiælpa/ med þeim sæum vier sett Børn vor og Nauunga til Menta og Mañ-Kosta/ med þm̃ kuñum vier ad biarga Nauungañũ i siñe Angyst/ med þeim giefum vier ablad oss Fie-Siooda a Himnum/ ef vier stundum epter ad vera rijker i goodum Verkum/ 1. Tim. 6. svo þeir medtake oss i eilijfar Tialldbwder / er vier giørũ gott þar af i sañre Trw og i Guds Nafne/ hvar fyrer ad sa ed Fatækũ giefur hñ lænar DRottne/ og

Audureñ er goodr i sialfum sier riett-brukadr; þvi hér — afl fra hluta, þ giora sk. — af þ heitiñ Guds i sijn elskendum, og þm̃ mörgum raittr. — þo hañ dugar til lykamlegr el-lydañ og andligrar ... (1.)

ne/ og hafa Meñ alldrei betur vared Fe sijnu. || Svo eru nu Audæfeñ stoort Guds Læn og hañs Elsku Merke/ nær þau riettfeingen eru og riett brwkud/ eñ svo sem þau eru hinū froomu og Riettvijsu til mikils Heidurs/ svo eru þau og hinum Ogudlega og ægiarna nærsta Oþørf og skadsamlig/ þvi seger DRottiñ/ ad Rænglætesens Fie/ Siooder sieu Elldur i Hwsenu/ Jæ þoott eiñ sie vel komeñ ad Aud sijnum/ eñ brwkar hñ þo Gude til Stygdar/ til Ohoofs og Metnadar/ til ad underþryckia hiñ Vesæla og Lijtelmagnañ/ og helldur hønū til Okurs/ og iñe fyrer Verkamañenum/ og hinum Fætæka/ sem Gud hefur skipad ad ala/ þa er hañ Bølvaneñe undervorpeñ/ þess gietur hiñ Vijse med þessum Ordum: Sæ ed prettar hina Riettlætu a vondum Vege/ hñ mun i siñe Gløtun hrapa/ og hiner Einfølldu munu eignast hañs Goots. || Jæ svoddan Audlegd er hveriu Volæde argare/ svo þad er Kongdoomur ad fara a Vonar-Vøl alla Æfe sijna hiæ svoddañ Rijkdoome. J þessa Dags Evangelio verda oss fyrer Siooner setter tveir Meñ/ eiñ Rijkur/ añar Fætækur. Vier viliū i Guds Nafne skoda 1. Dæme hiñs Rijka/ og svo hañs Afdrif. 2. Hins Fætæka og svo hañs Endalok.

Þu goode Gud sem alleina Rijkur ert/ hiælpa oss med Rijkdoome Nædar þiñar ad giora þetta Verk i þijnū Otta f. Jesū Christū/ Am.

## Utleggingeñ.

HAR Var EJñ RJJkur MADur/ seger Texteñ. Rijkdoomurėñ kañ eingum af siælfū sier ad baña iñ i Himnarijke/ svo sem i Jñgængenum sagt er/ þvi siæum vier og i Gudspiallenu hiñ fætæka Lazarum i Skaute hins rijka Abrahams. Tøkū Van brwkunena i burt/ og mun Audureñ ecke skada/ giørumst rijker i goodū Verkum/ og mun þad nockud til Himnarijkis gagna/ eñ þad vantade þeña rijka Mañ. Hañ klæddest Pelle og Purpura/ seger Texteñ. Pell var eiñ Vefnadur Forkuñar væñ og Gullvægur halldeñ/ hñ er



nu

nu ecke ad þa i Heimenũ/ Sama er um̃ Purpurañ ad segia/ þad var eiñ Litur forkostuligur tilbweñ wr Skiel-Fiskiar Bloode/og er nu ecke ad fiña i Veroldeñe. Hvertveggia þetta var Konunga Bwnadur og añara Hofdingia/ og leyfdest ei Mwgamoñũ ad bera. Þañeg var Aaronis Bwnadur/ og Hofud-Presta Gydinga/Exod. 28. Svo var Josephs klæddur/ Gen. 41. Þetta Skart bar Daniel/ Dan. 5. Þañeg var Mardochæus bweñ/ Est. 8. Eñ um̃ þeña ryka Mañ stendur ecke i Gudspiallenu/ ad hñ hafe nockur þess Nafnbót/ Madur vered/ þad er og ecke liklegt/ þvi Frelsareñ munde ei hafa til þss tekid/ ad hañ hefde svo vered i Skart bweñ/ hefde hñ vered Hofdinge nockur/ þeim er soomt hefde ad bera svo dyrmæt Klæde/og var i þessu ecke lytill Ofmetnadur. Satt er þad/ ad Klæden giora eingañ vondañ nie goodañ af siálfum sier/ eñ Fatnadureñ er Mañenũ giefeñ til ad skyla Blygdan siñe/ og vardveita Lykamañ fra Kulldanũ/ þvi mætte þad synast/ ad sa sem kieppest vid ad bwa sig Tiguligar helldur eñ Virdingu hñs soomer/ ad hañ giore þad añadhvert fyrer Lauslætes edur Metnadar Saker/ og er hvertveggia stoor Synd i Guds Augsite/ fyrer þvi mun þad ei Syndlaust vera er Meñ brwka til þess ad ebla þssa Leste med Mismunur i Klædnadenũ a ad vera/ og var fordũ til ad adgreina Virdingar Mañа/ og svo er Raad fyrer þssu giort i Lands-Logum vorũ/ hvad sem þar fram̃ yfer er/ þad er Ofidseme og Ranglæte/ þvi þ er ad taka siñ Riett fra þm̃ sem Ædre eru ad svo miklu Leite sm̃ þessũ Hiegooma nemur. ‖ Eg vil segia/ hvert sm̃ ad eiñ er Kostum bweñ edur ei/ þa syndgar hñ/ ef hañ klæder sig betur eñ hañs Stande soomer/ sie hñ vel ad sier um̃ marga Hlute framar odrum/ þa spiller hñ miog svo Agiæte sijnu/ ef hñ meinar þad verde ágiætara fyrer Bwningsens Skulld/ þvi Salomon i allre siñe Dyrd var ecke svo skryddur sm̃ eitt af Akursens Liliu-Grosũ/ og vier vitũ þo/ ad Gud hefur meira virdt hiñ aumasta og heimskasta Vesæling a medal vor eñ þau/ Eñ vier eigũ ad bera somu Virdingu fyrer Hlutunum

unum og hn̄ ſm̄ þa ſkapad heþur/ Eñ ſie nockur ei nema Almeñelega Koſtum bweñ/ og vill þo leita ſier Fordilldar aþ Klædnadenum/ þa er mikel Fæviſka i þvi. Eg veit ad eiñ Aſne verdur þo alldrei Heſtr/ þo Meñ ſetie Gull-Sødul a hañ/og ſvo verdur eiñ Dære alldrei vijs/ hverneg ſm̄ hn̄ mælar ſig utan. || Þeſſe Oſidur fer miøg ſvo i Voxt i Lande voru ſmamſaman nu nockur Ar. Ambættin vill eins klædd vera og Nwſſ-Mooderen/ Þienareñ eins og Herrañ/ Sonureñ betur eñ hañs gamle Fader. Formegunen / Mañſkapureñ/og Vijſdoomureñ eru i burtu wr Landenu/ Eñ Bwningur og Klæda-Snid eblest Daglega / eiñ Skoola-Dreingur koſtar ollu til þeſſ ad þær vænañ Kiool/ eñ ad kaupa ſier eina Book hvar aþ hn̄ nockud gott meige læra þar hyrder hn̄ ecke um̄. Og um̄ alla Hlute fram̄/þa ſkulu vor Klæde ſkoreñ vera epter framande Þiooda Snide/ giætande lijted ad þvi ſem DRotteñ ſeger ſke ſkule a ſijnū Slætrunar Dege/ ad hn̄ vilie ſtraþþa alla þa ſm̄ bwaſt Vtlendſkum Bwnade/ Zoph. 1. Hvad vill hier aþ verda nm̄ ſijder? Eg ætla DRotteñ þurþe ecke ad leggia Hondena a oſſ/ vær erum vorer eigeñ Bodlar i ſlijku/ ſvo ad lijkaſt er eþ þſſu ſkal leinge framþara/ ad þad mune ganga øſſ eins og þad gieck Judum er þeir tooku upp Sidu Griekia/ ad þeir urdu þeim ad Bræd/ hverra Sidum þeir breytlu epter/ 2. Mac. 4.

Framveges ſtendur hier um̄ þeña Munadar Kropp / ad hañ hafe eted Daglega ſkijnande Kræſer. Epter Textans Ordū er þ ſvo/hn̄ hiellt ſig Forkoſtulega Gladværañ Daglega. Þetta mæ ſkilia / ad haþe vered i Mat og Dryck og ødru Ohooþe / ſm̄ heyrer til Lijkamlegs Munadar. Nu er þad hier ad ſegia / Ad DRotteñ hefur ecke bañad ad haþa Jñdæle af ſijnum Skiepnum i rettañ Tijma og med Hooþe og Sidſeme. Sialþur var Frelſareñ ad Heimbode Maña a ſijnum Hiervíſtar Døgū i Cana i Galilæa/hia Simone Pharíſæara/ hia Zachæo/z optar/ hvar þyrer þooft hn̄ være hid þegurſta Sparneytneñar og Hooþſemeñar Dæme/ ſm̄ nockurn Tijma heþur ſkined i

Verølldenñe/þa var hñ þo aþ Illgiørnu Phariseis Opnenfstumadur og Vijnsvelgur kalladur. Ia/ hñ liet sitt blessada Høfud smyria med dyrmætu Salve/og þoott hñ være allra Hluta DRottenñ/ bæde a Himne z Jørdu/ þa munde hñ þ ecke giort haþa/nema slijkt være Leyþelegt nær þad er i Hooþe / og med goodre Sickan brwkad. DRottenñ

Bodi Drottins, baud sialfur i sijnu Løgmæle um Lauþskæla Hatijdena / Levit: 23. Þier skulud vera glader fyrer DRottne Gude ydar i Siø Daga/hvert Løgmæl ad Moyses itrekar/ Devt:12. Þier skulud eta þyrer DRottne Gude ydar og glader vera/ þier og ydar Hyske/aþ øllu þvi sm̃ þier rietted ydar Hønd til/aþ hveriu DRottenñ Gud hefur blessad þig. Og framveges i hinu Attianda Verse seger hñ/ ad þr skule ecke eta iñañ siña Porta a Lauþskæla Hatijdeñe sijnar Korn-Tijunder/eda Tijund er af Musteñe edr Oliuñe. Eñ hñ seger: Þier skulud eta þ þar i þm̃ Stad/sem DRottenñ Gud wtvelur/þu og þiñ Sonur og þijn Dootter/ Þræll þiñ og Ambætt þijn/ og Leviteñ/ sem er iñañ þiña Porta/ svo skalt þu gledia þig fyrer DRottne Gude þijnu/ hvert Løgmæl Ne-

[illegible] hemias og Hezras Kieñemadur aptur iñleiddu epter Herleidinguna/ [illegible] Nehem: 8. er þeir budu Foolkenu a Lauffskæla Hatijdeñe / eted hid þeita og drecked sætañ Dryck/ og sended þeim eiñ Part/sem eckert tilbwed haþa. Af þessu er audsært/ ad hiñ goode Gud heþur ei bañad

[illegible] ad gledia sig i Hoofe/ þo svo/ ad Meñ dyrke hañ med Virdingu / og [illegible] gledie sig med Otta/sm̃ David bydur/Ps.2. Vijn z Vister eru fyrer Mañeñ skapadar/ ecke þorgieþens/ helldur hønu til Vnadsemdar og skickanlegrar Brwkunar/ eñ Vanbrwkuneñ kiemur aþ Hølldenu og

[illegible] aþ Fiandanu. Vid þetta Guds Epterlæte a nu Metnadur og Ohoofens Rijka Sælgiætings eckert skylldt. Hier stendr ad hñ haþe hallded sig þorkostulega gladværañ Daglega/ þad er ad skilia/ hañ var allur socken i Munad Veralldar þessarar/hyrdte eckert um̃ Gud/ eckert um̃ sijnar Synder/ eckert um̃ hid komanda Lijþ edur siñ Dauda/ helldur haþde hañ Magañ þyrer siñ Gud/ svo sem Postuleñ ad Orde kiemst/

Philipp.

Philipp. 3. Ja/ riett eins og Esajas seger i 56. Cap. Komum/ lætū oss ꝼylla oss aꝼ sterku Vyne/ og Morgun-Dagurenn skal þessum lykur verda/ og enn þa kostulegre/‖ og vantar oss ecke þa i Lande voru/ er hid sama giøra mundu/ heꝼdu þeir Rad eins og þesse. Eckert hyrda þeir um̄ sitt Embætte/ eckert um̄ sitt Framꝼerde/ eckert um̄ Landsins Gagn/ eckert um̄ syna Sæluhialp/ eckert um̄ syna Burtꝼør af Heimenum/ svo sem heꝼdu þeir Feste-Bref aꝼ Andskotanum/ ad þetta skule Æꝼenlega vara/ ja/ um̄ eingann Hlut nema um̄ Munn og Maga/ og þad sem þeir kun̄e ad haꝼa til ad þioona þeim med/ jaꝼnvel þoott þ skule verda hripsad wt aꝼ Mun̄e Naungans med Ofbellde og Rangindum.‖ Nu voru þesser Lester hins Ryka Sælkiera/ svo vonder og ꝼordæmanleger/ sem alla reidu er nockud um̄talad/ enn þad jook ofmikillu a/ ad hin̄ Vesæle Lazarus/ fullur Sara og Kauna/ la Hungradur ꝼyrer hn̄s Dyrū/ og er Lyklegt ad hn̄ hafe nærsta Klædꝼar vered/ þvi sa sm̄ eckert haꝼde til ad sedia med sin̄ hungrada Maga/ hn̄ mun ecke hafa miked haꝼt til ad klæda hin̄ sama Lykama. O/ hvylijk skielfeleg Hardydge var þetta. Eckert þurꝼte þesse Gudlause Kroppur ad missa aꝼ synu Borde/ til ad sedia þen̄a Vesæling med/ þvi han̄ gyrntest ad sediast af Molū þm̄/ er ꝼiellu þar aꝼ/ Eckert af synu Pelle og Purpura/ þoott han̄ heꝼde kastad ein̄e Flyk a han̄ (sem hans Þrælar ecke villdu bera) til ad hylia syn Kaun med/ enn þvi var ei svo vared/ Hundarner voru Myskunsamare helldur enn hn̄/ sm̄ Gud haꝼde gieꝼed Vit og Skyn/ og þar ad auke Fullsælu Fiar/ þvi þeir komu z sleiktu Kaun hn̄s/ og mætte lyklega segiast/ ad þeir mundu ꝼyrr inngang i þa himnesku Jerusalem/ Apoc: 22. heꝼdu þeir þar til skapader vered/ helldur enn þetta Villu-Dyr. ‖ O Gud gæfe/ ad þr sm̄ hn̄ hefur blessad med Audlegd Veralldar þessarar/ þeir villdu þo/ sege eg/ ein̄hvern Tyma hugleida/ hvad miked þeir eru Guds Volldū Linum skyllduger. Seg mier þu sem vellter þier i Maurunū/ z varla veitst hvad þu skallt af þeim giøra: Þegar þier var kastad in̄ i Heimen̄ un-

þer eins z fatækis Barnenu/ Hvad hafder þu til meira uñed af Gude helldur eñ þad? Vorud þid ecke bæder eins i Syndeñe gietner? Varst þu nockud meira med þier iñ i Verølldena helldur eñ hañ? Edur muntu meira i burtu bera? Hvar fyrer var Gud þa skylldugur til / ad giøra þig rijkañ/ eñ hañ fatækañ? Ecke til þess/ ad þu skuler kapp-ala þiñ syndugañ Bwk eins og þesse Dære / ecke til ad bwa þig i Skart eins og hñ/ecke til þss ad upphefia þitt Hiarta edur festa þad vid Audeñ eñ gleyma þijnum Broodur sm ad Naudstaddur er/ helldur til ad dyrka sig þar med/ og leggia svo mikid af vid hñ sm Gud kref-ur/ þvi hñ er Hwsbooñdeñ/ eñ hñ krefur svo mikels sm hiñi Volada ma verda hoolped med/ og þu kañt vel ad missa/ og þad jafnan nær þu sier edur heyrer eiñ Naudstaddañ/ og nær þu þad sier edur heyrer/ þa vil ad þar er komeñ eiñ Skullda-Madur fra Gude til ad beidast þess er hñ lanad hefur/ og þu hefur Ofmikid/ eñ hañ ma vel biarg ast vid. Þegar þu krefur Skulldar þiñar hia Aumingia nockrum/ og hñ hefur þad ecke til sm hañ skal giallda/ edur hañ ma þad ei missa an sijns stoors Baga/ þa krefur hañ þig under eins i Guds Vmbode þeirrar Skulldar er þu att høñu ad lwka/ eñ hñ hefur Vesælingnu giefed/ later þu hana ecke til/ þa verdur þu Skullda-Þrivotur Guds/ Ja/ Þioofur i hañs Auglite/ þar þu stelur wr sialfs þijns Hende/ og hiñ strange Hussbonde mun krefia þig Avaxtar fiar sijns i Tollbwd-eñe hia þeim Rijka Mañe/ nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvolunu eins og hñ/ nema þu brwker Raad Danielis/ er hañ gaf NebucHad-nezar Konunge/ Dan. 4. og afplanar Ranglæte þitt med Olmusu-giørdum vid Fatæka/ Heyr þvi Salomonis Ord/ er hñ seger/ Prov: 3. Gleym ecke ad giøra þeim gott sem byriar/ nær þijn Hønd hefur Efne þar a/ Seg ecke til þijns Naunga/ gack burt og kom aptur/ a Mor-gun vil eg giefa þier/ og þu hefur þad þo/ z lat þier þad sagt vera/ ad hiñ Volade hefur miklu meire Riett til þess / er þu eignar þier/ helldur eñ sialfur þu til ad brwka Guds Lan til Ohoofs z Metnad-ar/

ar/ hvert hn̄ margfalldlega ban̄ad heþur. Drotten̄ seger fyrer Mun̄ Hoseæ/ um̄ Gydingan̄a Samkundu/ Hos. 2. Hun veit ecke ad eg er þad sem gieþ hen̄e Korned og Mustena og Oliuna/ og þæ hen̄i mæg-tanliga Silþred og Gulled/ er hun giører Baal aþ/ Þetta a miog svo vel heima hiæ þeim sem Gud heþur feinged i Hendur alls Nægter Fiær/ en̄ þeir draga þad aþ han̄s fæmdum Limum/ i hveriium han̄ skipad heþur ad dyrka sig/ en̄ brwka þad til ad ala sin̄ Lauslætan̄ Kropp/ til Nidur-Dreps honum sem Ræninden lijdur/ til ad heþna a Ovinum sijnum. Þesser giøra Baal wr þeim Hlutum sem gooder eru i siælþū sier/ og setia han̄ i Guds Kirkiu/ sem vera ætte Hiarta þeirra/ ꝥ er hina ørgustu Svivirdingu Foreydslun̄ar i þan̄ Stad sm̄ ætte ad vera hin̄ allra Helgaste. O Gud betre vorar Tijder/ Satan heþur Kaupmen̄ sijna i Guds Kirkiu medal vor/ þad er i Man̄an̄a Hiørtum/ hveria han̄ giørt heþur ad Ræningia Bæle / ei sijdur en̄ Gydingar fordum Mustered/ En̄ hvad selia þeir þa og kaupa? Þeir selia hin̄ Riettlæta fyrer Peninga/ og hin̄ Volada fyrer eina Skoo/ þeir troda Hoþud Fætækra i Sauren̄/ og um̄turna Vegum fra Hæg lætu/ Amos 2. en̄ um̄ sijder selia ꝥr sijnar eigen Sæler. Þess giet ur Syrach i 10. Cap. med ꝥssum Ordum: Eckert er Rænglætara Fegiørnum Man̄e/ seger han̄/ þvi han̄ lætur fala Sælu sijna/ þar fyrer seger Frelsaren̄/ ad lijted gagne þad Man̄enum/ ad han̄ eignest allan̄ Heimen̄/ og lijde Töpun a Sælu sin̄e/ hvar um̄ ꝥsse rijke Mad-ur mæ øllū ꝥm̄ lioost Dæme vera er elska Kroppen̄ meir en̄ Sælena. Ecke stendur hier i Gudspiallenu / ad han̄ haþe vered illa komen̄ ad Aud sijnum. Þad var hn̄s Fordæmingar Søk/ ad han̄ brwkade hn̄ til Ohooþs/ en̄ gleymde hinum Naudstadda og Fætæka. Nu eþ hn̄ fieck svo skielþeligan̄ Doom/ hvad vilia þeir þa segia a medal vor/ sm̄ ecke einasta stijnga wr sier Augun nær þeir siæ ein̄ Þurþaman̄/ edur an̄an̄/ sm̄ vin̄ur Bake brotnu fyrer þvi er ꝥr brwka til Munadar sier/ helldur og rya Guds volada Saude/ og eta sitt Braud i þra Andlitis

Sveita? Hvad munu þeir segia vilia? Hvers munu þr vænta sier nær þr eiga ad skilia vid allt þ er þr med Rangindū hafa samanðreiged? DRottenn seger vid Konungenn af Tyro/ Ezech. 28. Þu seger/ Eg em sterkur Gud/ og by i einu Guddoomligu Herberge/ enn skomu siidar verdur hønum sagt: Muntu nockud segia vid þinn Veganda/ Eg em sterkur Gud? Langtū eru þr miñe Mattar enn Konungurenn af Tyro him oss/ er sig giora nærre þvi ad Gudū/ þegar þr uppheffia sig yfer Guds Ord og Konungsens Log/ þegar þeir fella hinn Saklausa enn heffia Skalkinn/ og þyker svo sem þad stande i siinu Vallde ad rada fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu/ enn þegar Daudenn kiemur svo sem ein Volldug Hetia og kastar þm i Bana-Sængena/ þegar Samvitskan tekur til ad bijta/ þegar Miñing Glæpaña tekur ad Opbiooda þm/ þegar Sathan sem heffur flekad þa til allskonar Odæda/ þegar hañ reider Svipuna til/ og syner þm Helvijtis Loga/ hvar hinn rijke kvelst og kveliast mun um Allder Allda/ enn Guds Reidar-Þruma slær af Himnū ofan/ mun þa vesæl Mañeskia segia/ Eg em sterkur Gud? Heyred þetta/ O þier sem utsuged Hws Eckna og Fødurlausra/ og leited DRottens a medañ hañ er ad fiña. Hiner agiornu og Ofrijkismeñerner eru med tvenu Moote/ sumer færa Foorner Nete siinu/ og breña Reykelse fyrer siinum Veidarfærū/ þviad fyrer þau er þra Hlutur feitur vordenn/ og þeirra Matur hinn beste/ svo sm Habacuc ad Orde kiemst i 1. Cap. Þetta eru þeir sem reikna þad til siñe goodre Forstoon (riettara ad segia / Rangsleitne siñe og Vnderhyggiu) ad þeir eru rijker vordner/ og feiter af añarra Braude. Adrer eru þr ed segia/ blessadur sierttu DRottenn/ þad eg em rijkur vordenn/ enn drepa þo Slatur-Saudena med Ofbellde/ og eingenn er sa sem ad fæde þa edur brwke Medaumkun med þeim/ eins og þsse same Spaamadur ad Orde kiemst. Þetta eru þr sm af Gude og enu hærsta Vallde eru yfer adra setter til þess ad þeim lijde vel/ enn giora þo eckert þad sem Gud og Konungurenn boded hafa/ helldur eta i kryngum sig eins og

Ulfar

Ulfar og Byrner/ og ſyna þeim einga Miſkun er under fra Vallde ſtynia/ helldur kalla/ ber hn̄ngad/ ber hn̄ngad/ og nær þeir hafa ſvo drucked Blood Veſælinganna/ þacka þeir Gude ſvo ſm̄ fyrer Riett-feingen Sofn. Hverier af ꝥſſum verre ſieu er eige ſvo audvelldt ad ſegia/ nema þad/ ad Hræſnen giører hina ſkiꝺare andſtyggelegre i Guds Auglite/ þvi af tveññu illu þa er ſkarra ad eigna Hreckvyſſe ſiñe Klækena helldur eñ Gude. Hitt veit eg/ ad hñ ſeger um̄ ꝥſſa hveru-tveggiu/ Hab. 2. Vei þeim er ſafnar þvi ſem ecke er hñs (hvar ſkal þad lenda) og þm̄ ed ſamandraga hiñ þietta Leyr. Vei þeim ſem er giefeñ fyrer Rangfeingnū Abata fyrer Hws ſitt/ ad hñ bwe Hreidur ſitt i Hædunū/ ad hñ verde frelſadur af Vallde hiñs vonda/ þu hef-ur eitt ſkam̄arligt Raad teked fyrer þitt Hws/ og upprætt margt Foolk ꝫ hefur ſyndgad a mooſe ſialfum þier/ þvi Steineñ i Veggnū hroop ar þad/og Kviſtureñ i Trienu vitnar þar um̄/ Eg veit þar er margur er ſeger/ eg ſafna ecke til þeſſ ad giøra eins og ꝥſſe rijke Madur/ eg helld mig ſparliga/ eg er ecke Eydſluſamur/ þad er gooft ef þu ſafn-ar riettelıga/ og giører gott hiñū Volada/ eñ ef þu ſafnar einaſta fyrer Erfingia þijna/og ꝥ med riettu og raungu/ þa maa ælijka gyllda hvert ad Moab liggur a Dreggium ſijnum/ edur og ad hañ fagnar i ſiñe Spyiu/ og verdur til Athlæturs/ Jer. 48. Þvi ſkyllda eg ſteypa mier til Helvijtis fyrer miñ Erfingia/ i ꝥre Von ad hañ ſkule lifa vel epter mig daudañ/ og eg veit þo ecke hvert af þvi verdur edur ei/ þvi kañſke mijn Ogudlig Bwſorg giøre hñ verre i þvi/ad hñ misbrwke þad til Ohoofs er eg med Rangindum ſafnade/ og eg kyñe þar med ad leida hñ til Helvijtis med mier/ þoott þad verde ecke um̄ ſama Veg og eg foor/ og hverneg ſm̄ þvi er vared/ þa plagar Guds Straff ad fylgia ſoddan rangfeingnum Aud/ þar eru Þuſund Meler i hveriu Alnar Virde ſm̄ ecke verda i burtu tekner/ nema Erfingiñ giøre ſier Vine af ꝥſſum Ranglætis Mammona/ og vil eg þa helldur giøra ꝥ ſialfur medan eg life/ ſvo ꝥr medtake mig i eilijfar Tialldbwder/ helld

ur en̄ eiga þad under honum sem þo gietur ecke leyst Sæalu mÿna wr Helvÿte med ollu þvi sem eg honū epterliet. Þad segest um̄ hin̄ rÿka Purpura Gick/ ad hn̄ hafe Pelle klæddur vered/ þad verdur ecke svo greinugliga sagt a vora Tungu/ hvad þad Ord þyde er i Textanum stendur/ En̄ um̄ vidlÿkan̄ Vefnad skrifar Plinius/ ad han̄ brenne ecke i Elldenum/ þvi voru Lÿk Konunganna sveipud þar i/ a hinne gomlu brenne Olld/ ad ei blandadest þra Aska med Vidar-Oskunne. meige eg skiemta um̄ hin̄ Oskiemtelegasta Hlut/ þa villde eg segia/ ad þsse Dære hefde giort vÿslega/ hefde han̄ teked nockud af þssum dyra Vefnade med sier til Helvÿtis/ hefde þad mætt hlÿfa honum fyrer Loganū sm̄ han̄ kvaldest i/ en̄ Englarner voru fwsare til ad bera Lazari Sæal i Abrahams Skaut/ helldur en̄ Dioflarner til ad færa hans Pell og Purpura og allt an̄ad Oflæti med honū. Lazarus skilde sin̄ Armood epter vid Dyr hins Rÿka/ en̄ hin̄ Rÿke sÿna Fe-Dingiu i sÿnū kostulega Garde/og hrapade svo fwll og Felaus i þad Dyked sm̄ rykur af Ellde og Brennesteine/ svo munu og aller þr giøra er læta hans Lætū i þessum Heime / en̄ forsmæ hin̄ Naudstadda og Dreigan̄/ og læta han̄ jafnvel i Hwngre wt af deyia/ a medan þeir ala sin̄ giælÿfan̄ Kropp til ad verda Helvÿtis Ellds-Matur og Brenne-Foorn Andskotans/ og er svo pan̄eg wttalad um̄ hin̄ Rÿka.

11. Nu epterfylger ad tala med fæm Ordum um̄ hin̄ Volada Lazarum. Gudspialled min̄est hns a þen̄a Hætt: Þar Var Ein̄ Þurfa-Madur/ ad Nafne Lazarus/ hver ed wte læ fyrer hns Dyrum/fullur Kauna. Allt þad Volæde sem einne Man̄eskiu kan̄ til ad falla/ hefur a þessū Man̄e leiged/ han̄ var fætæakur/ þad var mikil Vesolld/ þ er þad sem flester af oss veria sig hvad mest fyrer/ og nockrer selia sÿna Arfleyfd i Himnenū til þess/ ad vera ecke fætæker i Heimenū/ svoddan ein Hormung þyker Orbyrgden Man̄a a medal/ þvi seger Salomon/Prov: 15. Aller Dagar hins Fætæka eru iller. Texten̄ seger/ ad honum hafe vered kastad nidur hia Dyrum hins Rÿka/

eins

eins z ødru Hræe/sm̃ eingeñ hyrdte um̃ meir/eñ þo daudum Hunde vœ- re utkastad. Svo breyta Meñ vid Guds Mynd / þegar hun byr i liootu Hwse / og virda Hussbondañ epter Herbergenu. Þesse For- sman̄ hefur z mætt auka miklu ofan a Volæde þyssa ſœrmda Mañs/ og hefur þ geinged hier eins og Salomon seger/ Prov: 19. Brædur hiñs Fatæka hata hañ/ og Vinerner vykia i burt fra honum|(Eñ þ took yfer alla hñs Eymd/ ad hañ var fullur Kauna/ og svo Aumur/ ad Hundar sleiktu hñs Sær. Mageñ hefur kañ skie vered heilbrygd- ur/ og þvi hefur hñ gyrnst ad sediast af Molū þm̄/er duttu af Borde hiñs Ryka. Eñ aller adrer Lykamans Limer svo plægader/ ad hañ gat einga Biørg sier veitt / og hefur Magans Heilbrygde ecke añad giørt/ eñ ad abla honum þess meire Pyslar med Hwngrenu z Matar- Lysteñe/ þar hñ fieck eckert ad sedia sig af. Sæ sem Heilbrygdur er/ hñ giefur uñed sier Mat/þo hñ sie Fætækur. Forsmæn Veralldareñ, ar /er ecke svo þwngt ad lyda/ þeim er hægt ad forsmæ Heimeñ/sem Heimureñ forsmæer/ og er þad þa Kaup Kaups/ sem Meñ plaga ad segia. Þvi vottar og Pæll um̄ sig/ Gal: 6. ad hañ sie Krossfestur Heimenū og Heimureñ sier/ þad er / ad hver forsmæ añañ/ Eñ þad er hverium Mootgænge meira/ þegar Gud tekur svo Heilsuna af nockrum/ ad hañ giefur ecke bored edur ræded sialfum sier/ þ geingur næst þvi/ ad vanta Hugsvølun Guds Anda/ z fiña ei til heñar/nær Mañ længar þar epter/ þvi svoddan er Helvytis Pyslum lykast/ þyssu gat Sathan nærre fordū Daga/ er hñ sagde vid Gud um̄ Job/ Job: 2. Snert þu hañs Bein og hañs Kiøt/ og siæ hvert hañ bølvar þier ecke under Augun. Skule Meñ og satt segia/ þa fieckst þesse Guds Madur ecke svo miøg þar um̄/þoott hañ miste Fiærhlute syna/Syne og Dœtur synar/ edur þoott þeir af Saba og Caldœa veittu honum Yfergang/ Eñ þegar Gud leid Andskotanum ad slæ hañ med hiñū verstu Kaunum/ fræ Hvirfle og allt til Ilia/ þa took þesse DRottens Vinur/ helldur eñ ecke/ ad læta sier Hugfallast. Svo var nu Lazar-



fyrlitin og er þ þo ánlegt.

þad hun hungri, þ lykamans heilsa eykst vid,

er hun olla mótgangi -ri

og lýkast hel-vytis p- slum, sem Dæmi syn

us aumur/ sem sagt er/ og øll hin þyngstu Mootlæte Veralldareñar
lææu a hønū/ Vrbyrgd/ Klædleyse/ Hungur/ Forsmaan/ og Lykamans
Vanheilsa. Eñ þu syndugur Madur/ sem ert heill ꝛ hraustur/ hef-
ur noog til ad klæda og fæda Lykamañ med/ og ert af eingū Ovirdtur
i neinu/ munt þu ecke hafa Orsøk til ad þacka hinum lifanda Gude/
þegar þu æløjtur þetta Vesæla Hræ/ nidurkastad fyrer Dyrum hins
Ryka/ og eckert Auga myskunade hønū/ ad hñ svo vel giører til þyn/
ad þig vantar eckert af þvi/ sem hañ allt vantade/ Munt þu nockud
vera heilagare helldur eñ hañ? Eg veit ecke hvøljkur hñ vered hef-
ur/ þad sie eg/ ad hñ hefur Guds Vinur vered/ añars hefde ecke Sææl
hñs vered boreñ af Einglum i Abrahams Skaut/ eñ hitt veit eg/ ad
ecke ert þu heilagare eñ Job/ hver ed hefur Guds Vitne um þ/ ad hñ
ecke hefde siñ Lyka i Landenu/ Job: 2. Hveriu mun þa vera ad þacka/
ad þu ert ecke eins plææggadur sem Job og Lazarus/ nema Guds O-
kañsakanlegre Giæsku og miklu Þolenmæde/ sm̄ med Rykdoome siñar
Lææglundar/ dregur þig til Yduranar/ seig þvi ecke eins og Ephraim/
eg em rykur vordeñ/ allt mitt Erfide næger mier ecke/ þeir ed syndga/
bera Straff Syndareñar/ Hos: 12. Miklu helldur nær þu stygur a
þyn hraustu Bein/ þa hugsa til þess/ ad Gud hefur ecke Velþoockn-
an a þeirra Styrkleika/ helldur a þeim/ sem hñ Ottast. Nær þu te-
lur Fe þitt/ edur skodar þiñ dyra Klædnad/ þa hugleid/ ad Lazarus
æ af þvi svo miked/ sm̄ hñ vidþarf/ og ef þu hefur tveñ Klæde/ þa
heyra hinum Nakta añur til/ Ef þu villt vera Johannis Baptistæ
Læresveiñ/ Luc: 3. Þegar þu hefur hid mesta Gaman af Skilning-
ar-Vitunum/ sem Gud hefur giefed þier til Naudsynlegrar Brwkun-
ar/ þegar Tungan/ Augun/ Eyrun og adrer þyner Limer/ eru þier til
hiñar mestu Skiemtunar/ þa lææt jafnvel þessa Guds Skapnadar
Misbrwkan miña þig a Lazarum/ þar hñ liggur nidurkastadur eins
og añad Daudible fyrer Dyrum hins Ryka/ og hefur einga Værd
fyrer Sææri og Verkium. Þecktu hañ medañ hñ er hia þier/ ad ecke
þurfer

þurfer þu ad kastast vid hñ fyrst/nær þu uppvaknar i Helvijte z Kvo-
lunum/ sm þu ecke þeckia villder a medañ þu liekst þier ad allre Full-
Sælu i Heimenum/||ia / medañ þu hefur hina mestu Skiemtan af
Syndsamlegre Glede þessarar Veralldar/ þa lát þier i Hug koma/
hversu ad hun sie eckert hia Sælu Lazari/ þar hañ badar nu i Abra-
hams Skaute/ þvi hañ sem best þecker þa eilijfu Dyrdar Vist/ hver
og hefur keypt oss hana til Handa med sijnu dyrá Bloode/ hañ bydur
oss/ ad vier allañ þeña Hiegooma skulum afsnijda/svo vier kuñum ad
eignast hana||ia/hugsa til þess/ad Sællijfe þessa Heims ma ei lein-
ge vara/ og þott þu yrder allra Kalla elldstur/ þa skal þad þriootá/z
þ er ecke Langvint/ sem eiñhvern Tijma Enda tekur/seger Augusti-
nus/ eñ Lazari Giestabod tekur eingañ Enda.|| Vijsiega hefur hiñ
stoore Konungur þvi skickad / svo sem ollu odru i sijnu Rijke/ ad hañ
liet Pijsler Fordæmdra verda eilijfar/ þvi være þar Endurlausn wr
Helvijte/þa efast eg ecke um/ ad margur Gudlaus Dære munde viña
þad til Stundlegs Munadar/ ad fremia alla þa Ohæfu/er honum i
Hug kiemur/ þott hañs Hreinsunar Elldur ætte ad vara um allañ
Heims Alldur/og svo sm hñ hefur i þvi Vijslega giort/svo hefur hñ
a hina Sijduna Vægdarsamlega breytt vid þa/sm hñs Ok bera hier
a Jordune/og halldner eru Afrak Veralldar/og svo sem nockurskon-
ar Hreinsunar Foorn/ epter Pals Ordum/þar hañ ecke einasta lofad
hefur/ad þurka oll Tareñ af þeirra Augu/og ad Daudeñ skule ecke
framar vera til/z ecke Sorgeñ og ecke Hrooped/og Mædañ skule ecke
vera framar/þviad þad umlidna sie i burtu/svo sm Johannes ad Orde
kiemst/ i hñs Openberuñ i 21. Cap: helldur þar ad auke skule þesse
Arfur ecke skiemast kuña/ ecke saurgast og ecke rotna/svo sm Von er
a/ þvi Christi Rijke mun eingañ Enda taka/ Luc. 1. Eñ vier muñ
med Christo lifa og rijkia z med DRottne ævallt vera/ svo sem Guds
Ande hefur oss heited fyrer St. Pals Muñ/ 1. Tess. 4. Þvi hofs
um vier ecke þsse Guds Fyrerheit/ þa mundu þr brádlega yfergiefa
sig/

sig/ sem eru Guds Børn/ eñ Nia-Børn Veralldareñar. Taked ydur
þ til Huggunar/ DRottens Viner/ sm̃ erud Stallbrædur Lazari/ þier
erud þættaker eins og hñ/ vardar miked um̃ þ/ nær þier erud i Truñe
ryker? Hvad gyllder ydur Audlegd Veralldareñar/ nær þier hafed hñ
eignast/ sm̃ Gud hefur giefed øll Endemørk Veralldareñar til Arf-
leyfdar? Er eg þier ecke betre eñ tiju Syner? sagde Elkana vid Konu
sijna/ Moodur Samuelis/ þegar þier hafed Christum i ydar Hiartū
gieted/ mun ydur þa nockud vanta? Mun hñ ei verda ydur betre eñ øll
Rijke Veralldareñar og þra Dyrd? Lazarus edur Eleazar/ sm̃ er hid
sama Nafn/ þad merker þañ/ sm̃ Gud er til Adstodar/ Barn mitt/ ef
Gud er med þier/ hver kañ þa ad vera a moote þier? Mun nockud Jar-
ned brioota þ Stæled af Nordrenu / seger DRotteñ vid Jeremiam/
þegar hñ heiter hønū Lide sijnu a moote Jerusalems Ofsa/ Jer: 15.
svo vil eg segia med David/ þegar Gud er med þier/ hvad vill þier Mad
ureñ giøra? þr vega aller miña eñ eckert/ þeir kasta þier wt af Dyrun-
um/ þr vilia ecke uña þier Vidtals/ hvad þa? Munu þr kuña ad baña
þier ad tala vid Konung Himnaña i Bænum þijnum? Munu þeir
kasta þier wt af Dyrum Himnarijkis? a medañ þeir ecke þetta gie-
ta / Barned gott / þa ætla eg þu stander Jafnriettur upp i
Guds Augum / þoott þu ligger flatur fyrer Dyrum hins Rijka.
Hvad er nu framar? þu ert forsmædur/ Lijdur Oriett/ eingeñ vill kañ-
ast vid þig/ þad er ecke nytt i Heimenum. Salomon sem ecke visse
af mikille Ovirdingu ad segia/ hñ giører Ræd fyrer þvi/ svo sm̃ hier
ad framan er fyrer skømu sagt. Seg mier/ af hverium verdur þu
Ovirdtur? af vondum Møñum/ þad er ecke þwngt ad vera hæddur af
þm̃ sem jafnvel ad Gude hæda/ og under eins þr forsmæ þig/ þa for-
smæ þr Skapara þiñ og þiñ Endurlausnara/ hvers Ok þu ber: þu
verdur af heimskū Møñum Ovirdtur/ þvi eingen er Fævitska meire
eñ sw/ ad forsmæ þañ sem Gud hefur virdt med Teikne sijns Son
ar/ þetta synest mier liett ad bera/ þvi eg mun ei fæst miked þar um̃/
þoott

þoott eiñ Skiptingur hlæe ad mier: ‖ þu verdur af svo morgū Ovirdtour/ eg jaata þad/ þviad fleire eru vonder eñ gooder/ heimsker helldur eñ vitrer/ eñ þo ecke af øllum/ nockrer eru þr sm̄ giæta Guds og sijns Overdugleika/ vitande ad þr hafa hid sama verdskulldad/ og eins þra Doomur a ad gyllda meira hiaa þier/ helldur eñ alls hins skynlausa Mwga/‖ þar eru gooder Meñ i Verølldeñe/ er sama hafa til Bruñs ad bera og þu/ og gietur þu þa huggad þig med Postulans Ordum/ ad þijner Brædur i Heimenū meiga lijda slijkt hid sama. ‖ Hversu laangt mun Rykte þssarar Ovirdingar wtberast? varla leingra eñ um̄ þad Land er þu lifer i/ ef Rykte hins stoora Alexandri/ og hñs Skoolameistara Aristotelis ecke naade yfer um̄ Fialled Caucasum/ edur Fliooted Gangem/ hvad lijtill Partur mun þad verda þa af Heims-Byggdeñe/ sm̄ þijn Ovirding gietr floged um̄? ‖ hversu faaer eru þr ed til heñar vita/ hiaa hinum Oteliande Skara heilagra Engla og Utvaldra Maña/ a medal hverra þu munt Dyrdligur skijna/ ef þu lijdur þessa Stundar Minkun þolenmoodliga. ‖ Eñ hvad leinge skal hun nu vara? allt til Grafareñar/ hversu miña er þad eñ eitt Augnablik/ ef þad er samanbored vid Eilijfdena? ‖ Eg vil ei faa mier til Orda u m̄ svo morgra heilagra Maña z Guds Þijslarvotta Dæme/ sm̄ hloou ad Ovirdingu Veralldar þssarar/ eñ þra Vegsemd og Heidur uppvaknade svo epter Daudañ/ ad Hiaatrw faavijsra Maña hefur þa nærre þvi ad Gudum giørt/ hveria Verølldeñ ecke hiellt verduga til ad þurka sijna Skoo i Lijfenu/ og var þo ecke þra verd / Hebr. 11. Svo hlæelig er nu Alldar þessarar Virding edur Ovirding/ edur seg mier/ hver er nu meir lofadur i Heimenum Lazarus edur hiñ rijke Magans Þræll? eg trwe flester hroose Lazaro meir/ z jafnvel þr s hinū eru hvad lijkaster.

Nu kiem eg til þss sm̄ flestum saarast þyker/ sm̄ er Heilsubresturen/ hañ hefur margañ Kappa yferbugad/ eñ þier sem Guds Hetiur erud/ og strijded under Frelsarans Merkiū/ giæted þss/ Born DRottens/ af hverium ydur er Sioukdoomureñ uppalagdur/ sm̄ er af ydar

Skapara/ hn̄ hefur feinged Sælum vorum Lijkamena/ svo sm̄ an̄ad Herberge til ad bwa i/ og a han̄ frialst ad um̄breyta þvi / og jafnvel alldeilis nidurbrioota epter Villd sin̄e. || Hvad villt þu kieppa vid sodd an Nætign? og ecke miklu helldur þolenmoodliga lijda hvad hellst hn̄ æleggur/ kan̄ skie þu hafer og sialfur vered Orsøk i þin̄e Vanheilsu med giælijfum og Ovørum Lifnade/og seg mier þa/hvad hefur þu ad klaga? Mun þa ei Rædlegast ad þu idrest Synda þin̄a/ og lijder þad med christeligu Um̄burdar-Lynde/er þu fyrer þra Skulld lijda mætt/ og læter þaneg jafnvel Syndena gagna þier til Sæluhiælpar||en̄ ef ødruvijse er / þa vit þo ad Gud leggur eckert a nein̄ fyrer Sakleyse. Siert þu þvi ecke Orsøk i þin̄e Vanheilsu med Ovarligum Lifnade i Mat edur Dryck/edur an̄arre Hættseme/er plagar ad kreinkia Heilsuna/ þa hefur þu forþienad Siwkdoomen̄ med ødrum Syndum/ þvi ef ad Jafnvel hin min̄sta Synd vin̄ur til Helvijtis / vilie Gud hana tilreikna/ þvi mun hun þa ecke vin̄a til Lijkamligra Meinlæta/ sem vara svo skam̄a Stund / en̄ Tilgæingur DRottens er allur an̄ar æ Stundum/kan̄ skie Sæl þijn sie vanheil/og hn̄ plæge Lijkaman̄ hen̄e til Heilsuboofar/ og þvi skyllda eg þa reidast Læknernū þoott hn̄ skiere þad Sæt upp sm̄ kwed er? Heilsan er alltijd good/ en̄ þo er hun dyrust þegar hana vantar / og þyker mest til hen̄ar koma nær hun er aptur feingen/ þvi tekur Gud hana i burt æ Stundū/til ad vekia vor dofen og sofande Hiørtu til Þacklætis og Lofgiørdar vid sig/ og tijdt leggur hn̄ Krossen̄ a þa sem eru hvad saklausaster/ ødrū til Epterdæmis/ad sijna þm̄ hvad þr forþienad hafe/ɀ hvad mikla Orsøk þr hafe til ad lofa Gud/ē þyrmer þm̄ sm̄ meira hafa syndgad/f þvilijkū Orkumstū. Skam̄ast þijn ecke þar fyrer ad vera settur ødrū til Þolenmæden̄ar Epterdæmis med Job/ og vert gladur af þvi ad lijkiost Christo/sm̄ og hefur oss til Epterdæmes lided/ 1. Pet. 2. Og fyrst þu skallt þad þo lijda/ þa hugleid hvad miklu betra er ad lijda eins og Guds Barn og hreppa eilijfa Sælu og Fognud til Launa/helldur en̄ ad brioota Oked i sundur

med

med Møglan og Þolenmæde/ og ecke einasta sleppa aþ Launnunum/ helldur ad hrapa wr hinne Tijmanligu Eymd i þa eilijþu/ sem alldrei mun Enda taka. Eg vil ei hier tala um þad sem Cicero skriþar/ ad eingenn Mootgaangur sie sa/ ad Tijmaleingden ecke line hann / þui vier hoþum eina Ædre Huggun/ad vor Lijkame er alldrei svo veikur/ad Guds Krapt ur ecke sie i vorum Breiskleika mæktugre/ þui hann er trwr/ og freistar einkis yfer Megn fram/ Og um alla Hlute fram/þa hugga þig vid þa Sælu Von og Dyrdar Auglysingu Guds Barna/hverrar ecke verd eru þessa Heims Mootlæte/ svo nær Verkerner stijnga þig/ og þu stynur aþ Oþraun/ þa hugsa hvad fagur ad sie Englanna Saungur: nær þu ser þinn Lijkama aþmyndadann aþ Saarum og Kaunum/ þa hugleid þad ad hann skal a sijdan verda Englunum jaþn/ sæ samlijkur JEsu Christi Dyrdlegum Lijkama: Nær þier eingenn Hlutr er til Skiemtunar i Heimenum/ þa læt þier i Hug koma hvad fagur ad sie Abrahams Fadmur/ sæ hin himneska Jerusalem/ hverrar Sool e Tungl ad Gud er/og hans Dyrd upplioomar hana/ Þangad ad komast/ og þar ad bwa um eilijþar Alla er unne oss hin heilaga Guddomsens Þrenning/ Fader Sonur og heilagur Ande Hæblessud um Allder Allda/ AMEN.

# Annann Sunnudag epter Trinitatis.

## Gudspialled/ Luc. 14. Cap.

A þann Tijma. JEsus sagde til eins aþ Phariseunum / þessa Epterlijking. Nockur Madur var sa/ sem giørde mikla Kvølldmaaltijd/ og kallade marga þar til/ og sende wt sinn Þioon um Kvølldmaals Tijmann/ ad hann segde þeim sem bodner voru/ Komed/ þviad nu eru aller Hluter til Reidu. Og þeir tooku aller til i einu Hlioode ad aþsaka sig. Hinn fyrste sagde til hans: Akur keypta eg/ og hlijt eg ad þara wt og skoda hann/ eg bid þig/ aþsaka mig. Og hinn annar sagde: Fimm Þor Akneyta keypta eg/ og fer nu wt ad reyna þau/ eg bid þig aþsaka mig. Og enn

eñ añar sagde: Konu hefe eg mier festa/ og fyrer þvi maa eg ecke koma. Og sa Þioonustumadur kom/ kuñgiørde þetta sijnum HErra. Þa vard Hwsbondeñ reidur/ og sagde til sijns Þioonustumañs. Far þu snarlega wt a Stræte og Gøtur Borgareñar / og leid Volada/ Vanada/ Blinda og Hallta hier iñ. Og Þiooneñ sagde: HErra/ þad er giørt hvad þu skipader/ og þo er eñ meira Rwm. Og Herrañ sagde til Þioonsins: Far þu wt a Þioodbrauter og Tungarda/ og naudga þeim hier iñ ad ganga/ so ad mitt Hws verde fullt. Þvi eg seige ydur þad / ad eingeñ þeirra Maña sem kallader voru/ munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.

## Exordium.

ORsøkeñ til þessarar Dyrmætu Epterlijkingar/ sem JEsus frambsetur i þessu heilaga Evangelio/ var sw/ ad þegar hñ var ad Heimbode med einum af Phariseaña Hofdingium Brauds ad neyta a Þvottdege/ þa var þar eiñ af Bordgiestuñu/ er sagde: SÆll Er Sa Madur/ Sem Etur BRaud i GUds Rijke: Og er i heñe sierdeilis tvent athugande/ sem er/ hvad meint sie med þessare Kvølldmaaltijd/ og i añañ Maata hverier þeir sieu/ sem bodner voru. Fyrer Maaltijdena kuña vel ad skiliast aller þeir Andleger Velgiørningar/ sem oss veitter eru i JEsu Christo/ hvern Gud i Heimeñ sende a Kvøllde Veralldar þessarar/ og liet hønu slaatra a Krossens Alltare/ og steikia i Bruna siñar heiptar Reide/ i hønu hefur hañ allre Verølldu alla Hlute tilreidt / sem duga til þeirrar eilijfu Veitslu i Himneñu/ sm̃ fyrst verdur þeigen hier i Naadeñe/ eñ sijdañ mun fullkomnast i Dyrdeñe. Hañ er Lijfsens Braud/ sm̃ af Himnum er ofankomed/ Joh: 6. Hañs Holld er sañarleg Fæda/ og hañs Blood er sañarlegur Dryckur/ hvert vierecke einasta medtokum med Truareñar Muñe Daglega/ helldur og Lijkamans i heiløgu Alltaresens Sacramento/ Eñ fyrer þvi/ ad DRotteñ svarade þessu Gyding uppa sitt Tal med þessare Epterlijkingu/ þa er lijklegt/ ad hañ sier i

Lage

Lage meint hafe þad Himneska Bordhalld med Abraham / Isaac og Jacob/ og lender þo allt i sama Stad/ þvi eiñ og hiñ same er Christur/ hvern vier smeckum hier i Nadeñe/ eñ muñu hñs algiørlega þar i hñs Dyrdar Ryke niootande verda. Sømu eru Visternar/ þad skilur alleina/ad þær eru ecke med sama Moote framreiddar. Nier siaum vier fyrer Speigel og i Nadgatu/ þar munum vier sia Auglite til Auglitis/ hier gaungum vier i Trwñe/ 2. Cor. 5. Eñ þar muñu vier ganga i Siooneñe. Trwen er Vera fra Nluta/ sem vier vonum epter/ hver ed syner þad sem ecke sied verdur i þessu Lyfe/ eñ i hinu ødru munum vier þeckia svo sem vier þeckter verdum/ og svo sem Foorner gamla Testamentesens voru ei nema Skugge Epterkomande Giæda/ svo er og Forsmeckur Himnarykes i Hiortum Guds Barna i þessum Heime ecke nema ein Skuggsiaa þeirrar eilyfu Dyrdar/ sem vid oss mun openber verda. Fyrer þa mørgu/sem ad i Gudspiallenu seger/ ad Kallader sieu/ eiga aller Meñ ad skiliast/ þvi svo seger Endurlausnareñ/ Matth. 20. Ad Mañsins Sonur sie til þess komeñ/ ad wtgiefa Salu syna til Lausnar-Giallds f. marga/ hvad Paulus svo wtleggur/1. Tim. 2. Ad Christur hafe giefed sig til Endurlausnar fyrer alla/þo er lykast/ ad hid fyrsta Bod sie þad sm̃ kom til Gydingaña/ sm̃ voru Rykesins Syner/ jaa/ kañ skie til þeirra Høfdingia Phariseaña og Skrift-Lærdra/ þvi DRottēñ hefur ann Efa bendt þm̃ hier med/ er til Bordsens sætu/ og þad er augliooost / ad Stoor-Meñe hefur þar vered samañkomed/ þvi añars munde hñ ecke hafa talad fyrer þeim skomu ædur i sama Siñ/ad nær þeir giørdu Giesta-Bod/ skylldu þeir kalla Fatæka/ Veika/ Hallta og Blinda/ Luc: 14. Eñ hina sydare meina eg ad vera Fatækañ Almwga Gydinga/ sem tapfudu a Strætum og Gøtum Borgareñar/hveria sialfer Høfdingiarner kølludu bølvadañ Lyd/ sm̃ ecke visse af Løgmalenu/ Joh: 7. Eñ hid sydarsta kalla eg ad heyre oss til Børnum Heidingiaña / er sætu a Þioodbrautum og Tungørdum/ Fiarlæger Israels Borgar-

Riette / og ǽn Guds i Heimenum/ ſvo ſem Paulus talar: Ad þeſſu ſvo fyrermǽltu/vil eg giefa mig til ad hugleida Textañ nockud gior/ og af honum tvent yfervega/ ſem er. 1. Hvad oſſ allra meſt hindre frǽ ad þiggia þetta Heimbod. 2. Hvad oſſ eige meſt ad leida til ad þiggia þad.

Styr þu Mǽle mijnu/ DRotteñ miñ/ og Hiortum Barna þiña/ til Lofs ꝛ Dyrdar þier/eñ oſſ til Sǽlar Nota/i JEſu Nafne/ Am.

## Vtleggingeñ.

HJá Matth. i 13. Cap. Vpptelur DRotteñ fierdeilis þreñt ſm̄ hǽge Mañenum frǽ ad heyra Guds Ord med Avexte. Þad er Sorg Veralldareñar/ Audǽfe/ ꝛ Gyrnder heñar/og þetta þreñt ſeger ſa Lǽreſveiñ ſem hñ elſkade/ ad Heimureñ ſie fullur af/ ſm̄ er Drambſamt Lijfferne/Fyſn Augnaña/ og Gyrnd Holldſens/ 1. Joh. 2. Allt þetta er ad ſiǽ hiǽ þeſſum fǽvijſum Moñū/ er ecke villdu þiggia Mǽltijd þſſa er i Gudſpiallenu talar um̄. Hiñ fyrſte ſeger/ BVgard Hef Eg MJer KEYPtañ/Og HLyt Eg Ad FAra Vt Ad SKOda HAñ. Þad kalla eg ſama og Sorg Veralldareñar/ ſem Lauſnareñ nefner hiǽ Matthǽum/ eñ Johañes Drambſamt Lijfferne/þvi til hvers kaupa Meñ ſtoora Garda edur byggia þa/nema ad þr vilia ſynaſt odrum meire/ og auglyſa þar med/ ad ſvo ſm̄ þeirra Hiarta er ſtǽrra eñ añarra/ ſvo ſkule og þeirra Hybijle vera. Nebuchadnezar Konungur ſtǽrde ſig af hiñe miklu Babilon/ er hñ hafde byggia lǽted til Heidurs vid ſiñ Herradoom / eñ þar fyrer vard hañ ad Villu-Dyre og ǽt Gras med þeim. Svo verda og aller þeir er ſtǽra ſig af Yferlǽte Veralldar þeſſarar/þegar þeir vilia vera meire eñ Meñ/ þa verda þeir Heſtum og Mwlum argare/ og þeckia ecke Gud Himnaña/ hveriu eingeñ er Fǽſiña meire. Þegar Meñerner uppreiſtu Babel/ til ad giora ſier Nafn a Jordune/ ſvo ſm̄ þar ad kvedur/ Gen: 11. þa voru þeir ſtraffader af Gude/ ſvo eiñ braut þad

er

er añar bygde/ þeir villdu byggia hñ upp til Himna/svo sm̃ þar seger/ eñ Himnaña DRottiñ sloo þa med Raadleysu/ svo þeir og þeirra Aßkvæme skridu wt um̃ alla Verølldena/ þvi mun þad ei Vegurenn vera til Himnarijkis/ad bwa sier fasta Boolßestu hier i Heime. Þetta sege eg ecke þess vegna/ad allur Metnadur sie þar i fyolgeñ/ad eignast Gotz og Garda/ ei helldur/ad þad ecke Leyßelegt sie/nær Meñ eru vel ad þvi komner/ helldur tekur Lausnareñ til þessa/ svo sm̃ ens hellsta/er Meñ plaga ad stæra sig aß/jafnvel þeir ed ødrũ þykiast Hugprwdare/ þvi þeim þyker ecke til þess koma/ad stæra sig aß Hiegoomanum/ svo sm̃ af føgrum Bwninge/af Hreysti Lijkamans/aß Alite/ aß gøfugu Forelldre/ þvi þ sie einum nærst / sem hañ sialßur er/ eñ þeir ed mikid Gotz og Garda eiga/ þeir hafa optast Maña Forraad/ og þyker i þvi Rijke nockud/ eñ marger af þessum hia oss/eru svo lynder/ ad þeir vilia ad aller þeir/ sm̃ Lønd þeirra byggia/ skule vera svo sem þeirra Eignar Þrælar/æn hverra þeir være þo ecke meira eñ eiñ aß þeim/ þvi þeir eru þ sem ala Dramb þeirra a Sveita sijnum / og skylldu hiner missa þad/ þa mundu þeir snart brioota Odd af Oßlæte sijnu/ þvi fæster aß þessum Veralldar Sonum haßa nockurn Tijma dreped Hende siñe i kallt Vatn/mundu þvi koma til ad bidia/ þar þeir ei duga til ad grafa/ hvar uppa Meñ hafa og nockur Dæme/ eß vel er leitad/eñ hverneg sm̃ þvi er nu vared/þa er varla nockur Syndare fiær Himnarijke/ eñ eiñ Dramblaatur. Mykelaatur Madur kañ ecke ad þeckia Synd sijna/ þvi hñ þykest allt riett giøra/og a medañ Synden er ecke þeckt/ þa er ecke Von a Himnarijke/DRotteñ mootstendr Dramblaatum/Jac: 4. Eñ hverneg vill sa iñganga i Himnarijke/sm̃ Gud fyrer Ovin heßur/ hver alleina a þess Valld/ eñ eingeñ añar. Hafe Andskoteñ vered rekeñ wt wr Himneñũ vegna Drabmsemeñar/ þa er Lijklegt/ ad sa mune þar ecke iñkoma/ sem hønum vill i þessum skam̃arlega Glæp lijkur vera. Salomon seger/ Prov: 16. ad sa sm̃ er stoor i Hiarta sijnu/ sie Andstygd fyrer Gude/og þo hañ slae Hønd i

Hønd

Nønd (þad er/ þo hañ take añañ med sier/ og alldrei svo marga) þa
mune hañ þo ecke Ohegndur verda/ og til hvers skal þa sa þoottēñ/
sm̃ ei giører nema afla Mañenum Negningar af Gude/ fra hveriũ
Omøgulegt er ad flyia. Nema þier verded eins z þetta Vng=Barn/
þa kuñed þier ecke iñ ad ganga i Guds Rýke/seger Frelsareñ/Matth.
18. Nu vitum vier/ad Smæ=Børneñ eru ecke Dramblæt / eins leikur
Kongs Soneñ sꝰ vid fatækis Barnid/z vid siñ Lýka/ef hñ mæ ráda.

O hversu laangt er þa eiñ Dramblætur Afne fra Nimnarýke/þeg
ar hønum þyker eingeñ standa Jafnfætis sier/ hafe hañ edur hañs
Forfedur svælt nockud wt af ødrum. Sæler eru hogværer/ þvi þr
munu Landed erfa/seger Frelsareñ/ Matth. 5. Ad výsu er þ i fyrstu
meint um̃ Lýkamliga Farsælld/ svo sm̃ siæ mæ af hinum 37. Davids
Psalme/ hvadan Orden teken eru/ þvi þeir sem hæglæter eru/ og ecke
æleitner vid adra/ þr hafa opt farst sitt i Kyrdum/ jafnvel þooft mis=
jafnt bere til um̃ þ/nær Gud lýdur Fiandanũ ad vada uppi i Dramb=
læte Oflætungañа/eñ verde þr Arfe sýnum ræntter hier/ og lýda þad
þo med Hoogværd/ þa eiga þr hñ výsañ a Lande lifande Mañа/sm̃
alldrei mun skiemast/1.Pet. 1. Siæe hiner til/ ad þooft þeir blæse sig
upp/ eins og Nadran/ af þvi sm̃ þr hafa stoled fra Aumingianum/
hvert þr munu næ til ad verda Samarfar Christi/ sm̃ var hoogvær
og af Niarta lýtelætur/Matth.11. Þad Port er þraungt sm̃ til Lýf=
sens liggur/ og Vegureñ er tæpur sem þangad leider/ hverneg meiga
þeir ganga þar um̃ hverium ecke duger allt Landed til ad bwa i/ þoott
ei sieu þr ad Lýkamans Nættum Fyrerferdar meire eñ adrer Meñ/eñ
Niartad er vaxed upp wr Skyunũ/kiemst þo alldrei i Nimnarýke/nema
þad lýte Svip siñ i Mollduñe ædur eñ þr ad Mollldu verda. Nier
um̃ talar DRotteñ merkelega hia Esaj. Cap. 5. Vei þeim er sam=
andraga eitt Nws til añars/ og leggia eiñ Akur vid añañ/þangad til
ad þar er ecke meira Rwm/ svo ad þier bwed einsamler i Landenu/þ
sama er fyrer Eyrum DRottens Zebaoth/ seger hñ. || FJm̃ PDr
AKN Eyta

AFNEyta FEYýta Eg/ Og Fer Eg Nu Vt Ad REyna þau/ Eg Bid þig AFsaka Mig/ seger hiñ añar. Med þýsare Grein af Epterlýkinguñe vill DRottiñ teiknad hafa hina skadligu Bwsorg og Oleyfelegu Aura Elsku/ og ber hñ sialfur lioosast Vitne um̄ þ hvad mikeñ Farartalma Audureñ giøre þeim er hafa fest Hiarta sitt vid hañ a Reisuñe til Himnarýkis/ er hñ sagde vid Læresveinana um̄ hiñ rýka Yngismañ/ad hægra være Vlfalldanum ad ganga i gieguū Nalar=Augad/helldur eñ rýkum Mañe iñ i Himnarýke/ Matth. 19. Og er þesse same Ynglingur eitt lioost Dæme þar uppa/ hversu ad Fegyrnen og Elskan til Jardneskra Muna bañа Mañenum ad epterfylgia Christo iñ i Guds Rýke/ hañ villde frædast af DRottne hvad hñ giøra skyllde/ ad hñ mætte eignast eilýft Lýf. Frelsareñ neitade ecke þvi ad hañ hefde Bodorden halldeд allt i fra Barnæsku siñe/ Eñ er hñ heyrde ad hñ skyllde selia allt þad hñ ætte/ giefa þad Fatækum og fylgia sier epter / þa vard hñ hryggur og gieck i burt. O hvad goodu Bode hafnade þsse fævýse Madur/ lýkur var hñ miog svo þssū Veralldar Sonum er hier talar um̄ i Gudspiallenu/ hvad leinge ætte hñ Aude sýnum ad fagna? kañ skie ecke til Morguns/og þo yfergaf hñ hid gooda Hlutskipted / og liet þeña Veralldar Saur draga sig fra Himnarýke i Satans Valld. Marcus skrifar ad Lausnareñ hafe start a þeña rýka Mañ og elskad hñ/ Marc. 10. hvad nockrer wtleggia/ ad hñ hafe teked vel a moote honū/ z hafa þeir nockud til sýns Mals/ eñ hvert sem var / DRottiñ miñ/ þa sie eg hier þýna Fodurliga Giæsku i þvi ad leita allra Bragda vid Mañeskiuna. Svo elskader þu Saul/ miñ HErra/ a medañ hañ gieck a þýnum Vege/ Svo varst þu med Jehu/allt svo leinge ad hñ rak þitt Eyrende/Svo myskunader þu Achab/er hñ klæddest i Seck/eñ ecke er ad furda/ Born M. þoott DRottiñ hrygdest i Anda og talade svo skoren Ord til Læresveinaña hier um̄/ er hañ sa þeña Vesæling adkomeñ Himnarýkis Dyrum/ falla þadan aptur i Satans Net/ og hefur hañ hier

 þært

fært Sokkur a Mæl sitt er hann ædur talad hafde / ad Omøguligt være under eins Gude ad þioona og Mamona/ Matth. 6. Mamon er einn vesæll Gud/ og þr hm þioona eiga aumann Nwssboonda/ hn giet ur ecke halldeд siælfum sier kyrrt/ þvi hversu opt siaum vier ad stoorar Fe,Dyngiur hrapa i einu/ svo Eigandenn veit eckert af/ svo er hn wtfws þegar til vill/ ad Þrælar hans giela ecke hallded honum/ og ef þoott þr giøre vid hn eins z þr i Tyro giørdu vid sinn Afgud Herculem/ er þeim barst i Drauma/ ad hann villde frá þeim hlaupa i Herbwder ens stoora Alexandri/ ad þr bundu hn med Hleckium. Þad er eins z Jeremias seger umm Skwrgoden/ Cap. 10. Þeir giørdu þau føgur med Sylfre og Gulle/ þeir festa þau med Nøglum og Hamre ad þr misse þau ecke / enn Gud giæfe Menn villdu hugleida hvad lijted þeir hafa misst þegar þr hafa tapad øllu þssu/ ef Gud vill svo vera læta/ þvi þa hafa þr feingid Orsøk til ad varpa allre sinne Ahyggiu uppa Gud/ sem er alleina rijkur/ og vill ala þa er hann elska jafnvel sofande. Þa munde Laban ecke renna epter Jacob/ þo hn vantade sijna Afgude. Eg hefe talad nockud umm þetta Efne fyrer skømmu/ og þvi vil eg enda med St. Pauls Ordum/ er hn seger/ 1. Tim. 6. Þeir ed rijker verda villa falla i Freistingar og Snørur og margar Gyrnder Heimskulegar og Skadvænar / hvad længt eru þr þa frá Himnarijke/ sm alla Reidu faster eru i þessu Satans Nete/ og er hier af audsært hversu miøg ad Fe-Gyrnden og Ofmiked Aura-Safn bæge þeim frá Guds Rijke/ er nælægt eckert annad stunda. KOnu Hef Eg MJer FEsta/ Og FYRer Þvi Ma Eg Ecke KOma/ sagde hinn þridie. Hann villde ecke hafa sig undan þeigenn/ þvi hn þookkest Løgliga afsakadur: Hann sem Bwgarden hafde keypt gat læted bijda til Morguns ad skoda hn/ og hinn ad reyna Akneyten/ enn fyrer þvi ad hier má skiliast ad Brwdkaups-Dagurenn hafe vered tilsettur / þa vill þesse Bwwdgume ecke eyda morgum Ordum til ad afsaka sig/ þar hn hefde til annars Giestaboods ad ganga/ sm honum være hvad kiærast/ og hn mætte ecke for-

soomæ

dooma. Lyklega lijtur þetta wt fyrer Mañligū Doome/ þvi DRott eñ hefur boded ad Madureñ skyllde jafnvel yfergiefa Fødur z Moodur/ eñ samteingiast siñe Egta-Kviñu/ eñ þo mun þsse eins sekur vered hafa i Guds Auglite og hiner. Hier stendur i Textanum/ epter þvi sem eg hñ skil: Ad þeir afsøkudu sig aller med sama Giede. Þad er/ ad hver þra villde hafa sijna Syslan meir metna eñ þssa Kvølldmaltijd. Nu villde þo Hwsboondeñ einga af þm̄ gyllda taka/ og þvi vard sw Alyktunen ad Sijdurstuñe. EINgiñ ÞEIrra MAña Sem BODner VOru SKulu SMAcka MIIna KVÖLLDMAALTIID. Sw er þa Meiningen/ ad eingeñ Hlutur skule oss svo kiær vera/ ecke Virdingar vorar/ ecke vor Audur/ ecke Fader nie Mooder/ ecke Systur nie Brædur/ ecke vorar eigen Konur/ sm̄ oss ættu hvad kiærastar ad vera/ Jæ/ ecke vort eiged Lijf/ ad þad hindre oss fræ þre stooru Kvølldmaltijd/ sem hiñ Alvallde Hwss-Fader hefur oss tilreidt i sijnum Syne/ þad vottar Frelsareñ siælfur skomu sijdar i þssum sama Capitula/ seigiande: Ef nockur kiemur til mijn/ z ecke hatar Fødur siñ og Moodur/ og Konu og Børn/ og Brædur og Systur/ og jafnvel syna eigen Sæl/ hañ kañ ecke miñ Læresveiñ ad vera. Hvad er þetta/ Børn M. hañ kañ ecke miñ Læresveiñ ad vera? Þad er / hñ skal ecke i mitt Rijke koma. Gud gaf Mañenum Konuna i Fyrstuñe hønū til Epterlætis/ og til ad fiølga Kyne sijnu/ eñ ecke til þss ad hñ skyllde leyfa heñe ad draga sig af Guds Vege/ edur brioota a moote Bode sijnu/ þvi seger hañ og Devt. 13. Ef þiñ Brooder/ Sonur Moodur þiñar/ eda þiñ Sonr eda þijn Dootter/ eda þijn Kona er þu fadmar/ vill koma þier til ad dyrka añarliga Gude/ þa skal þijn Hønd vera hin fyrsta ad þu deyder hana. Eñ skodū nu oss/ Brædur mijner/ mun oss ecke verda vidlijkt og Fodur vorum Adam/ ad bera Skulldena uppa Konuna/ þo þ sie med ødru Moote. Seged mier/ þegar hiñ Volade bidur um̄ Hiælp/ og hiñ Naudstadde/ þeinkiū vier ecke? þad mæ eg ecke fyrer Konu miñe og Børnum/ ad leggia miked

aþ vid hñ/ añars munu þau kañ ſkie þara a Vonarvøl. Þegar Guds Eyrende a ad giøra og briootaſt nockud i moote Satan og hñs Opſiñum/ lætum vier þa ecke Hugþallaſt/ jaþnvel þr ſm̃ Hugprwder vera þykiaſt/ og ſegium med ſiælþum oſſ: Giøre eg þetta/ munu þr ſyþdan Konu miñe og Børnum allt Illt giøra/ eins og Skælkureñ ſie ecke i DRottens Hende/ og hañ kuñe ei ad vernda ſyna/ þa er ſetia allt ſitt Trauſt a hañ. Þegar vier nu þetta giørum/ þa erũ vier eingu betre eñ hñ er ſagde: KONu HEþe Eg MIer FEſta Og FYRer Þvi Mæ Eg Ecke KOma. Eg vil ecke þæ mier til Orda um̃ þeirra Hioonaband / ſem locka hvert añad til Laſta og Synda/ til Agirne/ Hoþmoods/ Oþundar/Hardydgis/og eru ſamlynd i þvi/eñ giæta eckert þrar Elſku ſem þau eiga a Gude og Næunganum ad haþa/ei helldur þra Hættalag/ ſem ad i Ektaſkapnum bwa ſamañ eins og Hundar z Kiettet/ edur hiña ſem ad ſøñu eru ſamanvigd til Hioonabands / eñ liþa þar iñe riettum Skiækiu Liþnade. Længt er fræ ad ſoddañ Mañeſkiur hlyde Poſtulans Bode/i þvi ad hallda Ektaſkapeñ heidarligañ/ og Hioona-Sængena Oflekkada/ Heb. 13. Og munu þeir þo haþa þykiaſt fulla Orſøk ad ei kome þeir til DRottens Kvølldmæltydar/ þvi þeir haþe Konur ſier feſtar/Og kañ eg ecke añad ad ſegia/ eñ ad þſſe Aþbøtun er gylld/þviad Dioþullen helldur med þm̃ Sæng og Seſſ/ eñ Paulus ſeger/ 1. Cor. 10. Ad vier kuñum ecke under eins ad drecka DRottens Kaleik og Dioþlaña/og ecke under eins ad vera hañs Bords Hluttakande/ og þra. Take eingeñ ſvo Mæl mitt/ ad eg laſte þſſa heilogu Stiett/ hun er aþ Gude i Fyrſtu Iñſtiptud/ Frelſareñ heþur prydt hana med ſiñe Nælægd/ med heñe heþur hañ teiknad þa Guddoomligu Aſt / er hñ heþur a ſiñe Elſkuligre Brwdi Chriſtneñe/ eñ þad laſta eg/ ad Meñ gleyma Gudi fyrer Lykamans Munad/ og liþa þat iñe þvert a moote hñs Bode/giørande Hioonabanded ad Fridluliþnade margur hver. Frelſareñ vill z ecke Hioonabanded laſtad haþa/ þoott hañ ſege um̃ hina Gudlauſu Verolld fyrer

Flooded/

Flooded/ ad þr haƀe Gipt sig og gipta lated/ helldur hitt/ ad þr voru svo druckner i Munuðū sÿnū/ad þr ei hlÿddu Predikun hins Riettlata Noe. Og er nu svo wttalad um̄ hid fyrra er eg hiet a ad miñast.

Eñ hvad hinu sÿdara vidvÿkur/ þa er þ margt er oss atte ad leida til ad taka þessu vegsamlega Heimbode. Hver er sa/ eƀ Konungur. eñ bydur honū til Bords/ad hañ þigge þ ecke Allshugar ƀeigeñ/og munde Osvinnur þykia/ef hñ dræpe Hendeñe a moote slÿkre Sæmd/eñ hier er ecke nockur Jardneskur Herra/ ecke Asſverus/ ecke Baltazar/ ecke Alexander hiñ stoore/ hverra Veitingar urdu a stundū Giestunū ad Heƀndar Gioƀ/ Eñ hier er hiñ Naaduge Konungur Himens og Jardar/ sa ed heƀur Konungañ Hiertu i Hende sier/hñ er sedur allar lifande Skiepnur med siñe Blessan/z allt hvad Jardnesker Hoƀdingiar veita sÿnum Giestū/ þad meiga þeir af hañs Orlæte þiggia/ añars væru þeir ecke Megnuger um̄ ad ƀæda sialƀa sig/ auk helldur Fiolmeñe svo miked. Ecke sedia Veralldar Hoƀdingiar nema Lÿkamañ alleina/ hvers Fylle a stundum verdur ad Salar Hungre/ eñ DRottiñ mettar Saler vorar med svo goodre og heilnæmre Fædu/ ad sa ed heñar nytur/ hñ þeinker lÿted um̄ Veralldlegar Kræsingar/ þvi hñ heƀur þañ Mat og Dryck/sm̄ adrer sia ecke/ Joh: 4. Þeir kuña ad hallda eitt Giestabod i heila Viku edur leingur/ sÿdañ hungrar þa og þyrster/er bodner voru/ Eñ hver sm̄ etur og dreckur aƀ þssū Vistum/ hañ skal ecke hungra nie þyrsta ad Eilÿƀu: Þad skiedur i Hoƀdingiaña Giestabodum/ad þeir sm̄ ad Veitslunū eru/verda mætte sÿnum ƀirrnare þegar kallad er hvad best veitt/ svo þegar Vÿned er roked wr Hofdenu/ villdu Meñ þar alldrei vered hafa/ og ecke betala þurƀa þ sm̄ til Gooda var giort med þvi Jlla/ sem a epterƀylger. Eñ i þessu Heimbode munu Meñ alldrei oƀmiked eta nie drecka/ þess meir þeir drecka/ þess rÿsare veida þeir/ Eingañ skal hier Dryckian hvessa til Bræde/ ecke hreyfa hañ til Oparfrar Mælge/ ecke hvetia hñ til Lauslætis/ edur nockurrar Fiblslegrar Hattseme nie Gantaskapar/ sm̄

 alltidt

alltijdt er/ þvi verr/ i sumra Maña Giestabodū/ eñ hier er Fridur og Fögnudur i heilögum Anda/ sa Fridur/ sa Fögnudur/ sm̃ yfergnæf-er allañ Skilning. Eg hefe nockrum Siñum adur bored mig ad tala i þessare Book um̃ þa dyrdlegu Vist Heilagra/ med Gude z hñs Einglum/ og maa eg medkieña/ ad þar verdur ecke um̃talad af mier a nockurn Veg/ svo sem verdt er/ og ecke af nockurre syndugre Tungu/ þvi ef Madureñ kañ ecke ad sia Gud z hallda Lijfenu/ svo sm̃ Drott-eñ sagde vid Moysen/ Exod: 33. þa munu Meñ ei helldur kuña ad wtskijra hvad Vegsamlegt þad sie/ ad sia hñ svo sem hañ er/ og þeck-ia hañ svo sem vier erum af hönum þeckter. J einu Orde ad segia/ þar um̃ verdur ecke añad sagt/ eñ þad sem Esajas i 64. Cap: og Paulus/ 1. Cor: 2. hafa lagt oss i Muñ/ ad þad hafe ecke Auga sied/ og ecke Eyra heyrt/ sem Gud hafe tilbwed þeim/ er hañ elska/ z var þo Paall uppnumeñ i hiñ þridia Himen/ svo ad lijkast er/ ad eing-eñ lifande Maña hafe giört sied þa Himnesku Vistarveru/ þo maatte hañ ecke med Ordum wtskijra hvilijk hun var / þvi hañ segest hafa heyrt þar þau Ord/ sem eingeñ fær wttalad/ 2. Cor: 12. Hvad seg-ed þier nu/ Brædur Mijner? Fiñed þier nockra þa Afsökun i Heim-enum/ er ydur gylld þyke til ad hafna þessu Giestabode. Stoorer Höfd-ingiar laata bera Visternar og Dryckeñ fram̃ i Gull og Silfur Kier-um/ þeir hafa marga Rietti/ og ymislegañ Tilbuning/ epter þvi sem Steikarans Kuñaatta gietur hræfnad fyrer þeirra Goom/ sem bodner eru/ Eñ hier er ecke nema eiñ Riettur/ þ saklausa Lamb Guds/ hvert ed slaatrad er i fraa Heimsins Upphafe/ hañ er steiktur a Krossens Alltare i Guds Reide Elldе/ a þeim Koluñ/ sm̃ bruñed hefur af sijdañ Adam braut/ þad eru Synder vorar/ sem erum Nydiar hañs/ Hañ er Lækning þeim Siwku/ Huggun þeim Angraadu/ Rijkdoomur þeim Voludu/ Uppreisn þeim/ sem Verölldeñ hefur nidurdreped/ Sadning þeim/ sem Hwngra og þyrsta epter Riettlætenu. Hvar faaud þier sloddañ i einu Giestabode/ Christner Meñ? Jaa/ hañ er

eins

eins z Esajas um̄ hn̄ spaaer/ syn þeim Blindu/ Fætur þeim Hølltu/ Hreinsun hinum Lÿkþrau/ Heyrn þeim Daufu/ Upprisa hiña Framlidnu/ og þad sem yfertekur/ Naadar-Bodskapur hinum Fatæku/ hvern Spaadoom hañ þÿder uppa sialfañ sig/ hia Matth. 11. Heyred þier mier nu/ sm̄ Bued i Lande þssu/ erud þier marger Vitrer? Erud þier marger Forsiaaler? Erud þier marger Gøfuger? Ef eg maa spyrja ydur med St: Paals Ordum/ þier nunud segia Nei/ ef þier taked Hende i ydar eigen Barm/ z þo hefur hin Guddoomlega Elska lætted oss Fatækum Gudspiølleñ boda/ eñ hver giegner votre Raust? Hver tekur þessu Bode? Hiñ Vÿse hroose sier ecke af Skynseme siñe/ hiñ Vollduge ecke af Vallde sÿnu/ og hiñ Rÿke stære sig ecke af Aude sÿnum/ eñ saa sm̄ vill hroosa sier/ hañ hroose sier af þvi/ ad hn̄ þecke mig og skilie/ ad jeg sie Jehova/ saa ed giøre Goodgirne / Rietteñ og Riettvÿse a Jørdu/ þvi þad lÿkar mier/ seger DRotteñ/ Jer: 9. O/ skaaed nu hier/ þier sm̄ hroked ydur upp af þvi/ sem eckert er i spufted/ eñ forsmaaed þessa miklu Kvølldmaaltÿd / ad þar maa ecke stæra sig i Guds Auglite af hinū mestu Hlutū/ Vite/ Magt og Audæfum. Eñ hvad skulu Meñ segia vid hina Dramblaatu Hussgangs Herra vor a medal/ þegar Vitfirringureñ hroosar sier af Danielis Speke/ þegar hañ sem gietur nidurdreped þeim/ sem er Vesælle hønum/ þa ætlar hn̄ sig Konung vera/ og þorer þo ecke ad greispa a moote þeim/ sem hønū maattkare er/ Ef hañ sem eiñhvern Tÿma laa vid Hussgange/ ef hn̄/ sege eg/ med Følskum Kaupeyre/ med Þrælslegre Høndlan/ jaa/ med allra Handa Svikum og Prettū/ hefur dreiged under sig Gootz Maunga sÿns/ og sellt hønū a Stundū/ añadhvert sÿna eigen Þørf edur Faavitsku/ þa stærer hañ sig af þre Audlegd er hn̄s Framsyne hafe ablad hønum. Þetta er svo Alment og Openbert/ ad ei þarf epter ad grafast/ svo sm̄ DRotteñ seger fyrer Muñ Jeremjæ/ og þetta giør um vier/ sem þo erum af ødrū Þioodū lÿtils virdter/ um̄ hveria med øllum Riette maa segia þau St: Paals Ord/ er eg fyrer skømu las/ ad

vier

vier erum ecke marger Vijser/ ecke marger Forsiaaler / ecke marger
Søfuger/ og þo tiggiumst vier og tøñlumst Iñbyrdis/jaa/bijtumst um̃
þetta Volæde/er vier mille Handa høfum eins og Gaad-Nestar um̃
Ille Foodur/eñ þad er allra Aumast/ ad þad sem verst er a hinū Far-
salu Þioodunum/er lifa i þeim goodu Londunū/og þ sm̃ Guds Bræde
hvad mest uppæser/ sem er/ ad þær hyrda litt um̃ Gud/ og faa sier ei
Stunder fyrer Vellystareñar saker/ ad dyrka. hañ sem byriar/ þad se-
ge eg/ skilur ecke helldur vid Eymder vorar/ sm̃ þo ættu ad neyda oss
iñ ad ganga til þessa Giestabods / og svo sem ad Nægternar og
allra Handa Tijmanlegt Epterlæte ætte ad draga adrar Þiooder til
ad elska z þeckia Skaparans Giæsku / Svo ætte og vor Þorf og Or-
byrgd ad reka oz til ad dæst ad hñs Millde/ad hñ i ollu Þssu hefz uñt
oss Þrar Sælu/ ef vier hana riett brwkudū/ sm̃ allar Þiooder mættu
ofunda oss af og alla svo miøg epterlangar/sm̃ er Fridur z Roosemе/
Eñ Gud giæfe ad hier vantade ecke allt ofmiked aa / og ad Þr sm̃ hiaa
oss eru ødrum Fæte fremre/ Þr ecke hæddu ad Guds Orde/ forsmaadu
og Ofsæktu hañs Þienara/svo langt er fraa þvi/ad Þr leite DRott-
ens edur kome þegar Þr bodner eru. Þa VArd HVSSboondeñ
REIdur/ seger Texteñ/ Og SAGde Til ÞIONustu MANN-
sens: Far Þu SNÄRlega Vt A STRæte Og GOTur BORG
areñar/ Og LEid BOLada/ VANada/ BLInda Og HALLta
HIer Iñ. Þesser munu vera Almwga Meñ Gydinga Þr ed skip-
udust vid Christi Lærdoom/ þvi færster voru Þr af hinum/ sm̃ geingu
hønum til Handa/þad er bert af Phariseeаraña Ordū/ er Þr søgdu:
Trwer nockur af Høfdingiunum a hañ edur af Phariseis/ eñ þesse
Almwge sm̃ ecke veit Løgmaaled er bølvadur/ Joh. 7. Gydingū byr-
iade og fyrst ad Predika Guds Ord/ svo sm̃ Paulus og Barnabas
vottudu fyrer þm̃ i Antiochia / Act. 13. Eñ nær Þr raaku þ fraa
sier /z hielldu sig Guds Rijkis Omakliga/ þa hafa Þr snwed sier til
Heideña Þiooda/svo sm̃ þar stendur/þvi seger og hier i Gudspiallenu/
ad

ad nær Þiooneñ sagde ad þar være eñ meira Rwm/ þa haþe Hwss-boondeñ sagt: Far þu Vt A ÞJODbrauter Og TVNgarda Og NAVDga ÞEim HJer Jñ Ad GANga. Hverier munu þesser vera/ Brædur mÿner? Nema vier heideña Maña Born/ hverra Fedur voru æn Guds i Heimenum/ jæ/ ecke vier sÿdst sm bwñ hier under hinu ytsta Heims-Skaute. A oss er ad fullu rætiur Spædoomur Guds er hañ seger vid Soneñ/ Esaj. 49. Þad er oplÿted ad þu siert miñ Þienare til ad upprietta Jacobs Kyn / og aptur ad sækia þ tapada aþ Jsrael/ helldur heþe eg giørt þig til Lioos heideña Þiooda/ svo ad þu siert mitt Hiælpræde til Verralldareñar Endemarka. Sæmed þvi og/ þier christner Meñ/ hvilÿkañ Kiærleika ad Fadereñ heþur oss gieþed/ þad vier Guds Børn kallader verdum engu sÿdur eñ Rÿkisins Syner. Þesse er JESVS CHristur Sonur Guds liþanda/ hañ sem er vor Fridur og giører eitt aþ bædum/ og Gyrdingu Midvegsiarens heþur broted/ svo sem Paulus ad Orde kiemst/ Eph. 2. Hvad er oss þa til Hindrunar/ Børn mÿn/ ad framganga til Nædar-Stoolsens? þar vier høþum frÿañ Tilgæng fyrer hñ/ seger Postuleñ til Hebræos. Trwed mier/ ad þad er ecke lÿtill Velgiørningur sm vier þeiged høþum i Christne-Bodenu/ Eg vil ei tala um þau gledeligu Vmskipte ad vera leyster undañ Satans Vallde/ eñ setter i Guds Sonar Rÿke/ Eñ hitt ætte oss alldrei wr Miñe ad lÿda/ ad hiner Nætturligu Kvisterner eru aþbrotner/ eñ vier iñplantader/ Rÿkesens Syner eru wtrekner i hin ytstu Myrkur/ eñ vier eigum Kost æ ad sitia til Bords med Abraham / Jsaac og Jacob. O Børn mÿn/ eg grætbæne ydur fyrer JEsu særu Kvøl og Bloodugar Vnder/ Jæ/ fyrer ydar eilÿþrar Velþerdar Saker/taked Vara a Þßare ydar Kallan/ og lÿkest ecke hinñ i þvi/ ad giøra ydur Guds Rÿkis Overduga. Þad er Dæsamlegt ad horþa a hina Alvitru Guds Rædstøþun i sÿnu Nædar Rÿke/ fyrst sette hñ Þeckingu sÿns Naþns svo ad segia midt i Verølldena/ þegar þeir ræku hana fræ sier/ þa heþur hun færst

smamsaman Nordurepter þessare Heimsens Alfu/ svo ad hun eineg er komen til vor hinna ytstu Heims-Bwa/ og varla er hina sønnu Guds Dyrkun ad finna nu i Heimenum nema i þessum Nordustu Løndum. Seg-ed mier nu/ christner Menn/ ef vier nu forsmaum þessa Guds Giøf/ og ei þeckia vilium vorn Vitiunar Tijma/ hvert a Gud þa ad fara? Eda fyrer hverium a hann sitt Ord ad Predika lata? A hann ad fara wt wr Heimenum? Edur Predika lata fyrer Jøklunum/ Biarndyrunum/ og Refunum i Grænlande? Litlu munar virdest mier hia mørgum hverium medal vor/ þar Hiarta Mannanna er svo freded/ svo Jis kalldt vorded/ ad þ bradnar ecke vid Guds straungu Hootaner/ ecke vid hans Nadar Bodskap/ og ecke vid Minning hins sijdarsta Dooms/ nær Høfudskiepnurnar munu af Hita bradna/ Kiærleikurenn z Trwskapurenn eru burtu wr Landenu/ enn Agirne og Fe-Drattur taka Yferhønd/ þeir sem meiga sier nockud/ eta i kringum sig eins og Birner og Leon/ þegar þad tekur sijna Brad/ og hiner Einfølldu dansa epter þeirra Pijpu/ og støckva yfer hvern Prøskulld til ad uppfylla Hws Drottna sinna med Rane. Og þoott vier meigum jata oss hverre Þiood heimskare/ þa erum vier þo noogu vitrer i Slægdenne/ ja/ falsker eins og Refar. Ein med hinum stærstu Syndum hvar fyrer Gud rak sitt Foolk wt i Herleidinguna/ var Flarade og Otrwskapur / heyred Jeremjam þar um talande/ Cap. 9. Eingenn trwe Vin sijnum/ z eingenn trwe nockrum Broodur/ þvi sierhver Brooder er eitt Svikare/ og sierhver Vinur um-geingst Falsklegana/ og tala ecke Sannleikann/ þr kienna Twngu sinne ad tala Lygd/ og þr erfida sig þreytta i þvi ad høndla svikſamlega. Seged mier/ ef Jeremjas matte lifna upp aptur/ munde hann kunna betr ad wtmala vora Olld/ enn med þessum Ordum/ Og hvad erum vier þess/ ad vier skylldum vænta oss betra af Gude nær vier uppfyllum þeirra Mæling? Nema vier idrumst af Hiarta/ og leggium af Klæke þessa. O hversu mikid hefur oss hnignad/ ecke einasta i øllum Mannskap z Hyggendum/ helldur og i Saklepsenu og Rædvendnenne; Hvar er hin

forna

forna Trwþeste / Stødugleike/ Røksemi / Vÿsdoomur i Rꜳdsløg- unum/ Hugprÿde i Vtriettingunum/ Sañsøgle i Ordunum/ Riettvÿse i Doomunū/ sm̄ a Døgū Forþedra vorra var. svo miøg loþud og elsk- ud. Þetta høþum vier i Vtlegd reked og ꝼørum Dagvesmande/ svo ad þeir sem ecke eiga mørg Ar til Baka ad telia/ þeir þeckia ei Land- ed edur Stioornena hiꜳ þvi sem hun var / hvert ad synast mætte ad vera eitt vÿst Teikn til Vndergꜳngs og Eydeleggingar. Guds Þolenmæde vardveite oss frꜳ Jeremjæ og Ezechielis Tÿmū/ hverier ed bꜳder sꜳu Oþarer Gydinga Landz/ og bꜳder miøg svo hørmulega klaga um̄ þssa og þvilÿka Stoorglæpe skømu fyrer Herleidinguna/ og meigū vier kañast þar vid/ ad Gud heþur bendt Forþedrū vorum med vidlÿku Mooke/ sem eg þo voga ad segia/ ad voru miklu betre eñ vær. Vtlegd heþur jaþnan hallden vered hid mesta Volæde/ eñ eg veit ei hvad eg segia skal/ betra er hver vetna utlægur ad vera medal christeña Maña/ eñ ad liþa i þvi Lande/ hvar Dygden er fyrer Skøm̄ hallden/ eñ Klæk- erner i Forsvar tekner/ jaþnvel aþ þeim sem hvad mest ættu ad aþstyra vondu Framþerde. Nær eg Hugleide þetta / þa giet eg ei bundest ad taka under med Jeremja/ er hñ seger i Guds Orda Stad i 16. Cap. Tak þier ei Konu til Egta/ og al ecke Syne nie Dætur i þssū Stad. Þar fyrer/ O Guds Børn/ taked Vara a Velþerd ydar/ lꜳngt er sÿdan þier Bodskapeñ heyrdud/ og eñ nu er Nadar-Tÿmeñ/ eñ eingeñ veit hvert þetta Bod stendur leingur eñ til Morguns/ legged þvi aþ alla Jllsku og Þrettvÿse og allañ Ohreinleik/ eñ Jklædest svo sem Vtvalder Guds Heilager x. Elskuliger Hiartgrooeñe Myskunseme/ Goodgyrneñe/ Lÿte- lætenu/ Hoogværdeñe og Þolenmædeñe. Eñ hiñ Naduge Gud vird est ad vardveita sÿn Børn i Solle þessarar Ogudligu Alldar / svo þau Orstaþþanlig fiñast mættu a þeim Tilkomu-Dege JEsu Christi/ Bæu

heyre þad goodur Gud fyrer sÿns Sonar uthellt Blood

og særu Þÿsler/ Amen/ i JEsu

Naþne A M E N.

# Þridia Suñudag epter Trinitatis.

## Gudſpialled/ Luc. 15. Cap.

Þan Tijma. Eñ aller Tollheimtarar og Berſynduger nalægdu ſig til hañs / ſo ad þeir heyrdu honum. Og hiner Skriptlærdu og Phariſæi mogludu og ſogdu: Þeſſe medtekur Berſynduga Meñ/ og etur med þeim: Eñ hañ ſagde til þeirra þeſſa Epterlijking/ ſo ſeigiande: Hvor ſa Madur af ydur ſem hefur Hundrad Saude/ og ef hañ glatar einum af þeim/ yfergiefur hañ ecke þa niju og nijutijger a Eidemorku/ og fer epter þeim ſem glatadeſt/ þangad til hañ fiñur hañ? Og þa hañ hefur funded hañ/leggur hañ þañ ſama (med Fognude) ſier a Herdar/ kiemur heim / og kallar ſamañ Vine og Nabwa / og ſeiger til þeirra. Samgledieſt med mier / þviad eg hefe miñ Saud aptur funded/ þañ ſem glatadur var. Eg ſeige ydur / ad lijka ſo mun Fognudur vera a Himnum/ yfer einum Syndugum ſem Jdran gioͤrer/ meir eñ yfer þeim niju og nijutijger Riettlatum/ ſem eige þurfa Yferbootar vid. Eda hvor er ſu Kona ſem hefur tiju Peninga/ef hun tijner einum/ er eige ſo/ ad hun kveiker Lioos/ og ſoopar Hwſed/ og leitar vandlega/ þangad til ad hun fiñur hañ? Og þa hun hef ur hañ funded/ ſamañ kallar hun Vinkonur ſijnar og Grañkonur/ ſeigiande: Samgledieſt med mier/ þviad eg hefe miñ Pening aptur funded/ hvorium eg tijnda. Lijka ſo og ſeige eg ydur/ þad Fognudur mun vera fyrer Einglum Guds yfer einum Syndugum/ þeim ed Yferboot gioͤrer.

## Exordium.

Drottinn ſpaar ad Heidingiarner muni til ſyn ſnwaſt.

EG Em Auglyſtur þeim ſem ecke ſpurdu epter mier/ Eg em funden af þeim/ ſem ecke leitudu ad mier/ eg ſagde: Siaed mig/ ſiaed mig/ vid Foolk þad/ ſem ecke nefneſt epter mijnu Nafne/ ſeger Drotteñ/ Eſaj. 65. Þeſſe Spadoomur a ad

ſkiliaſt

skiliast um̃ Heidnar Piooder/pad Foolk/sem sat i Myrkrunum/og var an Christs/ prœskilder Jsraels Borgara-Riette/ Framande i Sattmalum Fyrerheitesins/hapande einga Von z Gudlauser i Heimenum/svo sem Paulus Vottar/ Eph. 2. Hvar Postulen̄ meinar alleina þau Fyrerheit/sem Gydingum voru sier i Lage giefen̄/ svo s̃m ad þar skyllde uppreña ein̄ Kvistur ap Root Jesse/ og adrer þvilyker Spadoomar/sem hondla þar um̃/ ad Messias skyllde fœdast af Gydingū/ en̄ ecke hin Almeñelegu/sem ollū giepen̄ voru/ svo sem þegar Gud hiet Abraham /ad i hans Sœde skylldu blessast allar Piooder/ Gen: 22. hvad liooft er ecke einasta ap hinum mikla Framgange Evangelij/ strax epter Himnapor DRottens/er han̄ ad sigrudum Dauda/Diofle og Helvijte/ took Einvallds Stioorn i siñe Kirkiu um̃ allan̄ Heimen̄/ helldur og spaer Gud þar um̃ pyrer Mun̄ Hosea Cap: 2. segiande/ ad Tala Jsraelis skule verda svo sem Siapar Sandur/hvern eingen̄ giete mælt nie taled// En̄ svo s̃m a Dogū Hosea var Jsrael svo langt nidursocken̄ i Gudleysesins Afgrun̄ / ad han̄ villde þeim ecke framar myskuna/ þad þeir ecke smamsaman̄ Herleidder yrdu/ Svo z er ad Ottast pyrer a þessum verstu og sijdustu Dogum/ad Christnen/hveria Guds Sonur hefur med sijnu Bloode afrekad/hun meige verda koll ud Lo ruchama edur N A Darlaus/z ad marger hen̄ar syneleger Limer mune verda Konunge Myrkraña ad Brad/ nema Men̄ bœte sin̄ Christen̄doom z take sier añad Hattalag/ helldur en̄ almeñelega tijdkast. Sneña hoop Brun̄ur Myskunareñar ad auglysa þ/ ad eckert Mangreinar Alit være hia sier/ þegar han̄ took vid Bersyndugum z Tollheimtu-Moñum/hverier ed voru af Phariseis bolvadar Man̄eskiur halldner/ og eingen̄ villde med þm̃ Sess nie Samneyte eiga/En̄ ecke skiede þad þess vegna/ad þeir voru Bersynduger og Tollheimtu-Men̄/ þvi alltijd er Gud samur vid sig i þvi/ ad ei lijkar hon̄ Ogudlegt Athæpe/ helldur hin̄s/ ad þeim lœ hvad mest a / og þegar aller hofdu pordœmt þa/ villde han̄ ecke fordœma/s̃m alleina hapde Valld

til/ ad Riettlæta. Svo skulum vier og ecke meina/ ad vier edur Fedur vorer hafe Myskun hloted af þvi/ ad þeir voru Heidingiar/ þvi Heidingia og Tollheimtu-Menn leggur DRotten ad Jøfnu/ Matth: 18. helldur epter mikille Myskunseme sinne/ hefur hann oss Hoolpna giørt/ svo sem Paulus vottar/ Tit: 3. Þad giører JEsus hert i þessu Gud-spialle med Epterlijkingunne umm hinn tapada Saud og tijnda Pening. Enn ef vier afrækium þessa Nad/ er oss svo leinge hefur frambodenn vered/ summ Forgiefens/ kann skie (hvad Gud nade og betre) þa dylium vier ecke vid/ ad vor Doomur mune þess þyngre verda / helldur enn hinna Natturlegu Kvistiana/ sem ad þeim helldur tilheyrdu Fyrerheitenn enn oss. Eg vil wt af Gudspiallenu alleina hugleida i þetta Sinn. 1. Hverssu Nadugur ad Gud sie i þvi/ ad leita epter oss. 2. Hverssu treger vier sieum i þvi/ ad lata oss finna.

Styrk oss hier til Giæskurijke Fader med Krapte þijns Anda/ fyrer JEsu Christi Forþienustu/ Amen.

## Vtleggingenn.

Meiningenn i þessum fögru Epterlijkingum hlijder sier i Tage uppa þa/ sem Stoor-Synder hafa drygt/ eru fallner fra Guds Vinattu i hans Oblijdu/ z þanneg forbroted Guds Barna Riett og hans Faderne/ sem sia ma af Epterlijkingunne umm hinn Fortapada Son/ er i þessum sama Capitula strax a epter fylger. Nu ef vier rannsokum vora Lijfernis Hattu/ christner Menn/ þa mun eingenn vera sa af oss/ ad ecke finne hann i Samvitsku sinne/ ad hann hafe Guds Nad Præfalldlega af sier broted/ og ad hann þar fyrer sie Daudans sekur. Ecke er þad noog/ ad vier ei drygium þa Glæpe/ sem vinna til Vtsetningar af Kirkiunne / þad er betra ad vera wtrekenn af Samkundunne/ helldur enn fra Guds Nadar Stoole. Margur mun sa innst i Kirkiu/ sem ei munde inn fyrer Himnarijkis Dyr koma/ ef hann dæe i sama Hattalæge. Hvad vardar umm þad/ þo eingenn vite/ ef þijn

Sam-

Samviiska veit? Lijted gagnar ad dyliast fyrer Mōnn/ þar allt er þo oped fyrer Guds Auga/ Vilier þu þar fyrer sin Guds Giæsku i þvi/ ad leita ad þier/ og kalla þig Syndugan til Yðranar / þa skoda hvar fra þu fallen ert/ Apoc: 2. DRotten samlijker svoddan tijndre Man eskiu glotudum Saud/ z er þ nærsta vel tilfunded/ þvi hn er sa goode Hyrder/ Joh: 10. En vier fóorū aller villt sem Sauder/ seger Esa. jas Cap: 53. og fōrū Daglegana. Saudunū erū vier lijker i Ein feldneñe z Fafrædenu/ eñ ecke i Meinleysenu/ Born i Vitskuñe/ eñ ecke i Hreckvijseñe/ þvert a moote þvi/ sm Postuleñ bydur/ 1. Cor: 14. Hier maa sia i Gudspiallenu/ ad Madureñ hefur hallded Hiord siñe a Beit i Eydemorku/ og hvad mun eiñ Voladur Saudur Guds vera i Eydemorku Veralldar þessarar/ ef hn villest fra hinum gooda Hyrder/ hver ed geingur undan sijnum Saudum. Þegar DRotteñ var reidur Jsrael fordum/ z hiet ad wthella yfer hn Bræde siñe/ þa seger han hia Hoseam i 4. Cap: Ad hañ vilie fæda Jsrael/ svo sem eitt Lamb a Vijdlendenu/ eñ hvad er eitt Lamb i svoddan Platze /. ecker aññad eñ Bræd Varganña/ og þo er þeim midur fared/ sm med Syndū og Glæpū hefur giort sig vidskila hiñ Osynelega DRottens Sauda Flock/ hverier ad þeckia siñ Hyrder/ og af hōnum peckter verda/ Joh. 10. Þad er hin saña Guds Christne og Søfnudur hañs Rieett-trw adra Barna. O hvilijk er þa Giæska hiñs blessada Hyrders/ ad hañ virdest til ad leita ad svoddañ tijndum Saud. Næfvæmliga wtmaalar DRotteñ sitt Fødurlegt Hiartalag i þssare Epterlijkingu. Ecke yfergiefur Gud hina Riettlaatu/ ei þarf hañ helldur ad yfer giefa þa/ til ad leita ad þm sem tapadur er/ En uppa þad ad þu vita meger/ syndugur Madur/ hversu giarna ad hañ vill ad hiñ Ogudlige snwe sier og life/ þa jafnar hañ siñe breñande Elsku saman vid þañ Mañ/ sm lætur sier hvad saraft vera til þess sem villt hefur fared/ Jaa/ sarara til eins af þeim helldur eñ til allra hiña sem vijser eru. Þessa Guds Fødurlega Giæsku ættū vier ad laata smellta Hiarta vort/

þegar

þegar Hañ leitar ad oss Daglega i sÿnu Heilaga Orde/ oss sin ad Daglega syndgumst/ og ei viñum nema til Hegningar. Nær giører Hañ þetta? Þad giører Hañ nær Hañ syner oss i Logmalenu/ hversu miøg vier høpum viked ap Hañs Vege/ þegar Hañ lætur sÿna Bodorda/ sÿna strøngu Hootana Þrumu lemia um Eyru Syndarans/ nær hñ Dauþheyrest vid Hiñe Blÿdu Raust þess gooda Hyrders/ og ecke vill lata sig med Guds Nædar Fyrerheitum leida a hiñ rietta Veg/ þad giører Hañ nær Syndaranū vid þetta Reidar-Slag Opbiooda sÿner Glæper: og hñ seger med David/ Þar er eckert Heillt a mÿnu Hollde fyrer þiñe Ognan/ þar er eingeñ Fridur i mÿnum Beinū fyrer mÿnū Syndū/ Mÿn Smar lykta illa z flioota ap Grepte þ miñar Heimsku Saker. Þegar hin frawillta Saudar-Kynd ecke rædur sier þañeg fyrer Opbode Helvÿtis Pÿsla/ þa mun Guds Hiarta bresta i hønum svo hñ hlÿtur hønū Mÿskunsamur ad vera/ Jer. 31. Þa mun Christi Ande bidia fyrer heñe med Ouñrædeligum Andvørpunum/ Rom. 8. Þa mun hun og brailt heyra/ þoott ad þÿnar Synder sieu raudar sem Blood / þa skal eg þær Sniooshvÿtar giøra/ og þoott þær sieu sem Purpure raudar/ skulu þær Ullhvÿtar verda/ Esaj. 1. Og þañeg fer nu hiñ goode Hyrder ad leita epter hinum tÿnda Saud. O hvilÿk Fødurlig Giæska! O hvilÿk breñande Elska! O þad Orañsakanliga Apgruñ DRottens Mÿskunar Ydra! Komed hÿngad aller þier sem Erþide dryged / og Þwnga erud þiader/ hañ vill Endurnæra ydur/ Matth. 11.

ÞAr Mun VErda MEire GLede i HImnenum YFer EJnum SYndara/ Sem YDran GJører/ HEllдur Eñ YFer NJu og NJutÿu RJettlatum/ seger DRotteñ: Hia hverium mun su Glede vera? hia Gude og hañs blessudum Einglum/ þar munu glediast Einglar Fridarens/ Esa: 33. ad þeir sia sitt Erfvide hepur ecke forgiepens vered/ þar munu fagna vorer Vardhallds Einglar/ sem eru Þioonustusamer Andar/wtsender þeim/ er Saluhialpena erfa skulu/

Heb. 1.

Neh. 11. nær þeir merkia/ ad þeirra Verk færer ſvo goodañ Avoxt/ad þeir fa apturbættañ þañ Skada/ er Satan vañ þeim/ nær hañ droo þridiung Stiarnaña/þad er Einglaña þeirra Stallbrædra/i Afgruñ Myrkraña med ſier/þa hañ ꝼiell af Himne/ ad þeir fa hañ bættañ/ ſege eg/ med Fyllingu Utvaldra Guds Barna/ſem Ydran giora/ þar gledſt Eingell hins mikla Raads/nær hãs dyra Blood hrijn a einum ꝼaatækum Syndara/ſm̃ Jdran giorer/ hañ reiknar ecke þau Bøndeñ/ þau Høggeñ/ þa Hrækana/þa Hwdſtrokuna/ þañ Þyrne-Kranſeñ/ þañ Hrakningeñ/ þa bitru Pijſl og Helvijtis Kvaler/ er hañ ſaklaus leid fyrer Þverbroteñ Syndara/ nær hñ idraſt af Hiarta/og lætur af Glæpunum/ ſu Gledeñ yfergnæfer / ad hañ hefur Saud ſiñ aptur-funded þañ er glatadur var/ ja/ øll Guddoomſins Þreñing fagnar yfer Apturhvarfe Syndarans/ Fadereñ/ þvi hañ Elſkar oſſ i ſijnū Elſkulega Syne/ Sonureñ/ af þvi hañ hefur oſſ Verde keypta/ Heilagur Ande/ af þvi hañ er Pantur Arfleifdar vorrar/ þvi ſeger ꝛ DRotteñ Hooſ. 6. A Myſkunſeme hefe eg Þocknan ꝛ ecke a Offre/ til hvers Lyknar Ords DRotteñ vijſade Phariſæunū/ er þeir mogl-udu um þad/ ad hañ æte med Tollheimtu Møñū/ Matth. 9. Fared þier/ ſagde hañ/og læred hvad þad er/ Myſkun vil eg/og ecke Offur/ þvi ei kom eg ad kalla Riettlaata/ helldur Synduga til Jdranar/ Og hvad er þ ſm̃ Auglyſe meir Guds Guddomliga Aſt til Syndarans/ helldur eñ þad ſm̃ hier ſtendur i Gudſpiallenu: OG Þa Hañ Hefur HAñ FUNDed/LEGGur HAñ ÞAñ SAma MEd FOGN-ude A HERDar SIer. Hañ ſlær hañ ecke nie lemur / ei rekur hañ med hardre Hende undan ſier/helldur leggur hañ a Herdar ſier/ þar til hañ nær til Hiardareñar/ ad hañ ecke ap:ur tijneſt. Svo er og Gud vid Syndarañ Nadugur/ hañ gleymer øllu þvi ſem undan er fared/ hañ ſkilur ecke hiñ villta Saud epter i Raadleyſu og Hugar-Vijle / helldur ſijner hønū med Vitniſburde heilags Anda/ ad hañs Syndum ſie kaſtad i Hafſens Diwp/ ſvo þeirra Miñing ei ſkule upp

H koma

koma ad eilijfu. Þessa Grunlausu Ast wtmælar DRottenn merke-lega/ Esa. 46. segiande: Heyred þier mier af Hwse Jacobs/ og aller hiner sem epter eru af Hwse Israels/ þier hveria eg ber i mijnu Lijfe/ og med hveria eg geing / jæ/ eg mun bera ydur allt til Elle-Daga/ og þangad til þier græer af Hærū verded/ eg vil upphefia/ bera/ og frelsa. Hvad opt lesū vier i heilagre Ritningu/ ad Gud hafe ydrad Þss Illa sem hñ ætlade ad leggia edur hafde lagt a Mañ-kyned (svo wtmælar hañ sijn breñande Myskunar Ydur epter Mañ-legum Plagsid) eñ sialldnar skulum vier lesa/ ad hañ hafe ydrad Þss Gooda sm̄ hñ hafde giørt/ þvi svo miklu yfergnæfer Náden Reid-ena og Myskunsemen Riettlæted/ þar fyrer seger hañ og fyrer Muñ Hosea i 13. Cap. Vm̄ þa Nád er hñ hugde syndugu Mañkyne ad veita i Christo: Ydranen er huld fyrer mijnu Auglite/ þad er/ eg skal þess alldrei ydrast. O hversu er Gud oss syndugum Møñum þa Olijkur/ hønū leidest alldrei gott ad giøra/ eñ oss alldrei ad fremia hid Illa. Hañ seger hiá Joel/ Cap. 2. er hñ wteys sijnū diwpu Myskunar Ydrum yfer Syndarañ/ Eg em Nádugur og Myskun-samur/ mikellrar Goodgirni/ og sa ed ydrar Þss Illa/ hvar hid Illa merker Guds rietfferduga Hefnd yfer Glæpū Mañaña/ eñ Mañesk-ian lætur sig svo lijtt ydra Þra fwlu Skam̄a er hun reiter hñ til Reide med. O hvilijk er þa Giæska DRottens / ecke einasta i þvi/ ad hañ hefur Þolenmæde med Illgiørdum vorum / hellдur og leitar epter oss a allar Lunder/ og tekur a moote einum syndugum sem Ydran giører med allskonar Blijdu. Mikil var Ydran Jonæ Spámañs/ og þo ecke miñe hñs Trw/ ad hñ epter þad hñ hafde játad Misgiørd sijna/ vogade þo ad láta kasta sier wt i hid brwsanda Haf/ eñ þo var eñ stærre Guds Fødurlig Giæska / er hañ sætteſt svo brádt vid hañ og svo algiørliga / ad hañ tilbioo hønum Vist i Hvalfiskiarens Kvide. Þesse Guds undrunarlega Hiarta-Giæska ætte ecke einasta ad leida oss til ad sættast vid hañ svo opt sm̄ vier hønū a moote briootū/ helldur

Gg

hañ mistun
um und and-
...tid,

er þetta ein Obrigdul Huggun fyrer þa sm̃ under sitt Andlꜳt ydrast. Stoorlega hafde þsse Guds Madur syndgast/ þar ed hñ þeckte Guds Mꜳtt/ og talade vid hñ eins og Madur vid Mañ talar/ Jon. 4. Og sette sig þo upp a moote hañs Bode / eñ hañ er svo brꜳdlega tilgaf hønum þessa Hrooplegu Synd/ mun hñ ei bꜳde kuña og vilia forlꜳta þier þijnar Illgiørder/ ef þu ydrast fra af Hiarta/ þoott ei hafer þu lꜳngañ Frest til Ydranar/ varla mun nockr Syndare vera meire Hꜳska vidksmeñ eñ hañ var þa/ og þo vogade hañ svo a Guds Myskun/ ad hñ sagde/ Cap. 2. Eg em wtkastadur frꜳ þijnu Auglite/ eñ þo skal eg ecke lꜳta af ad horfa a Mustere þijns Helgedooms/ hvert var þad Mustered? Þad var Guds Myskunar Hiarta / hvar var þad? Þad var jafnvel i Fiskiarens Kvide/ lꜳt þier þvi sagt vera/ ad þu ert alldrei i þeim Stad staddur / hverke a Sioo nie Lande/ hverke i Vatns nie Ellds Voda/ ad ei sie hañ þier Nꜳdugur nꜳr þu af Hiarta fridmꜳl est vid hñ/ og i einu Orde ad segia/ þar er Mustere hañs Guddooms sem þu ꜳkallar hñ i Anda og Sañleika/ eñ þssa Guds Nꜳd mꜳtt þu ecke ad brwka til ad draga sialfañ þig a Tꜳlar / svo sm̃ þu villder hafa þad fyrer Lijfs-Akkeri Sꜳluhialpar þiñar/ ad Gud hefur epter sumū leitad alla Æfe þeirra / eñ funded þa kañ skie ecke fyrr eñ a Daudastundune/ og lagt þa svo sier a Herdar/ og bored iñ a Land lifande Maña / Ertu þar fyrer Rꜳngeygdur þoott hñ sie Goodgiarn? Þoott hñ hafe svo vid nockra giort sm̃ nu er mꜳllt/ fra Orsaka vegna sem hañ sialfur veit / er hañ þar fyrer skylldugur ad giora eins vid þig/ sem forsmꜳer Rijkdoom hñs Langlundar i Ofstrauste hñs Nꜳd ar af þvi þu veist hñ er Myskunsamur. Spꜳmadureñ er eg strax umgat/ hañ var Guds Madur/ hñ þeckte bꜳde Guds Giꜳsku og hñs Riettlꜳte/ og þo hønum yrde þad a ad syndga svo stoorliga / þa vard hønū þad og fyrer ad ydrast strax sm̃ Gud liet hañ þeckia Synd sijna/ eñ þier mun bꜳgara um̄ ad giøra svo flioota Ydran sm̃ alldrei þeinkter nema um̄ Glꜳpena/ og hverneg þu kyñer þeim sem best i Verk ad

koma/ Pad hender Guds Børn ad þau falla i stoorar Synder/ añad hvert aþ Gæleyse eins og Moises/ aþ Bræðræde eins og David/ aþ Otta eins og Petur/ þetta skiedur þegar Vilieñ rædur fyrer Skÿnsemena/ Andeñ lætur sygrast aþ Holldenu/ eñ þau ydrast aptur aþ Hiarta/ þau væta sijna Sæng i Tarum med David/ og græta beisklega med Petre/ Eñ sa Gudlause heþur einga Hvijld/ hañ þeinker ei añad eñ hverneg hañ meige hinu Illa framkoma/ og eyder øllum Sælar og Lijþs Kroptum til ad fylla Girnd sijns illþwsa Hiarta. Þoott nu ad Guds Fødurlig Ast til Mañkynsens sie jaþnan bweñ til ad taka vid Syndarañum/ nær hañ snyr sier til Yþerbootar/ þa kañ eg ecke ad segia/ ad þßi Hættar Mañeskium mune vera lieft um̃ Apturhvarþ/ þvi Guds Rauft er miøg svo hardtølud a moote þeim/ er hañ seger: Mich. 2. Vei þeim sm̃ hugsa Ræinglæted / og þm̃ sm̃ stunda uppa hid Illa i Soeþn-Hwsum sijnum ad þr vilie framkvæma þad þegar bytter/ nær sem þad er i Vallde þra. Sieæ nu þeir til sem æfetia ad temia sier þvilijkt Hugarþar allt fram̃ i Daudañ/ hvert þeir mune eiga Hlut i þßarre Guds Giæsku/ um̃ hveria eg læt nu ad svo støddu wttalad vera/ jaþnvel þoott hun alldrei wttølud verde/ edur noogliga prijsud um̃ alla Eilijþd / og vil svo koma til hins sijdara er eg hiet um̃ ad Ræda.

Svo er nu Gud Nædugur til ad leita epter oß / sem eg heþe sagt/ Eñ hversu erũ vier nu audvellder til ad læta oß þiña? Gud hroopade a Adam/ er hñ hafde syndgast/og sagde: Hvar ert þu? og eñ nu hroop hñ a oß Daglega i sijnu H. Orde/nær vier ad Dæme þßa vors Fødur brioota hñs Skipaner/ þad fæũ vier ad þiña i hñs Tiju Laga Bodordum/sm̃ vier aller læra eigũ/strax a unga Alldre. Adam z Eva þoldu sig/er þau merktu Guds Rauft i Aldengardenum / eñ strax sm̃ hañ kallade Mañeñ vid Naþn/ þa ansade hñ z jætade Synd sijna. Svo er þ eñ nu þyrer oß/ ad a Vngmeñis Arum vorum heyrum vier ad søñu Rauft DROttens i hñs Løgmæle/vidlijkt z Adam þit-

eñ

eñ af hñs Ferd um̃ Aldengardeñ/ eñ þa verdur oss þ fyrer/ ad skyla oss a medal Eikaña/ þ er i Fæviisku Barndoomsins/og meinũ ad vier kuñum ad dyliast fyrer Gude/ Ef vier gietũ dulest fyrer þm̃/ sem oss er tiltruad/ og vid oss eiga um̃ ad vanda/ svo er nu Spilling Nattur-uñar frabær i þvi/ ad læta sig ecke piña af Gude/ þoott epter Mañ-enum sie leitad/ eñ þess være Oskande/ ad þegar vier erum komner til Vits og Ara/ og Gud kallar oss med Nafne/ ad vier þa ecke Ætt hlerar værũ/ helldur breyttum epter Fodur vorũ i þvi/ ad dylia ecke leinge med oss Synd vora/ Þu munt adspyria hvad þad sie/ ad Gud kalle eiñ med Nafne/ þ kalla eg ad vera/ nær hñ i sijnu Orde straffar þær Synd-ernar/ sm̃ þu ert sekur i/ eñ þu villt ecke vid þær kañast/ añadhvert af þvi/ ad þu kallar þad litla edur einga Synd / er þu vel mætt þeckia Synd ad vera/ edur og ad þu ert svo Forherdtur i þm̃ stooru Syndun-um/ sm̃ aller Glæpe kalla/ ad þu ecke Jdrast þeirra/ Vaneñ er vordeñ svo rijkur i þiñe spilltre Natturu/ ad þu ei þecker Armood þiñ z Fa-lækt i Guds Auglite/ edur ad Gud er svo smær i þijnũ Augũ/ ad þu ætlar hñ mune ecke forsmæ þañ sm̃ hñ Vanvirder/ 1. Sam. 2. Þeg-ar Meñ hafa nu Grein af einhverũ þessu/ erũ vier þa ecke næsta forvellder til ad læta oss piña? Þegar vorer fyrstu Forelldrar/ af Syrndeñe til ad þeckia hid Jlla/ neyttu þess Avaxtar/ er þm̃ bañadur var / þa hlutu þau Osk sijna/ eñ þ fyrsta Jllt er þau þecktu/ voru sialf þau og Þra Fatleyse. Af þessare fyrstu Syrnd hiñs fyrsta Mañs/ er iñsmogeñ til allra Maña nockurskonar Þorste til ad vita þ sm̃ Jllt er/ hvadañ flestar Odygder og Lester spretta / eñ þess være Oskande/ ad fyrst vier einu siñe hofum ratad i þetta spillingareñar Nattalag/ ad oss þa yrde hid sama fyrer/ eins og vorũ fyrstu Forelldrum/ ad vor Augu lykiust upp/ svo vier þecktũ sialfa oss z vora Blygd an/ vorn Veikleika og vora Orbyrgd/ og ad vier stadfaster værum i Hugleidingu þessarar vorrar Omyndar / þa munde hiñ goode Hyrder ecke einasta piña oss tijnda Saude/ helldur mundũ vier leita hñs And-

 litis

titis strax sem hañ kallar/ hañ munde breyta vid oss eins og þau/ og klæda oss/ ecke med Skiñklædum eins og Forelldra vora/ helldur med þm̃ Riettlætis Kyrtlenum/ er hañ utvegade oss þegar hañ Nødstelltur var/ Eñ fyrer þvi ad vier erum svo Toomlaater i slyku/ þa fylger þ a epter/ ad vier sneydū Himenen þeirre Glede/ sm̃ hñ hefur af eiñi Syndara/ sm̃ Ydran giører/ og sialfa oss fra Samneyte sm̃ i hønū bwa/ þar vier kioosum helldur ad eta Drafed af Svijna Tryglenum/ ia/ ad hverfa aftur eins og þau til Leyrvelltuñar/ helldur eñ ad leita til Hijbyla vors Fødur/ og mettader verda med Abraham/ Isaac og Jacob af Nægtū Guds Huss Eilijflegana. || Þegar eiñ Syndare idrast af Hiarta/ og lætur af Glæpunum/ þa kallar DRottenñ ad hañ hafe Saud siñ funded/ eñ hversu tregkomed ad sie til þess mørgum Mañe/ þad er audsied af Glæpunum/ sm̃ Heimureñ er fullur af. DRotteñ seger fyrer Muñ Zophoniæ Cap: 3. er hañ talar um̃ þa Naad/ er hañ heiter ad veita oss i JEsu Christo: Eg vil um̃breyta Vørum Folksins/ ad þær sieu hreinar/ og skømu þar epter seger hañ: Epterleifar Israelis skulu ei Ranglæted fremia/ og þeir skulu einga Lyge mæla/ og i þra Muñe skal ei følsk Tunga fiñast. Þesse dyru Spaadooms Ord/ heyra og vorū Tijdum til/ og mun ei þrioota þar til Verølld þrytur/ þvi svo leinge hefur Frelsareñ lofad/ ad vera hia oss. Eñ hlusted til hverneg DRotteñ i þessū Ordū utmaalar hiñ Andlega Israel/ christner Meñ. Munu þeir vera af þvi Sauda-Nwse/ sem lasta Gud med Orde og Verke/ þr sm̃ eckert Lof syngia hønum med Muñe sijnum/ þeir ed falska Eida viña vid hñs hrædelega Nafn / liwga/ baktala/ rægia og brugga Suik med Twngu siñe sijnū Brood-ur/ sem m3 Guds Sonar Bloode er Endurkeyptur? Langt er fra þvi / þeir eru eingu sijdur an Guds i Heimenū/ z fiarlæger Israels Borgar Riette/ helldur eñ hiner verstu Heidingiar/ um̃ hverta Paulus talar/ Rom: 1. Giøred þvi Idran i JEsu Nafne / O þier hin fraasnunu Børneñ/ z leited DRottens a medañ hñ er ad fiña/ svo þier af hønū

fundner

fundner verded. Eckert er þ sem meir hindrar Gudrækne vora/ helld-
ur eñ Vndandrættur Jdranareñar/ hverneg kañ Guds Ast i hönum
ad bwa/ sm̃ ei Daglega lætur sig þ angra/ ad hañ hafe svo Nad-
ugañ Gud styggdañ/ hver ed i svo mørg Ar hefur leitad a allar Lund-
er epter hñs Velferd/ og viliad leida hañ med Giæsku siñe og Ryk-
doome siñar Þolenmæde til Apturhvarfs. Vier þeckiũ ad søñu Glæ-
pe vora/ vors Guds Fødurlegt Hiarta køñumst vier og vid/ i þvi/ ad
lyda þa. Vier jætum og vitũ/ ad ei verdur þeirra Sekt burttekeñ/ ne-
ma þeir verde med beiskũ Tarũ afþvegner / eñ hversu fæer eru þeir
ed giøra svoddan Jdran/ sem þeim ad nockru Leite meige sambiooda.
Vær erum nærre þvi eins Lynder z Guds Foolk/ epter þad Gud hafde
leidt þa aptur wr Herleidinguñe/ um̃ hveria skrifad stendur/ Hag: 1.
Þetta Foolk seger: Þar er ei komeñ Tyme til ad byggia Hws DRott-
ens/ eñ hañ seger: Er þar Tyme til ad þier skulud bwa i Þiliudum
Hwsum/ og þetta Hws skal svo standa i Eyde? Oss hefur hiñ goode
Gud af Omælanlegre Giæsku siñe frelsad fra Diøfulsins Herteknin-
gu i Endurgietningar Laugeñe/ eñ hversu treger erũ vier og hiskner i
þvi/ ad uppbyggia hañs Kirkiu/ sem er vort Hiarta/ med Endurnyung
vors iñra Mañs/ eñ fyrer voru Jardnesku Hwse berum vier nooga
Vm̃hyggiu/ eg meina Kroppeñ/ þañ Ham Sælareñar/ þar hun sm̃
er Hwsboondeñ fer þo i øllu Reidelepse. Eñ hvad seger DRotteñ
um̃ sitt Foolk skom̃u sydar i sama Capitula: Þier sæed miked og safn-
ed litlu iñ/ Þier eted eñ eingañ Vegeñ til Sadnings/ Þier drecked og
verded ecke druckner/ Þier klædest og verded þo ecke varmer/ og sa ed
Laun tekur/ hañ leggur þau i rifeñ Siood/ Sama hender þa hælf-
christnu a medal vor/ þa Volgu/ um̃ hveria Guds Ande talar i Open-
beringar Bookeñe/ Cap. 3. Þeir vilia ad søñu Guds Børn heita/ eñ
þo forgiefens/ nema þeir brioote nidur þa Satans Capellu / i hverre
hiñ gamle Adam þioonar hønum / og er hañs Prestur þar iñe/ eñ
bygge Gude eitt nytt Mustere i syñũ Lim̃um med sañre Trw/ lifande

Tru/

Trw/ Sæluhiælplegre Trw/ hver ed verke fyrer Kiærleikann. Þeir sæ miked / þeir lesa Guds Ord/ heyra þad / enn þo med hængande Hende/ þvi safna þr litlu inn/ svo varla nockud þar af verdur geymt i Korn-Hlødu Hiartans/ þeim til Nota nær a þarf ad hallda. Þeir eta og drecka Holld og Blood DRottens/ enn ecke til Sadningar/ miklu helldur til Fordæmingar. Christo hafa þeir ad sønnu Iklædst / enn af fært sig honum aftur med Gudlausu Athæfe og þverbrotnu Hiarta Lage. Þeirra Christenndoomur er frosenn og hefur einganu Nattur-legann Varma / og þau Laun er þr meina sig ad hafa fyrer Lykting sinna goodra Verka/ hver þr giøra siælfum sier til Hroosunar/ enn ecke Gude til Dyrdar/ þeim hella þeir i rifenn Siood/ þvi hin sanna Audmykt Hiartans er længt þar fra/ og svo Trwen/ an hverrar Omøguligt er Gude ad þocknast. Breytum ei þanneg/ christner Menn/ breytum ei þanneg / helldur lætum oss ydra þad sem undanfared er / Sundur-kremium vor Hiørtu med Angre og Trega an Hræsnes / og ecke umm Stundarsaker/ helldur Alvarliga/ Idugliga og Dagliga/ þvi Daglega Syndgumst vier / og vinnum ævallt til Hegningar / annars mun Christendoomsens Nafn ad eingu gagna oss / eckert Heyrn Ordsens/ og eckert vor Kirkiu-Gængur / vorar Olmusur/ nie onnur Goodverk/ helldr mun þ verda eins og DRottenn seger fyrer Munn Haggæi/ Cap. 2. Spyried Prestana ad ef nockur her helgad Kiøt i sijnu Kapu-Skaute/ mun hann heilagur verda? Hverium Prestarner svørudu Nei/ Og enn sagde hann/ Ef nockur sa sim Ohreinn er af Daudiske/ snerter eitthvad þvilijkt/ hverium þr svørudu: þ mun Ohreint verda. Sama mun framkoma vid þa sem ei ydrast af Hiarta / og eru svo volger og toomlæter i Verke Sælar sinnar / þad Orded er þr heyra/ Guds Lykame og Blood er þeir medtaka/ Bænernar er þeir flapra wt af Munnenum / Kirkian i hvørre þeir birtast fyrer Guds Augum munu ecke helga þa/ miklu helldur þar þeir eru siælfer Ohreiner/ og ecke þvegner mz Laug sannrar Ydranar/ þa munu þr vanhelga þssa helgu Dooma

til

til Fordæmingar sier og eilÿfrar Glötunar/ nema þeir betur vande Yd ran sÿna og Apturhvarf fra Syndunum / en vid þessu dauþheyrast Men almeneliga/ jafnvel þott þ sie Guds eigen Raust i allre Rit ningune/ Svo tregt veiter heilögum Anda ad koma oss i Leitena/ þegar hinn goode Hyrder ad oss leitar. || O hversu liett giora Men sier Yd ranar Verked? Vier meinum ad Lygar/ Stuldur / Hoordoomar/ Gud lastaner/ Meinsære/ og hiner verstu Klæker og Skammer/ sem Dioffullen fær tilbwed i Vantrwarennar Börnum/ verde med einu Taare afþvegn ar/ z jafnvel þott ei sie þ svo miog af Grunne Hiartans/ En Ninive Borgar Men grietu Synder sÿnar i heila 40. Daga. David sem var hinn kiærraste Guds Vinur/ hann griet þo beisklega i Seck og Osku. Nebuchadnezar mætte afþvo sitt Ranglæte med sio Ara Ydran. En hvad meinar þu þier byrie ad giora/ sem ert þier svo margra Synda medvitande/ og þo eru þær fleire sem þu ecke veist/ ecke manst/ og ecke athugad hefur/ og sumar kann skie hallded fyrer litla edur einga Synd/ en ert þo ecke viss um/ ad þu hafer svo længann Frest til Ydranar/ sem ad Fiölda Glæpanna sambioode. Mun þier ei Þorf a ad læta þig finna af honum/ sem ollum Stoorsyndurum / Tollheimtumönnum og Þwium hefur til sÿn boded? Reid þig ecke uppa Olmusur Phariseanna/ jafn vel þott Olmusur sieu af Gude skipadar/ þad heiter ad vilia kaupa Sættmaalans Blood. Med Ydran z sanre Trw a hinn Krossfesta verdur þad fenged / en ecke med Femunum / þvi oll Verolden med allre sinne Dyrd er liettare en Fis hiaa einum Dropa Guds Sonar Bloods/ og duger eckert til ad Endurkaupa Saal Mannsens/ svo sem Frelsaren vottar / Marc. 8. Lat þier þar fyrer allra mest hier um hugad vera/ þa munu hin wtvortis Verken sialfkrafa a epter fylgia. || Ydranen z Trwen eru þær tvær Hendur/ er þu att, ad breida a moote þÿnum Lausnara / nær hann finnur þig Villuraafande a Eydemorku/ gior svo / þa munt þu Leidetamur verda til allra goodra Verka / þvi sa sem hefur ylmgad Hiarta sitt med Minningu sinna Illgiorda/ hann

mun skitrast vid/ ad vinna þad til hinnar raudu Vellingar/ Gen. 25. er Hiñ slæge Bragda-Refur Diofullen vill kaupa hñs Frumgietningu med/ ad standa wt ad nyiu slijka Plægu/ er Synden hafde ablad honum/ edur ad pijnast eilijflega i Helvijte ad ødrum Koste/ og hañ sem trwer a Guds Son/ og er viss um̃ ad honum eru svo margar Synder uppgiefnar / hñ elskar meir eñ svo / ad hñ læte sier finnast hñs Bodord þung er hñ svo heitt elskade/ ad hñ bar alla Guds Reide/ þa hñ var saklaus kvaleñ fyrer hañs Synder. || Veit eg ad hvergi þetta stendur i voru Vallde / eingeñ kañ til JEsum ad komast nema hañs Fader drage hañ/ Joh. 6. Og hier stendur i Gudspiallenu/ ad Madureñ hafe leitad epter þessum tijnda Saud. Svo leitar JEsus ad þier/ þad munde hñ ei giøra/ nema honum være Alvara ad hiælpa þier/ hañ leitar ecke forgiefens ad neinu/ nema þm̃ sem ecke vill læta sig finna/ eins og Pharisæi og Skrifklærder / þar fyrer leitade hañ ad Tollheimtumoñum og Bersyndugum / sem voru tapader Sauder/ þvi hañ var komeñ til ad frelsa þ sem tapad var. Hañ leitade ecke leinge ad Mattheo/ ædur eñ hñ liet sig finna/ ecke ad Zachæo/ ecke ad hiñe Bersyndugu / ecke ad Hoorkonuñe / er hñ afleyste i Musterenu/ eingu af þssu bægdu Syndernar fræ ad læta sig finna/ Eñ Pharisæi moo:stoodu heil: Anda/ Act. 7. Þvi geingu og Tollheimtumeñ og Pwtur iñ i Guds Rijke þar sem þr voru wtrekner. Madureñ took þeña Saud a Herdar sier / hvar fyrer? Þvi ad hñ hafde svo leinge ræfad i Villuñe/ ad hñ hefur ei siælfur gæanga kuñad. Svo giør er og Gud vid Syndarañ/ af þvi vier megnum eckert Gott af siælfu oss ad hugleida/ aukhelldur ad framkvæma/ þa ber hañ oss a Hondu sier/ eins og eiñ Madur ber siñ Son/ sagde Moyses um̃ Guds Foolk i Eydemørkuñe. || Nu þar vier hofum svo Nædugañ Gud/ ad hvar sem Synden yfergnæfer / þar yfergnæfer þo Næden miklu framar/ og svo milldañ/ ad hañ vill siælfur giefa oss Krapt ad þocknast sier/ þa læt alldrei Synd þijna svo vaxa þier i Augum/ ad þu efest um̃ hañs

Myskun/

Mÿskun/ nie vantreyst ſvo þÿnu Mættileyſe / ad þu ei ſtrax fylger hønum epter/ þvi hñs Kraptur er i breyſkū Mættugur. Satt er þ/ ad DRottne miſlÿkar Bondſkan ſvo miøg/ ad eingeñ Hlutur er ødrū ſvo gagnſtædur/ Vatned er Elldſins Vinur/ og Vlþureñ Saudaña/ hiä þvi Natre/ ſem Gud heþur a þvi Ila / aňars munde hañ ecke haþa uñed þad til ad forlÿka Neimeñ vid ſialþañ ſig/ ad oþurſelia ſiñ Eingieteñ Son i ſvo bitrar Kvaler/ þetta lætur hañ oſſ ſkilia er hañ ſeger: Þo ad Moyſes og Samuel ſtædu fraṁe fyrer mier/ þa være ecke mitt Siñe til þſſa Foolks/ Jer. 15. Eñ hier er ecke Moyſes nie Samuel / DRotteñ miñ / hier er eiñ færædur Syndare/ ein ormædd Saal / eiñ Narmþrongeñ Ande / eiñ tÿndur Saudur/ er þiñ Sonur heþur þo aptur funded/hver ad er meire eñ Moyſes og Samuel/ munt þu burtkaſta hønum/ DRotteñ/ nær hañ framber þad dyra Gialld/ er hñs Frelſare lauk fyrer hñ a Trienu? Fiærre ſie þad þier/ Bruñur Giæſkuñar/ ſm̄ ecke villt Syndarans Dauda/ þad ſie langt fra þier/ Konungur alls Landſins/ ad þu ſtraffer hiñ Gooda med þeim Vonda/ ſagde Abraham: Eñ eg em goodur vordeñ / þegar Sonar þÿns Blood er ytkruñed i mitt Tæra Flood/ þ er langt fra þier/ ſm̄ eingañ villt burtu reka þañ ed til þÿn kiemr/ ad þu lætr mig ecke niooþa hñs Væna/ſm̄ þu burturakſt þegar hñ kvaldeſt ꝧ mÿnar Synder/eda munt þu taka Giølld aþ bædum ockur? || Og þvi ſkyllda eg þa ei lata mig ſiña/ nær miñ Hyrder leitar ad mier/ þoott Synder mÿnar væru ſtærre eñ Sodomæ og Gomorræ Synder/ þvi mun eg vantreyſta mier ad betra miñ Liþnad / til ad fylgia hønum epter / þar eg megna alla Hlute med Paulo/ fyrer hañ ſem mig Mættugañ giører Chriſtum/ Phil. 4. Og er viſſ um̄ / ad hvers eg bid Fødureñ i hañs Naþne þad mun hañ veita mier/ Joh. 15. Þegar eg kiem fyrer Mangarans Bord/ þa em eg þo ecke viſſ um̄ / ad eg fæe þad mig gyrner/ ſaþnvel þoott eg heþe noog fyrer ad giallda/ ſtundum ſkorter hañ Voruna/ſtundum verda Meñ ecke Kaupſatter/og þad ber til/ ad añar bydur meira eñ eg / vid þvi ſem eg fala/ eñ þegar eg kiem fyrer þÿnar Nadar Dyr/ HErra miñ/ þa er ecke

hætt vid þvi/ad eg fare Erendeslaus. Þess eru ecke Dæme/ad þær Bæner/ sem eru i Himeneñ sendar/ hafe toomar aftur komed/ eg kaupe þar med Skortinum/ nær eg hefe eckert af siælfum mier frañ ad legg ia/ þa fæ eg alla Hlute fyrer alls eckert/ þar brestur ecke þad hver gyrn est/ þvi þar eru Nægter Guds Hwss / þar skal eingeñ hlaupa i Kaup vid mig/ þvi þar er noog fyrer alla/eins fyrer Manassem/ svo sm̄ fyr er David/eins fyrer Ræninglañ a Krossenū / svo sm̄ fyrer Guds Mood ur under Krossenum/ eins fyrer þañ sem ecke hefur erfidad nema eina Stund / svo sem hiñ er bored hefur Hita og Þwnga Dagsens / nær Meñ biooda þad med sundurknosudum Anda og trwudu Hiarta / sem alleina fyrer Gude gyllder/ þad er hañs Sonar Forþienusta/ i hverium hønum vel þocknast. Hønū med Fødur og heiløgū Anda sie Lof/ Prys/Ryke og Magt/Styrkleike og Dyrd/fræ þvi nu er og ad eilyfu/ A M E N.

# A Jons Messu Baptistæ.

Gudspialled/ Luc. 1. Cap.

OG þa ed sa Tyme var komeñ / þad Elizabeth skyllde fæda/ og hun fædde Son. Og er Nægrañar heñar og Frændur heyrdu þad / ad DRotteñ hafde miklad Myskun syna vid hana/samgløddust þeir heñe. Og þad skiede/ ad þeir komu a hinum ættunda Deige/ad um̄skiera Sveineñ/og nefndu hañ syns Fødurs Nafne Zacharias. Eñ Mooder hañs svarade og sagde: Ongvanveigeñ/ helldur skal hañ Johañes heita. Og þeir søgdu til heñar: Þar er þo eingeñ i þiñe Ætt/ sem ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bendtu Fødur hñs/ hvad hañ villde ad hañ hiete. Eñ hañ beiddest Knefa Spiallds/ skrifade og sagde: Johañes er hañs Heite. Og þeir undrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Muñur upp/og Tunga hañs leidriettist/og hañ talade lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Nægraña/ og um̄ allar Fiallbygder i Judæa vydfrægdust øll þesse Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu/

settu þad sier i Hiarta/ og segdu : Hvør grünar þig ad þesse Sveiñ verde? Þviad Hønd DRottens vär med hønum. Og Zacharjas Fader hañs fylltest aꝥ Heiløgum Anda/ spaade og sagde : Blessadur sie DRotteñ Gud Israels/ þviad hañ vitiade og gierde Frelsan sijnu Foolke. Og hañ üppreiste oss eitt Hiälpär Horn/ i Hwse Davids Þioons sijns. So sem hañ hefur talad fyrer Muñ siña Heilagra Spaamaña/ fraa Alldødle. Hañ frelsade oss fraa Ovinum vorum/ og aꝥ Hende allra þeirra sem oss hata. Hañ giørde og Myskun-semd vid Fedur vora / og miñtest a siñ Heilaga Saattmaala. Og a þad Saare er hañ soor Fødur vorum Abraham/ ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leister aꝥ Hende Ovina vorra/ þioonudum hønum aan Otta/ I Heilagleika og Riettlæte fyrer hønum sialfum / alla vora Lijfs-Daga. Og þu Sveiñ munt kallast Spaamadur hiñs Hædsta/ þviad þu munt fyrer reña Auglite DRottens/ad tilbwa hañs Vegu. Ad giefa hañs Foolke Skilning Saaluhialparenar/ i Fyrergiefningu Synda þeirra. Fyrer Myskunar Idur Guds vors/ i. hvørium hañ vitiade vor Vppruñe aꝥ Hædum. Ad lijsa þeim sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitia / til ad greida Fætur vorar fram a Veg Fridarens.

## Exordium.

Jaa eg mun senda miñ Engel fyrer mier/ sa ed tilreide Veg-eñ undañ mier/ seger DRotteñ hiaa Malach: 3. Cap: Ad þesse Spaadoomur hlijde uppa hiñ fyrsta Nyia Testamen-tesins Spaamañ/ Johannem Skijrara/ hvers Miñing vier i Dag høllduñ/ þad er audvitad aꝥ Vitnisburde sialfs Frelsarans/ er ritadur stendur hiaa Matth: Cap. 11. hvar hñ berlega þyder hiñ sa-ma uppa hañ/ þad er og lioost/ ad eins og Morgunstiarnan geingur undañ Sooluñe/ svo rañ þesse Guds Vinur undañ sijnum Herra / Lausnara Heimsins. Hañ var aadur gieteñ i Moodurkvide/ og aadur i Heimeñ

Johannes var Chri. Forgaungumadur

Neimen fæddur/ þvi lyser Eingellen/ er hn̄ bodade Moodr DRottens Gietnaden/ Luc. 1. Med þessum Ordum: Sia þu ad Elizabeth Frændkona þyn hefur og Barn gieted i Elle sine/ og þesse er siötte Mänudur hennar/ sm̄ kolluð var Obyria. DRotten var i Neimen fæddur af hreine og Oflecfadre Meyiu/ og þoott þad være hid mesta Furduverk/ sm̄ Gud hefur nockurn Tijma giort i ollu Natturunnar Rijke/ þa var og þad miøg svo undarlegt/ ad Johañes var alen̄ med þeirre Konu/ er svo miøg var til Ara komen̄. Johañes skijrde med Vatne til ad bwa Christo Veg/ sm̄ epter̄ kom og skijrde med H: Anda og Ellde/ Matth: 3. Johañes hoof sin̄ Lærdoom med Jdranar Predikun/ og Fyrergiefningar Syndaña/ þar hn̄ sagde: Giored Jdran/ þvi Guds Rijke er nælægt/ þetta var og Jnntaked i ollu̅ Christi Lærdome/ er sijdan̄ a epter fylgde/ z svo mun þ verda allt til Enda Veralldar/ þvi sagde hn̄ fordum vid Læresveinana: Luc: 24. Svo er þ skrifad/ og svo byriade Christo ad lijda/ og upp aptur rijsa a þridia Dege/ z predikast læta i sijnu Nafne Jdran z Syndaña Fyrergiefning him̄ ollum Þioodum/ hver Nædar Bodskapur ad eiñeg er til vor komen̄. Nu giefur Frelsaren þessu̅ sijnu̅ forgongu Mañe þan̄ Vitnisburd hia Matth: Cap: 11. Ad han̄ sie meire en̄ nockur Spamadur. Og mætte þ synast/ ad DRottens Alvijsa Forsion hafe sett þetta stoora Ljoos i ondverda Christs Kirkiu/ þ er i Fordyre Nyia Testamentesens/ til ad syna ollu̅ þm̄/ sm̄ þar iñe eru/ edur iñganga vilia/ hversu veglegt ad sie Embætte Forlijkunareñar/ sm̄ Guds Þienurum er tiltruad. Vil eg þvi a þessare blessudu Hatijd taka mier fyrer Hendur ad yfervega. 1. Hversu Virdugleg ad þra Þioonusta eige af ollu̅ hallden̄ ad vera. 2. Hversu miøg þr eige sialfa sig ad vanda. Hialpa oss hier til goode Gud fyrer JEsum Christum/ Amen.

## Utleggingen.

Og þu S Vein̄ Munt K Allast S Pamadur H Jns H Æsta: Þetta Embætte var miøg svo Veglegt a Dogu̅ Gamla Testamentesens/ svo þ fylgde Kongdoomenu̅ a stundum. Moyses var

Spámadur/ og þo Nøfdinge yfer Guds Foolke/ David var Konung-ur yfer øllū Israel/ og þo Spámadur/ sm̄ lioost er af hn̄s Psalmū/ Þeir voru og miøg svo Tignader af Gudhræddū Konungum/ svo var Nathan i Náavegum hia David/ Nazaria hia Aza Konunge/ z Esaj-as hia Ezechia. Nu eru ꝥ Guds Kieñemeñ i Nyia Testamentenu/ sem ádur voru Spámeñerner/ þvi þetta Ord ad SPá/ merker ecke alltijd ad segia fyrer Okomna Hlute/ svo sm̄ giørdu þeir a Gamla Testa-mentesins Døgū/ helldur i þvi/ ad flytia Guds Eyrende og vijdfrǽg-ta hn̄s Nafn. Hver mun giefa mier/ ad allt þetta Foolk kyñe ad spá/ sagde Moyses/ Num: 11. Syner ydar og Dǽtur munu spá/ sagde Joel Cap: 2. Þad er/ Gud dyrka/ lofa og vegsama. Johañes Ba-ptista verdur hier nefndur Spámadur ens hǽsta/ z þo gietur ecke um̄ ꝥ/ ad hañ hafe fyrersagt Ovordna Hlute/ DRottiñ seger/ Ad HAñ Sie MEJre Eñ NOckur SPámadur/ án Efa medal añarra ꝥss vegna/ ad aller Spámeñ spádu til Christum/ eñ Johañes bendte til hn̄s med Fingrenum/ og synde Møñum Guds Son Holldenu jklǽdd-añ. Hañs Epterkomendur eru vorer Kieñefedur/ þeir boda oss JE-sum Christum dáeñ fyrer vorar Synder/ og uppriseñ oss til Riett-lǽtis/ þeir syna oss hañ i Ritningunū fyrer Augunū afmáladañ med øllum hn̄s Astgiøfū og Velgiørningum. Hver er sw Foorn Gam-la Testamentesins/ er jafnast meige vid hn̄s dyrmǽta Holld z Blood/ sm̄ hn̄s Þienarar wtdeila i heiløgu Alltaresins Sacramento/ hvert er Valld svo miked a Jørdu/ svo sm̄ ad leysa Syndena hiá þm̄ Jdran-de/ z ad binda hana hiá þm̄/ sm̄ ecke vill Jdrast nie af heñe láta/ Joh: 20. Siáed þa/ Brǽdur mijner/ hversu Veglegt ad er þetta Em-bǽtte/ sm̄ þo af mørgū Dáara verdur lijtels meted. Ecke took Spá-mañs Embǽtted svo mikla Virding af Valldstioorneñe/ þoott eg fyr-er skømu segde/ ad Gud hefde sǽmt hana med þvi/ nǽr hønum svo lijkade. Hverutveggiu eru hn̄s Um̄bodsmeñ a Jørduñe/ z eiga hønū þar iñe ad þioona/ epter þvi sm̄ hn̄ hefur hvertum boded/ Þar voru

og pleſter af Gamla Teſtamenteſins Spaamoñum/ ſm̃ eingeñ Mikel'
Meñe voru fyrer Heimenum. Eliſæus var fra Ploognum tekeñ /
Jeremjas var Unglingur/ þa hñ var kalladur / Amos ſeger i ſiñar
Bookar Cap: 7. Ei var eg Spaamadur og ecke Spaamañs Sonur/
helldur var eg Nauta Hyrder/ og leitade epter Morberium/ þvi tekur
þetta Veglega Embætte eingañ Myndugleika af nockurs Mañs
Perſoonu/ Ætt/ Atgiørfe/ Rijkdoome nie ødrum Veralldar Hlutum/
þar i er øll Sæmdeñ fóolgeñ/ ad þeir eru DRottens Þienarar/ Allur
Rijkdoomureñ/ ad hñ vill vera þra Arfur/ Num. 18. Allur Mynd'
ugleikeñ i þvi/ ad þeir eru Raadsmeñ hañs Leyndardooma: Og er þ
ecke lited/ Børn mijn/ hver ſem ælijtur þad Okomna meir eñ þad
nærveranda. Eg þykeſt vita/ ad þar er eingeñ af ydur ſa er ei hallde
Guds Son alls Heidurs verdugañ. Eñ hvad ſeger Chriſtur vid
Poſtulana? Hver hañ forſmæer ydur/ hñ forſmæer mig. Ad vijſu er
þad ſatt/ ad vorer Kieñefedur naa ei Tæmum þangad/ ſem þeir høfdu
Hælana/ ſvo ſm̃ vier pløgum ad ſegia. Miked ſkorter oſſ a vid þeirra
Hugprýde/ Þolenmæde/ Kiærleika/ Bindinde/ Rokſeme/ z adrar Kieñe
mañlegar Dygder/ þo eru þeir ſamt Chriſti Þienarar/ og þeir ed vaka
yfer Saalum ydrum/ nær þeir giøra ſitt Embætte/ (epter þeirre Naad/
ſm̃ þeim veitt er) med Koſtgiæfne/ mun þvi Chriſtur ecke hallda þañ
Saklauſañ/ ſem vanvirder hañs aumaſta og veikaſta Þienara/ þvi
hañ ſtendur og fellur ſijnum Herra. Eg vil nu i þetta ſiñ ecke fæ
mier til Orda/ hverſu vier eigum þa ad elſka og virda fyrer þeirra eig'
en Perſoonu/ þvi eg hefe einhveriu ſiñe ædur um̃ þad talad/ þm er þ
og fyrer miñſtu ad þeir af ydur dæmder verde/ edur af Mañlegum
Dege/ DRotteñ er ſa/ ſem dæmer þa/ 1. Cor. 4. Þeirra Ovirding
hia Møñunum er þm Heidur hia Gude/ þad Hatur/ ſem Verølldeñ
leggur a þa/ ablar þm Elſku i Himnenum. Sa Afdrættur/ er þeim
ſkier i ſijnum Tekium/ hañ verdur Rijkdoomur i Guds Fehyrdſlu/ eiñ
Peningur / ſem þa vantar hier/ ablar Hundrad Peninga þar/ eñ um̃

hitt

hitt vil eg nu tala / ad þier ecke forsmæed þeirra Þionustu / þoott þeir sieu lijtilmootleger i ydar Augum sumra hverra/ þad er Kienningarnar og Ordsens Predikun/ þvi ef þier svo giored/þa forsmæed þier ecke þa/ helldur. þañ sem þa sende / og ef þier hafed þa fyrer Sañleikañ/ þa hafed þier Sæler ydar/og stofned þm̃ i hiñ mesta Voda.
Eg bid ydur Brædur / seger Paulus/ 1. Tess. 5. Ad þier þecked þa sem erfida a medal ydar / og standa fyrer ydar Andlite z kieña ydur/ ad þier hafed þa yfermæta kiæra fyrer þra Verks Saker. Hvert er þad Verked/ christner Meñ? Þad seger oss Zacharias hier i Gudspiallenu/ Ad TILbwa HAñs VEgu / hvers þa? HIñs ALLra HÆsta / þess Drottnarans / nær hañ kiemur til sijns Musteris/ sem er þitt Hiarta/ þad er/ nær hañ krefur þss/ og hin heilaga Guddoomsins Preñing vill þar iñgañga og Vistarveru hiaa þier giora. Til þess eru Guds Þienarar setter/ Seg mier/ eru þr þa Ills verder fyrer sitt Verk/ nær þeir giora þad trwlega/ og vilia fæ þier svoddan Giesste til Nysingar? Eñ þetta skilst ecke hiñe vantrwudu Kynslood/ hun er eins og Skiækian / sem Terentius gietur um̃ i Skrokssoguñe/ eins z hun sagde um̃ hiñ Dramblæta Strijdsmañ/ ad ei hefde leyfst vid hañ ad tala/ nema þad sem hañ hefde ædur fyrermælt. O jæ/ taled þad sem oss er þocknanlegt/ epter þvi sem Eyrun klæia. Er ecke þad hid sama sm̃ DRotteñ seger hiaa Amos/ Cap. 2. Þier hafed fyrerboded Spamoñunũ/ segiande: Þier skulud ei spæ/ þsse Guds Madur mætte og af þvi segia/ Amos. 7. þegar Amatzia Jeroboams Prestur i Bethel sagde vid hañ: Þu Siaande/ far burt i Gydinga Land og et þar Braud/ og Spæ þar/ eñ hallt ecke æfram ad Spæ i Bethel/ þvi þ er Kongsens Helgedoomur/ og hañs Hws. O þier Villudyr/ þegar Leoned Öskrar/ hver mun ecke skielfast? Og þegar DRotteñ skipar / hver mun ecke Predika/ Amos. 3. Eñ hñ skipar svo opt sem ad hñs Þienarar siæ/ ad ydar Glæper og Ogudlegar Athafner taka Yfirhond / Eñ hver af hañs Trwlyndum Þienurum

mun skielpast fyrer ydar Opocka edur Reide-Svip/ nær Meñ eru viss-
er um̃ hañs Vinattu/ J hvers Hende þier erud / eins og hid fyrna
Spamañsens Bellte / sem þo alldrei hafde i Voll komed. Eg
skal giøra myn Ord i þijnum Muñe svo sm̃ Elld / eñ þetta Foolk svo
sem Tre / þau er hañ eyder / seger DRotteñ fyrer Muñ Jeremiæ/
Cap. 5. Eñ þad Orded/sm̃ Gudhrædder DRottens Þienarar hafa
i Muñenum/ þad er og hañs Ord. Eñ svo sm̃ þad ad Jerusalem
ecke strax uppbrañ vid Spamañsens Ord/ samt var Baal-Elldureñ
ecke lengi i burtu. Svo vite hiñ Gudlause Heimur/ sem ecke vill
leyfa þessum Ellde Jñgang i Hiarta sitt/ til ad breña þar upp Sorp
og Endeme Holldlegra Syrnda / vite hañ / sege eg/ ad hins eilijfa
Loga mun skamt ad bijda / sem um̃ Allder mun breña þa / nema þeir
ydrest af Hiarta. Aller lætumst vier til Kirkiuñar koma/ aller heyr
um vier Orded/ & brwkum Sacramenten/ & svo sem ein Herme-Kraka
giørum oss Læte i Christendoomenum/ Eñ nær vier þetta hvad mest
giørum/ þa Gud giæfe/ ad ecke ætte heima hia sumum af oss þad sm̃
DRotteñ seger um̃ Juda fyrer Muñ Jeremiæ/ Cap. 5. Þar byrtast
Rangsnwner Meñ a medal mijns Foolks/ þr sm̃ liggia til Lægis/og
setia Snorur fyrer Foolked ad veida þad/svo sem þad Fuglareñ giører
med sijnum Veide-Brellum/ og þeirra Hws eru af Prettum full/eins
og eitt Fugla-Bwr er fullt af Tal-Fuglum / þar wt af verda þeir
Megtuger og Rijker/ Feiter & Frialsleger/ þr fara med Jllsku-Þør/
þeir hallda eingen Riettinde / þeir framkvæma ecke Malefne hins
Fødurlausa/ og þad luckast þeim. Og Almwgeñ er a Stundum
ecke betre ad sijnu Leite. Þad er ad søñu grætlegt til ad vita / ad
heiler Safnader heyra svo margar Predikaner / svo margar Amiñ-
ingar af Guds Orde/eñ þegar Meñ krefia ad þr giøre Grein a Trw
siñe/ þa er varla Tijunde hver / sem kuñe ad giøra þ svo sem christn
um Mañe byriar/ þad er eins og eiñ Okuñugur Hlutur fyrer þm̃/ og
eins og Draumur Nebuchadnezars/Dan. 2. er hañ sagde: Ad Ord-

ed

ed være Horped sier. O Hversu lyted er þetta ad virda Embætte For lykunareñar? þu seger/ ad Orded sie Horped þier / þu giefer þvi ecke i Miñe hallded/ med þssu dæmer þu sialpañ þig/ Barn mitt/eingeñ er svo Miñiestioor/ad hañ aß svo morgum Predikunum/svo morgū Fortolum/ hvar hid sama verdur optsiñis itrekad/ ad hñ ei giefe svo mikid miñst/ eß hañ vantar ecke Eptertektena / sem ad duga meige hönū til Sæluhialpar/ helldur vallda þvi Vmsviß Veralldareñar/ og Holldliger Þanckar / ad Meñ ecke Itreka med sialpum sier / edur bryna þ sijnum Bornum og Hiwum þad sem sagt heþur vered / þvi kiemur Dioþulleñ og stelur Ordenu wr Hiartanu/ svo under eins og þu flygur wt wr Kirkiuñe/svo flygur þ wr Huga þier. Nær mun Tungl komu Hattyden lyda ad vier kuñū ad selia Fædsluna/sogdu Gydingar fordum/ Amos. 8. Eñ þess være Oskande / ad nockrer Gærungar segdu ecke i Hiarta sijnu/ nær þr under Guds Orda Heyrn sitia/ nær mun þsse Ord-Snæpur hætta/svo vier meigū fara ad skiemta oss med vorum Lykum? Hversu vel verdur Predikunar Embætted virdt aß svoddan Vifftola Mañeskium? Giæted þss / christner Meñ / ad þau Dyren voru i Gamla Testamentenu einasta hrein kollud/ sm ad joort rudu/ sia þu og til / ad þu helger Hvyldardageñ / eñ hverneg verdur hañ helgadur? Ecke er eiñ Dagur aß sialpum sier odrum helgare/ helldur verda þeir svo epter Guds og Yþervalldsens Bode/eñ þu helgar hñ/eß þu helgar sialpañ þig/ecke einasta med þvi/ ad heyra Guds Ord/ helldur og hinu/ ad Itreka þad med sialpum þier/ er þu heyrt heþur/ og vellter þvi fyrer þier eins og Dyren Foodrenu i Maganum og Muñenum/ og vilier þu til fulls hallda þvi og alldrei sleppa/ þa breyt epter þvi i Liþnadenum. Lat þad vera hia þier svo sem eitt Moot/ hvar i Giorder þijnar jaþnan steypplar sieu/ þa mun þad vera svo sm Staþur sa sm a Bookþell er rifadur/ og þijnar Giorder munu hroosa þier/svo sm eitt Bylæte wr Gulle steypt/og nær þu svo giorer/ þa kalla eg ad þu aß Alvoru virder og elsker þetta heilaga Forlykunareñar

areñar Embætte/ Og hvad stodar þad Mañeñ / ad hñ Orded heyre/
nema hañ olldungis legge þad uppa Hiartad/ og life þar epter/ edur
mun þetta heilaga Embætte vera Iñstiptad fyrer Sida Saker/ edur
eiga Guds Þienarar ad vera ydur eins og Børn/ þau a Strætũ sætu
og kølludu til hiña : Vier høfum fyrer ydur i Pijpur blæsed/og þier
hafed ecke dansad/ vier þuldum ydur Harma vora/ og þier hafed ecke
grated/ Luc. 7. Þeir Guds Ord heyra Athugalaust / og ecke hyrda
uñ ad færa Avøxt þar af/ Þr draga sialfa sig Magnlega a Tálar/
ecke einasta i þvi / ad þad mun rijsa upp i Doomenum a moote þeim a
sijdasta Dege/ Joh. 12. hvad þo er hid skielfelegasta / og vill giora
Þra Fordæming miklu hrædeligre eñ Sodomæ og Gomorræ/ helldur eru
þeir Dærliger i þvi/ ad þeir lia Eyru sijn til ad heyra þañ Hlut sem
þm̃ er hiñ meste Leide að / alleina til ad hræsna fyrer Moñum / og
hafa þsi þo eingen Not i þßu Heime/sm̃ er Þra Himnarijke/eñ eilijf
Giølld añars Heims/ svo sm̃ eg fyrer skømu sagde. Giæted ad hvad
þad er/ sm̃ Zacharias seger framveges uñ þeña unga Svein: OG
TIL AD GIEfa HAñs FOOLke SKILNING SAALV'
hialpareñar Til FYRERgiefningar SYNda ÞEIrra. Til
þess hiñs sama eru ydur og Kieñendurner setter/ Br. M. ecke þad/
ad þeir giefe ydur Skilningen helldur eñ Johañes/ Hañ skijrde
med Vatne alleina/ Svo giora og þeir/ Páll ma planta svo sm̃ hañ
vill / og Apollo vokva. 1. Cor. 3. eñ þad er þo forgiefens nema ad
Gud Avøxteñ giefe/ eñ samt fæda þeir Sæler ydar a þvi heilnæma
Lijfsins Orde / sm̃ ad er Kraptur Guds til Sæluhialpar øllum þm̃
sem trwa/ ꝛ þegar Guds Ande samteingest þvi i riett-trwudu Hiarta/
þa kañ Mañeskian ecke ad fara a Mis vid þad / ad vaxa epter full-
konnum Mæler Christi Allders/ sm̃ Paulus ad Orde kiemst/ Eph.
4. Og þyker mier svo sm̃ ad hañ ecke miøg elske Sælu sijna/sm̃ ecke
vill þad viña til ad heñe hoolped verde/ad þiggia Naudsynlega Upp-
fræding af Preste sijnum / og heyra hañ i Guds Stad talande med

hiñe

hiñe mestu Athygle / ecke liggia Synderñar miøg þwngt a hønum/ sm̃ ad ecke med allre Sælar og Lijfs Audmyki og christelegũ Underbwninge framkiemur fyrer Gud i Skriptastoolen̄ / til ad þiggia af hønum Kvittun Synda siña fyrer Medalgøngu hans Þienara/. Eñ Gud Næde / ad þar er varla nockur Hlutur sæ / ed sumer Meñ hafe a þvilijkañ Vidbiood / svo sem a þessarre Heilsusamligu Þioonustu/ svo nær ed añadhvert Hræsneñ edr Offeñ dregur þa under Guds Orda Heyrn/ þa er þad svo sem þeir ættu ad ganga til Pijslar/ adgiætande þad lijted/ ad þeir eiga þar ad fiña Sælum sijnum Foodur/ so þr mege umflyia eilijfr Helvijtis Pijsler. Eñ seged mier þo/ ef Cain/ Achithophel/ Judas og hiñ rijke Sælgiætingur mættu eiga Kost a ad hverfa wr Kvølunum/ og sitia under eiñe Predikun/ mundu þr ecke kalla þad hiñ stæsta Velgiørning/ z Oska ad sw Predikun alldrei þryte/ hvilijkur Daraskapur er þa ad fræfælast þad medañ Nædartijmeñ er / fyrer hvert Madur giefur kvittur vorded vid þær Oumrædelegu Hørmungar/ er þeir nu þijnast i. Hlijded þvi Raustu Hroopandans i Eydemørku/ giøred Ydran/ þvi ad Guds Rijke er Nælægt/ þeckũ Gude/ ad hañ hefur ecke sendt oss Engla af Himne til ad fræda oss/ hverra Nælægd vier mundum ei standast / helldur synduga Meñ vora Lijka/ þar fyrer sa sm̃ elskar Sælu sijna / hañ elske siñ Sælusorgara/ og þigge hans Þioonustu med allre Hoogværd og Undergiefne / og er þ nu svo um̃ hid fyrra wttalad.

11. Hvörsu miög þr eige ad vara

Af Johañe hafa aller Christi Þienarar þad fyrst ad læra / ad forsmæ Heimeñ med øllu þvi sm̃ i hønum er/ og sierdeilis Aud og Mañvirdingar. Johannes var nwogu Ættstoor/ Burder hñs voru til þess/ ad hñ kuñe ad verda rijkur Høfdinge medal sijns Foolks: Fader hañs var eiñ Kieñemadur/ jæ/ ecke eiñ almeñelegur Kieñemadur/ helldur af Rod Abiæ (svo sm̃ Lucas hier um̃ skrifar/ Cap: 1. ) hver ed var hiñ ættunde medal Nidia Eleazars Aarons Sonar Hefudprests/ svo sm̃ þar um̃ mæ lesa i Cronicu Bookareñar 24. Hañs

þad jatar Paulus um sig/ Rom. 7. Med mikille Harmaklögum/ og mun einguñ aþ oss beiur vared/ Nu heyre eg DRottenn tala a þa Leid hier i Gudspiallenu / ad sa mege einginn inn i Guds Ryke koma / sem ei giorer Fodursins Vilia/ Enn hver mun þa hoolpenn verda? Giæt þss nu/ Barn mitt/ er Paulus seger / Rom. 8. Hann same Paulus sem talde Bankvæde syn a/ ad uppfylla Lögmaled / hñ seger : Þad sem Lögmalenu var Omögulegt / aþ þvi þad veikteft fyrer Holldet/ þad heþur Gud giort / sendande sinn Son i Lyfingu syndugs Holldz / og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu/ til þssarar Rettarbootar vyssar DRottenn oss sialþur hia Johannem/ Cap. 6. Þad er Vilie hñs er mig sende/ ad hver sa ed sier Sonenn og trwer a hñ / hñ haþe eilyþt Lyþ/ sim er hid sama og ad inganga i Himnaryke/ Guds Vilia er Omögulegt ad giora/ svo honum lyke/ þoott þier giordud allt þad þier ættud ad giora/ seger Frelsarenn/ þa jated samt/ Onyter Þioonarerum vier / Luc. 17. Enn hversu miked oss breste a þad / til þess sinna aller þeir / ed rannsaka sinn Lyþnad / og bera hann saman vid Guds Lögmal/ jaþnvel hiner Riettlatu / er vier svo kollum. Noe/ Abraham/ Isaac/ Jacob/ Elias/Samuel/ Job/ Daniel/ meiga Forlatsbidia / þegar Gud helldur Doomenn/ J hvers Augum þad Himnanna Himnar ecke hreiner eru / Trwenn a Guds Son er þad alleina/ sim oss rettlater/þvi sagde Petur fordum/ ad þar være eckert annad Nafn under Himnenum Monnunum geþed/ i hveriu oss byriade Saluhoolpnum ad verda. Væru ecke aller aþfallner/ z allur Heimurenn Sakþallenn fyrer Gude/ Rom. 3. Þa være ecke hanns Sonur i Heimenn komenn/ad kalla Synduga og ecke Riettlata til Ydranar/ Enn alla heþur hann kallad/ ollum segia lated fyrer Johannem/ Giored Ydran/ þviad Guds Ryke er nalægt/ Matth. 3. Ollum heþur hñ i synu Naþne Predika lated Ydran og Syndanna Fyrergeþning/ er þann Hlioom heyrt haþa / sem wt er geingenn um alla Heimsbygdena/ ollum heþur hann boda lated/ Giored Ydran/ og trwed Evangelio/ Marc. 1. Þesse er minn Elskulegur

legur Sonur i hverium mier velþocknast / sagde Guds Fodurs Raust
aþ Himnum vid Aana Jordan/ Matth. 3. Þar fyrer er sier hver sa
velþockadur him honū/ sem trwer a Naþn Eingetens Sonar Guds/
og hañ kemur ecke til Domsens/ Joh. 5. Þad er hañ verdur ecke for-
dæmdur/ þvi hañ heþur elskad oss i hinū Elskulega/ og þesse er Log-
maalsens Uppfylling/ Þesse er sa Guds Vilie/er Frelsareñ talar um̄
i Gudspiallenu/ad trwa a hñ/eñ med hvilyk̄re Trw/ christner Meñ?
Ecke hñs/ sem trwer ad Gud er til alleina/þvi trwa og Dioþlarner/
og skielþast þar aþ/ ecke hañs/ sem kallar sig trwa a Gud/ eñ nær hñ
sier Broodur edur Systur Skort lijda / geþur hañ þm̄ þo ecke þad sm̄
Lijkamanum gagnar/Jac. 2. jaþnvel þoott hñ haþe Audlegd Heims
þessa/ þvi sa sem segest elska Gud/ eñ hatar siñ Brood:/ seger Johañ-
es/ hañ er Lygare/ þvi eþ hñ ecke siñ Broodur elskar/ þañ er hñ sier/
hverneg ma hñ Gud elska/þañ er hñ sier ecke/ 1. Joh. 4. Sa dregur
sig a Taalar/er hñ meinar sig ad trua a Gud/ eñ syner einga Truar-
eñar Avexte. Paall seger / ad i Christo gyllde hverke Umskurn nie
Yferhwd/ helldur Tru sw / sem verkar fyrer Kiærleikañ/eñ Kiærleik-
ureñ er Logmaalsens Uppfylling / Rom. 13. Þad er hañ iñebyndur i
sier allt þad/ sem i Logmaalenu boded er/ eñ þoott hañ sie Ofullkomeñ
hia oss/þa verkar Trueñ þad i honum/ ad hñ gyllder i hñs Auglite/
sem heþur sett JEsum Christum til eins Naadarstools i hñs Bloode/
til ad auglysa sitt Rettlæte/ ad hñ sialþur sie rettlaatur/ og rettlætande
þañ/ sm̄ er aþ Truñe JEsu Christi/ Rom. 3. Þad er/ sialþur rett-
laatur/ i þvi ad taka eckert Ofullkomed fyrer gylldt/ eñ rettlætande þo
Ranglaatañ ꝥ Truna a Christū/ & giorande þau Verkeñ gylld/ sm̄ aþ
heñe framkoma / og i Gude giord eru / og ma hier aþ sia / hvilyk̄re
þeirre Tru byriar ad vera / sem er epter Guds Vilia / J einu Orde
ad segia : Syned mier Lioos fyrer utañ Byrte/ Sool fyrer utañ Lioo-
ma/ og eina Mañeskiu fyrer utañ Saal/ og skal eg syna ydur riett-a
Tru fyrer utañ Avexte. Tvoþalldt er Embætte Truareñar/ Eitt er

 þad/

þad/ ad trua þvi/ ad Gud sie Regnare vondra Verka/ Annad/ ad forlata sig þar uppa/ ad Gud mune Syndernar fyrergiefa/ Enn þad er valla mögulegt/ ad sa true hinu fyrra/ sem ad frammfer i Glæpunum Ydrunarlaust/ þvi seger David/ ad hinn Neimske seige i Hiarta sijnu/ þar er eingenn Gud/ Ps. 14. z hann truer Forgiefens/ad sier verde Syndernar uppgiefnar/ sem liggur i þeim Vijsvitande/ hafande einga Vid leitne edur Aiburde til ad Krossfesta sitt Hollld/ med þess Gyrndum z Tilhneigingum/ Oftraust er þ Guds Nadar/ enn ecke sw Tru/ er Manneñ hoolpenn giorer. Þu seger: Mijn Tru er veik / þvi velldur Fiølde Synda mina/ ad eg er ecke aldeilis Fulltrua um/ad Gud mune sijns Riettlætis vegna gieta fyrergiefed mier þær/enn eg er ecke einasta Opullkomenn/ helldur Ostødugur i mijnu Apturhvarfe/ og i þvi / ad giora Guds Vilia. Heyr mier Barn/ Er Lausnarenn þa komenn til ad kalla Riettlaata og ecke Synduga til Ydrunar? Þijnar Synder eru Diøfulsins Verk/ Mun ei Guds Sonur komenn til ad nidurbriioota þau? / 1. Joh. 3. Þetta Mistraust er eitt af þeim/þ mun Guds Sonur fyrer hvern Mun i burt taka/ þvi hann veit/ ad a þvi ridur Sælu hiaalp þijn/ ad trua a Gud/ og þann er hann sende JEsum Christum/ Mun ecke Nadenn yfergnæfa þar/ sem Syndenn yfergnæfer? Rom. 5. Hefur ecke Gud alla under Ohlydnenne innelukt/ (þad er under Þecktingu Syndarennar ) uppa þad hann myskunade øllum? Rom. 11. Ef þu nu þecker Synd þijna/ og villt hana af Hiarta ofgiort hafa/ hvernenn kantu þa ad efast um Guds Myskunseme / edur Fyrergiefningu Syndanna/ þar Gud vill ecke/ ad nockur Madur tapest/ helldur komest til Sannleiksins Vidurkienningar? 1. Tim. 2. Enn þo ad Truenn sie veik/ þa er þ þo Tru/ Eitt Neyste er eins vel Elldur/svo sem myked Baal/ Eitt Drope er eins vel Vatn/ svo sem allur Siooren/ svo var z Tru Fødur hinns Tunglsiwka eins vel Tru/svo sem hinnar Canaanisku/ svo sem hinnar Bloodfallsiwku/ svo sem Hundrads Høfdingians. Bid med Lærefveinunum/ HErra/ auk þu oss Truna/ Luc. 17. z med

Fødur hins Tunglsiuka/ er eg strax umgat/ Eg true ad søku Herra/ eñ hiálpa þu Vantru miñe/ Marc. 9. Eñ þoott ei bregde strax vid/ sem þu bidur/ þa lát þier a medañ nægiast Guds Nád med Paulo/ þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikañu / 2. Cor. 12. og visse Gud/ ad þier ecke nægde um Siñ þ lijted/ sem þu hafa þykest / þa munde hañ an Efa/ ad Skyndingu vidauka/ þvi án Truareñar er Omøgulegt Gude ad þocknast. Trueñ er Verk H: Anda/ eñ ecke þitt/ kalla þ alldrei lijted/ sem Gud hefur giørt/ Giæt þess / Barn mitt/ ad hiñ Náduge Gud heimtet þad ecke af syndugum Mañe i Evangelio/ sem hønu er um Megn. Þar er eingeñ af øllu Adams Nidiu/ sem ad fullu hefur Guds Vilia giørt/ nema hiñ añar Adam / sem er Gud af Himnu/ sá ed i Heimeñ er komeñ/ ad giøra hñs Vilia/ hñ er ánægdur med Gudrækne Hiartans/ og alvarlega Vidleitne/ til ad lifa epter sijnum Vilia/ þvi þeir/ sem eru i Christo JEsu/ þeir eru ecke under Løgmálenu/ Rom: 6. og ecke er Fordæming i þeim/ Rom. 8. Gud høndlar vid þa svo sem Børn/ og ei svo sem Þræla/ þvi hñ veit hvada Verkefne vier erum/ og þeinker a þad vier erum Molld/ Psalm: 103. Sagde ecke Eingilleñ vid Abraham/ Eg veit ad þu Ottast Gud / þo hafde hañ sijna Breste / er hañ Tvisvar Siñum Missagde um Konu sijna / ad hun være hañs Syster. Jacob / er hañ a Tálar droo siñ blinda Fødur / og hversu miøg kvartar Paulus um þa Synd/ sem i hønum bioo / Rom. 7. Þesse Dæme hefur Ande DRottens uppteikna láted til Huggunar þeim/ sem af Efasem, eñe freistader verda / af þvi þeir fiña Skort a þeirre Hroosun/ sem fyrer Gude gyllder/ Vier høfum i Christo þañ Høfud-Prest/ sem kañ ad samþijnast Veikleika vorum/ Hebr. 5. Hañ er Bruñur þess Vatns/ sem ad uppvellur til Eilijfs Lijfs / Joh. 4. Af hañs Fyllingu høfum vier aller medteked Nád fyrer Nád/ Joh. 1. J hønu fiñur hiñ strange allsheriar Doomare allt þad hañ brestur hiá oss/ Hañ er oss af Gude giefeñ til Riettlætis / til Helgunar / og til Endurlausnar. Hønum med Fødur og heiløgum Anda/ sie Vellde og Kraptur/ Rijke og Mattur/ Dyrd og Heidur / frá eitt re Eilijfd til añarrar/ Am.

# Nijunda Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled / Luc. 16. Cap.

A Þeim Tyma. JEsus sagde til siña Læresveina: Nockur Madur audugur var þar / sa ed haßde eirn Rædsmañ / sa same var Ofrægdur vid hañ / so sem heßde hañ eidt hañs Goize. Og hañ kallade þañ sama til syn / og sagde til hañs: Hvad heyre eg þetta aß þier? Giør þu Reikningskap aß þiñe Rædsmeñsku. Þviad þu mætt eige leingur Rædsmensku haßa. Eñ Rædsmaduteñ sagde med siælßum sier. Hvad skal eg til giøra / miñ Herra svipter aß mier Rædsmenskuñe? Eg duge ecke til ad graßa / eñ eg skamast myn ad bidia. Eg veit hvad eg skal giøra nær ed eg verd settur aß Rædsmenskuñe / so ad þeir medtake mig i syn Hws. Þar fyrer samañkallade hañ eirn og sierhvørn Skulldamañ syns Herra og sagde til hins fyrsta. Hvørsu miked ertu skylldugur mynū Herra? Eñ hañ sagde: Hundrad Tuñur Vidsmiørs. Og hañ sagde þa til hañs: Tak þitt Brieß og sest nidur / og skrißa snarlega fimtyger. Epter þad sagde hañ til hins añars / eñ hvørsu miked ertu skylldugur? Sa sagde: Hundrad Mælekiørølld Hveitis. Þa sagde hañ til hañs: Tak þitt Brieß og skrißa ættatyge. Og Herrañ loßade þañ Rænglæta Rædsmañ / þad hñ haßde giørt so forsiælega. Þvi þessa Heims Børn eru kiænare Sonum Liossens i þeirra Kynslood. Og eg seige ydur: Giøred ydur Vine aß þeim Rænglætis Mamona / so ad nær ydur þrytur / ad þeir medtake ydur i eilyßar Talldbwder.

## Exordium.

MArta / Marta / þu ert Ahyggiusøm / og mædest i mørgu / eñ eins er Þørß / Maria heßur wtvaled þad gooda Hlutskipted / sem ecke skal frá heñe takast / sagde Lausnareñ ford um / Luc. 10. Þad eru stoor Vanheilende Sælareñar hiá oss Daudlegum Møñum / ad hun fyrger svo miøg fyrer Lykamanū / eñ

lyted

lÿted fyrer sialfre sier/ og verdur þvi ecke a moote sagt/ ad hun vell-
kest næsta miøg wr Tign siñe/ þegar svo ber vid/ þvi hvad er Kropp-
ureñ hia heñe ad reikna/ hañ er Molld og Aska/ hun er eiñ lifan-
de Ande/ hañ skyniar eckert af sialfum sier/ hun er full Rads og
Skilnings/ hañ deyr og rotnar i Grøfeñe/ þar liggur hñ til þess hun
vitiar hañs aptur epter Guds alvÿsu Radstøfun/ og sÿdañ skulu þau
bæde þess Not edur Giolld hafa/ sem hun hefur sied fyrer sialfre
sier og hønum a medañ þau voru bæde samañ i Lÿfenu. Eñ Frels-
areñ seger hia Matth: 16. Cap. Hvad gagnar þad Mañenum/ ad
hñ eignest allañ Heimeñ/ og lÿde Tøpun a Salu siñe. Þetta skilst
ecke sumum Møñum/ svo eru þeir Ahyggiusamer um̃ þ Nalæga/ eñ
syrgia lÿtt fyrer hinu Epterkomanda/ og jafnvel finst þesse Brestur
hia þeim/ sem Gud vilia Ottast/ hveria og Frelsareñ kallar Lioss-
ens Børn i þessa Dags Evangelio/ af þvi þeir eru i Skÿrneñe
Guds Børn vordner/ hver ad er Fader Liossañs / Jac: 1. Christi
Brædur epter Endurgetninguñe/ hver ad er Lioos Heimsens/ og upp-
lÿser alla Meñ/ sem koma i þeña Heim/ Joh. 1. og upplÿster af H:
Anda/ sem er Liossens Ande/ og ecke Myrkursins/ eñ Toomlæte fra
og Oframsÿne straffar DRotteñ hier i Gudspiallenu/ med Epter-
lÿkinguñe um̃ hiñ ranglata Radsmañ/ um̃ hveria Margur hefur
margt talad/ & fært hana heim uppa oss/ sem a stundũ erum Otruer
Radsmeñ yfer þvi Punde/ sem Gud hefur oss til Medferdar feing-
ed/ og er þad ad søñu vel til funded/ Eñ Asetningur Frelsarans er/
ad kieña Børnum sÿnũ Gudrækelega Framsÿne i þeirra Saluhialp-
ar Efnum/ Þad sÿna oss þau Ord/ er sÿdarst standa/ OG Eg Sege
YDur/ GJøred YDur VJne Af ÞEim RANGlætis MAmona/
Svo Ad Nær YDur ÞRytur/ Ad ÞEir MEDtake YDur J
EJlÿfar TJALLDbuder. Þesse Ord vil eg nockud giør yfervega i
þetta Siñ. Hvar til hiñ goode Gud virdest ad hialpa med Styrk sÿns
Anda/ i JEsu Nafne/ Amen.

# Vtleggingeñ.

HJer stendur medal añars i Gudspiallenu/ Ad HERRañ Hafe LOFad Hiñ RANGlæta RADSmañ/ Þad Hañ HAfe Svo FORSJAlega GJørt. Ecke er þad Meiningeñ / ad Christur hroose þessum Ohlutvanda Mañe/ helldur seger hañ fra þvi i Epterlijkinguñe/ ad hñs Lænar-DRotteñ hafe prijsad / ecke Rangsleitne hañs eda Prettu/þvi eingeñ af oss hroosar slijku a sijn-um Þienara/helldur Slægvitsku hañs i þvi/ad siñ sier Farborda/nær hañ være afsettur RADSmeñskuñe/ svo hverke þyrfte hañ ad erf-ida/ nie fara a Vonar-Vøl/og þetta Dæme brukar Frelsareñ til ad eggia sijna Þienara a christilega Framsyne i sijnu Gudrækins Eyrende/ ad lijka svo sem þesse Veralldar Sonur var forsiall i þvi/ad bwa um Tijmanlega Atviñu sijna/svo skule þeir & vera i þvi/ad siñ sier borg-ed i Andlegum Efnum/ þvi fylger Epterlijkinguñe nockurskonar Vmkvørtun/er svo hlioodar: ÞEssa HEJms BOrn Eru KJÆN-are SONum LJOSsens J ÞEJrra KYNslood / og þar a epter Bodord Frelsarans/ hverneg þr breyta skule/ sm vilia eiga Vist med Gude/ og øllum Heiløgum i eilijfū Tialldbwdū. GJORed YDur VJne Af ÞEim RANGlætis MAMMona / seger Frelsareñ: Svo kallar hañ Audlegd Heims þessa: Þad ber til þess / ad valla er nockurt þad Ranglæte i Heimenū/ sem ad Audureñ sie ecke vidrideñ med einhveriu Moote / hvada Ranglæte hafa Meñ ecke vid i þvi/ ad abla hañs i Kaupum & Sølum/ med Yfervarpe Laga & Rettenda/ til ad svæla under sig Eigr añarra/med Feburde i Dooma/med Rane og Stulde/ med Ofrijke og Asælne/ med Lygum og Prettvijse: Eñ svo sem þad er ecke miña veidt/ ad giæta feingens Fiar eñ abla þess/ svo skedur og ecke miña Ranglæte i Medferd Audsens / helldur eñ i Safnenu / Edur hvad giøra þeir ed brwka hañ til Ofmetnadar/ stæra sig þar af/þacka siālfū sier fyrer sitt Lucku-Lan/fæfa Foorn-er fyrer sijnu eigeñ Nete /brwka Fe sitt til ad nidurdrepa hønum sem

Rang-

Ranginden lydur/ til ad riettlæta hin Ranglæta / en fella ranglæt-an Doom yfer hin saklausa / til Ohoofs i Mat og Dryck / og anars Bilgges/ en læta hin Fatæka og nakta þorsta og Hungur lida/iñe-hallda lænudu Fie/ og svykia Daglaunaran/ z þan sem sleiged heþur Lønd hins Ryka um sitt Verkaup / svo ad Hra Hroop er iñgeinged i Eyru DRottens Zebaoth/ Jac. 5. Eru þad þa Vndur/ þoott han heþnest Ranglætis Mamona? Og þoott ecke æþe aller allt aþ þessu/ þa er hver Partur þar aþ noogur til ad fordæma þan ed þad fremur/ þvi hvert ad ein tapar Lyþenu fyrer Lauslæte / eins og han er sam-lagade sig Skiækiune aþ Moabs Bornum / Num. 25. Edur fyrer Agyrne og Nydsku / eins og Nabal / edur fyrer Asna-Leitena/ eins og Simei / edur Frumgetningu sine med Laungunefie epter hinu sæta Rette/ eins og Esau/ edur Himnarike/ fyrer Myskunarleyse og Hard ydge/ þa ma einu gyllda/ litlu vardar um hvern Veg ad einn steyper sier til Helvytis. Nu er svo æstatt um Auden/ sem eg sagt heþe/ecke þad/ ad hn sie illur i sialþum sier/ Guds Blessan er han/ og nærsta þarþur þm er vel vita med hn ad fara/og brwka han Gude til Dyrd-ar / og Naunganum til Gagns / og til þess ad vera rykur i goodum Verkum/ añars er hn skadlegur / sokum Vanbrwkunarenar / og þvi seger Paulus/ ad þeir ed ryker vera vilia falle i Dioþulsens Snørur/ þar fyrer søgdu og hiner Gømlu/ ad hin ryke være añad hvert rang-lætur edur Ranglæts Arþe / Nu getur þad ecke ad øllu Leite satt vered / þvi ei veit eg hversu stoor-rykur ad Abraham var / þegar han foor wt aþ Vr i Caldæa Lande/ ædur en han kom til Haran / Gen. 11. Ecke var Jacob rykur / þegar han kom med einsamlan Gøngu-Staþ sin til Labans / og ecke var David Fiølskrwdugur / þegar han foor Land-Flootta fyrer Ofryke Sauls/og mællt til Matarverdar fyrer sig og Foolk sitt aþ Nabal/ 1. Sam: 25. Svo kuña og marger ad vera en nu i Dag/ sem vel eru komner ad Fe sinu / svo sem þeir ed audgast aþ Orlæte Konunga sina / og añarra Høþdingia / eþ þeir ei

X vanbrwka

vanbrwka Gunst þeirra ødrum til Skada / þeir ed med Bindinde og Sparseme Audlego saþna / svo framt ad hann sie ecke Opocke Fiaar sijns/ edur neite hinni Þurþanda umm þad/sem Gud heþur hønum boded ad gieþa/ Margur verdur audugur aþ Embættes Launnunum/og Kunnattu sinne/ verie hann þar til Idiu sinne og Astundan/ og take ei framar enn Gud og Yfervallded boded heþur/ þa maa hann eiga sitt med goodre Samvitsku. Margur græder aþ Hand Abla sijnni/og brwkar Nattuuruna/ sem er rijk til Bivega sinna/ þad er saklaus Groode / eþ allt er annad riett: Enn fyrer þvi ad i ollu þessu er Hooþed vandhitt / svo ad einginn er ad þullu viss þar umm / ad eckert sie rangþeinged i Bwe hanns/þar Audurenn er fagur/enn Menn eru ecke alltijd adgiætner i slijku/ og fyrergieþa siaalþum sier miked / þa kalla eg þad stoora Raad fyrer alla/ ad Menn eiga Kost a / ad giøra sier Vine aþ þessum Ranglætis Mammona. Tveir liggia Veger til þess sierdeilis/sa eine er/ad giallda aptur þad sem einhver aþ ødrum ranglega droo/ Annar/ad gieþa Olmusur Fatækum/baada kienner oss Zachæus Tollheimtu Madur/er hann sagde vid DRottenn/ Luc. 19. Helmingenn aþ Eigum mijnum gieþ eg Fatækum/ og haþe eg prettad nockurn/ gieþ eg ferþallt aptur. Gud hiaalpe oss vel / lijtell vaar þesse Tollheimtu Madur Vexte / enn morgum stoorum Manne mun hann kienna meiga Adþerd christelegs Apturhvarþs/ DRottenn gaþ hønum þann Vitnesburd / ad hann være Abrahams Sonur/ lijkast er ad hann haþe svo vered ad Burdum/ þad syner Naþned/og marger Gydingar voru Tollheimtumenn Romveria/ Enn hann haþde tapad Abrahams Barna Riette med Tollheimtunne/ þvi Heidingia og þa leggur Frelsarenn ad Jøþnu / Matth. 18. Enn þvi olle Audmyki hanns og Avexter Truarennar / ad DRottenn kallar hann Abrahams Son. Eg sege enn nu/ ad þetta Smaa-Menne giefur kiennt morgu Stoor-Menne sannan Veg Ydranarennar/ hann dæmde siaalþ ann sig i Þioofs Bæ... / þvi svo segia Moysis Log / Exod. 22. Ad Þioofurenn skule giallda fioora Saude fyrer rinn / sem stolenn er . Nu

er

er þo Straffed herdt af christnu Yfervallde/ epter þvi sem Glæpernet vared hafa/ Enn þess være Oskande/ad hiner stooru Þioofarner litlu ei heingia þa smææu/ eins og Hvalfiskarner gleipa litlu Fiskana/ Ef øll þvilijk Varmenne ætte under Gælgann ad draga/ þa munde Bodla vanta/þa munde Snørulaust verda/svo ad Gaungu Madurenn feinge valla þad hann kynne ad vefia umm Tøtur sijn / Enn hier er þo ecke svo miøg hætt vid/ hinn Riettlaate Domare hefur sied þvilijkum Monnum bæde fyrer Bodle og Snøru / þar ed hver heinger annan a stundum/ stundum kvelur einn giælijfur Sonur / ein lauslæt Dootter sijns Fød-urs Hiarta/ stundum plæga þa openberer Þioofar / ødrum sender hann Elld og Vatn/ Vind og Ovedur/til ad tugta þa/enn fyrer þvi ad þess-er Fe-Pwkar ecke taka þvi svo sem af DRottens Hende komnu/ ann-adhvert fyrer hans Tydun edur Tilhlutan/ þa kyrker Bwsorgenn þa/ og Aura Elskann / jafnvel midt i Daudanum / nema þeir ædur sieu Afhuga Heimenum/ og hafe golldeð þad aptur a einhvern Hætt/ er þr med Raungu fræ ødrum tooku/ svo fyrerfarast þesser Aumingiar/ og verda heingder jafnvel fyrer utann Bodul z Snøru/og i Sannleika/ christner Menn/þa er þad einsætt hverium einum ed erfa vill Himnarijke/ ad giallda þad aptur / er hann hefur svælt under sig fræ ødrum / þvi jafnvel hinn minnste Peningur/ er hann veit sig med Oriettu hallda/ hann er Pantur Andskotans uppa hans Sælu/ sem giefur honum Riett til hennar/ svo fliooft sem hun skreppur wt af Kroppnum / nema hinn hafe ædur bætt fyrer sig/ ef hann mæ þvi vidkoma / og fyrer þvi ad einginn veit hvad mikel Vmmsvif ad Daudenn lætur honum epter/ þa er ei Rææd nema i Tijma sie teked/ Gud hefur alldrei heited þeim Kvittun Synd-anna/ sem ecke lætur af Illu/ og lærer gott ad giora/ Esa. 1. Sa ed stoled hefur hann stele ecke meir seger Paulus / Eph. 4. Tak ecke svo Ord hans/ ad hann banne alleina ad stela framveges/ enn leife ad hella þ sem allareidu stoled er/þvi Gud bydur ecke alleina ad læta af Illu/ helldur og ad giøra hid Gooda/og skyllde þad vera fyrst af Goodgiørd

unum/ ef svo mä kalla/ ad giefa pad aptur / sem eiñ ranglega iñe-
helldur / og sa sem ecke hefur Leida a Syndeñe / hañ gietur valla
ætlad til Fyrergiefningar/ Eñ hñ sm ecke hefur Andstygd a pvi Fe/
er hañ ranglega tok/ hañ hefur og ecke helldur Leida a hinu rang-
fata Giorninge/ Meñ vilia segia / ad pad sie Omøgulegt/ ad giallda
øllum aptur/ p sm med Orietfu tekid var : Nañ er daudur et pu tookst
fra/ pa lifa po kañ ske Erfingiar hñs/ giallo peim slijkt er pu varst
hønu skylldugr/añars ertu eingu betre eñ hñ/ed svelger und' sig añars
Arf. Vera mä pu viter ei hvar hñ er ad fiña/edr Arfa hñs/pa høfum
vier po Fatæka jafnañ hia oss/ pr taka vid Arfenu/ pegar eingeñ er
Erfingeñ/ pu manst ecke hvad morgu/ edur um hvadmiked sierhver-
ium pu hefur Orieti giordt/ petta er Lijklegt/ sierdeilis hafer pu til
margra Ara samañsafnad/ petta er Lijklegt/ sege eg/ pvi vier skrifu
p ecke svo a Miñis-Tøbluna/sm vier tokum fra ødru/eñ pad sm fra
oss kañ tekid ad vera/ pvi gleymum vier ecke svo brädlega : Eñ ättu
par fyrer ad vera Nyggiulaus hier um? Nei/ Barn mitt/ pess meira
sem pu hefur fra ødrum ranglega teked/ pess fleirum sm pu hefur
Orieti tilgiørdt/ pess meire Nug skalltu leggia a Mal pitt/ pad er og
ecke Omøgulegt ad giora nockurn Jøfnud i slijku : Til Dæmis/ pu
veitst hversu frekt pu hefur byggt Lønd pijn/ hvad miked pu hefur
dreged af Verkamønum pijnu/hversu ofmikeñ Abata pu hafst hef-
ur a pvi pu sellder og keypter/giør svo smasmuglegañ Reikning vid
sialfañ pig hier um/ sm pu kañt/ añars vill Gud reiknast vid pig/
Dæmer pu ecke sialfañ pig/ pa verdur pu af hønu dæmdur/1. Cor:
11. Nañ hefur ecke gleymt po pu gleymer/ z nær pu hefur svo giørdt/
pa kasta nockru framhyfer/ og po meira eñ miña/ svo pu siert viss um/
ad Satan hafe ecke eina Klauf epter i Bwe pijnu/ helldur eñ Jsrael
a Ægyptalande/ Sie pa nockud ofgollded/ pa er pvi ecke spillt/ p verd
ur ad Fesiood a Himnu/p verdur ad Ølmusu/ z p er riett/ Ad GJøra
SJer VJne Af NJNum RANGlata MAMMon. Ecke ein-

asta

afta gallt Zachæus aptur þ hn̄ ranglega teked hafde/ helldur z gaf hañ Helming Eigu siñar Fatækum/ þad Giediadest Frelsaranum svo vel/ ad hañ sagde: A þessū Dege er Hwse þessu Heilsa skien. Hallt Sæl þijna svo dyrmæta/ Barn mitt/ ad þu sæer ecke epter nockrum Þorgeingelegum Alnum/ til ad nioota sømu Blessunar/ þvi iafnvel þoott ecke vijñe vorar Olmusur edur øñur Verk til neins hia Gude/ þar vier giørum eckert fram yfer þad/ sem vier eigum ad giøra/ þa eru þær Gude þo hvad kiærastar af øllu þvi vier bioodum hønū/ nær þær af Truñe framkoma/ z af Kiærleikanum/ añars gyllda þær ecke/ þvi þoott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Fatæka/ og hefde ecke Kiærleikañ/ þa være eg eckert/ seger Pall/ 1. Cor: 13. Þar fyrer slæe Meñ til hverneg Meñ Olmusur giefa/ ef þeir vilia ad þEir TAke Þa i EJlijfar TJalldbwder/ sem þær þiggia: Ecke til Foredilldar sier eins og Pharisæi/ þ heiter ad læta blæsa i Basunur fyrer sier/ ad giefa Olmusur til ad taka Vyrding af Møñum/ og sierdeilis þeir ed wfsiwga Hws Eckna og Fødurlausra/ meinande þo ad afþvo allt svoddañ med nockrum Olmusugiørdum/ þoott þ sie best wr Vondu ad ræda/ ad giefa af þvi/ sem illa er feinged/ eins z Zachæus giørde/ og læta svo af Ranglætenu eins og hn̄/ þa ætla ecke ad þijnar Olmusur mune gyllda miked/ ef þu helldur æfram i Prettunū. Lat þier umhugad vera/ ad þ sie vel feinged/ sm̄ þu giefur af: Eg elska Rietteñ og hata Raned/ þ er samteingest vid Brennefoornena/ seger DRotteñ hia Esajam/ Cap: 61. Hier af kuña Meñ ad sia/ hvad þær Olmusur gyllda mune i Auglite DRottens/ sem eirn ætlar ad betala sialfum sier aptur med Fe-Rane af Naunganum/ þær eru eingu betre eñ Hunds-Verd edur Skiækiu/ sem Gud villde ecke læta bera iñ i Helgedomeñ a Tijmū Gamla Testamentesins/ Devt: 23. Þar fyrer/ nær þu Olmusu giefur/ þa sia til ad hun sie i Gude giørde Siertu rijkur/ þa gief rijkuglega/ og giæt þess/ af hvertum þu Aud þiñ feinged hefur/ þo svo/ ad þijn vinstre Hønd vite ecke hvad hin

hægre gaf. Giæt og þess/ad þu giefer ecke oflýted ef þu mætt vel/ Þad er stoor Synd ad hafa alls Nægter/ en̄ læta hin̄ Volada svo fra sier fara/ ad hn̄ hafe valla Magan̄ fullan̄ / auk helldur til nærsta Mæls. Þier sundurmeried Andlit hin̄a Fatæku/ seger DRotten̄/ Esa : 3. Þoott ꝥ sie talad i an̄arre Meiningu i þessu̅ Stad/ þa heiter ꝥ riett/ ad sundurmola Andlit hins Volada/ ad læta han̄ horfa a Audlegd sýna/ en̄ skam̄ta hønu̅ svo naumt/ ad hn̄ sie litlu nær/ Ecke giørde ꝥ DRotten̄/ er hn̄ sadde 5000. Man̄s i Eydemørku/ þvi Gudsspiallamaduren̄ seger/ hn̄ hafe gefed svo sm̄ hver villde hafa/ Joh : 6. Ef þu villt segia ꝥ Nydsku̅ne til Vm̄bootar/ ad han̄ hafe haft betre Ræd en̄ þu/ þa vil eg segia/ Gietur þu ecke truad hønum/ er ꝥ giørde/ ad hn̄ kun̄e ad giefa þier tvöfallt aptur/ vid þad sm̄ þu gafst Vesælingnum/ Siertu Fatækur/ þa gief þo af Fatækt þin̄e/ slýkt er þu af mætt leggia/ og læt þad vera af Gnægd Hiarta þýns/ þvi Gud ælýtur Hiartad/ Lausnaren̄ sagde : ad Eckian̄ sw/ er lagde tvo smæ Peninga i Guds Kistuna/ hun hefde meira lagt en̄ aller hiner rýku/ þvi hun gaf af Leifum sýnum alla Lýfsnæring sýna / Marc : 12. Vit þvi/ ad þad lýted/ er þu gafst/ þad er Gude eins þægt/ og hid mikla/ er hin̄ Rýke gaf/ þvi bæda yckur giørde Gud/ en̄ hverneg sem þier hættad er/ þa gef med goodu Skape/ þvi hyran̄ Giafara hefur Gud kiæran̄/ seger Salomon/ Paulus bydur þad skule giørast/ ecke med Naudung/ helldur med fwsum Huga/ sæ sem med illu Giede wte lætur þad han̄ giefur/ han̄ hefur bæde tapad þvi er han̄ gaf/ og svo þeim Launum/ er hn̄ kun̄e ad vænta af Gude/ gief strax ef þu giefur/ þvi han̄ sem fliootl giefur/ han̄ giefur tvisvar/ Seg þu ecke Nææunga þýnum/ far burt og kom aptur/ þvi a Morgun skal eg giefa þier/ ef þu hefur ꝥ/ Prov. 28. ꝥ giører Vesælingen̄ Langeygdan̄ epter Giøfen̄e/ sierdeilis ef Þørf han̄s er bræd/ og Gud kan̄ ad læta þig býda Eins leinge epter Hiælpen̄e/ nær þier æliggur / þvi med þeim sama Mæler er þier mæled/ mun ydur aptur mælt verda / seger Frelsaren̄/ Matth.

Matth. 7. Ølmusur hafa stoora Rad i Guds Auglite/ Bæner þijnar og Ølmusugiørder eru uppstignar fyrer Gud til Miñes / sagde Eingilleñ vid Cornelium/ Act. 10. Bæneñ er Offur þad sem vier eigū Daglega Gude ad færa / þad eru Kalfar Vara vorra / Hos. 14. Sem koma i Stadeñ Foornfæringa Gamla Testamentesins/ Ølmusurnar eiga þeim ad fylgia/ ei sijdur nu eñ þa/ Ølmusañ blijdkar Gud meir eñ Foorneñ/ þvi a Myskunseme hefur hañ Þocknan/ eñ ecke a Offre/ Haf Rad mitt Konungur/ sagde Daniel vid Nebuchadnezar/ Giør Synder þijnar ad Riettlæte/ og Ranglæte þitt ad Myskunseme vid hina Aumu/ Dan. 4. Lijklegt er ad hañ hafe þad giørt / og kañ skie ecke afturhorfed wr Vargs Hamnum til Mañlegrar Rænu og Skyckunar ella. Ad Endingu vil eg miñast a þad / er hier sijdarst stendur i Gudspiallenu: Svo Ad Nær YDur ÞRYTur/ Þa Medtake ÞEir YDur J EJLijfar TJALLDbwder. Hverier þa? Guds Volader Sauder: Nær þryt: oß? Þeg" vier førū nakter burt wr Heimenū/ eins z vier i hñ komū: Nær medtaka þr oss? Vegeñ leggia þr til þss hi' i Heime/ mz Bænū sijnū z Andvørpunū til Guds/ ad þ mege oß endurgollded verda i Vpprisu Riettlatra/ er Meñ gafu i Guds Nafne. Johañes sa i Opeñberaneñe eiñ Eingel standa frame f Alltarenu/ hñ hafde Reykelsis Kier af Gulle i Hende sier/ z var gefed Reykelse myked/ ad hñ offrade þvi med Bænū Heilagra/ Apoc. 8. Eg efast ecke um̄/ ad hier med eru og teiknadar Bæner Voladra Þurfa-Maña/ sem eru riettir Christi Limer/ þetta Reykelse skylldu Meñ dyrum Doom um kaupa/ þvi þad gagnar meir eñ mørg Þusund Stycke Gulls og Sylfurs/ Nauta og Sauda/ eñ um̄ sijder munu ÞEir MEDtaka oss i EJlijfar TJALLDbwder/ þegar Konungureñ seger a efsta Doome til þeirra/ sem eru a hægra Veg/ þ sem þier giørdud einū af þssū mijnū miñstu Brædrū/ þad giørdud þier mier. Komed þier hiner blessydu mijns Fødur/ og eignest þad Rijked/ sem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veralldar/ Þess niootande ad verda/ uñ þu oss eilijfur Gud og alleina rijkur/ fyrer hñ sem vor vegna Fatækur giørdest/ JEsum Christum vorn Frelsara/ Amen.

# Tijunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 19. Cap.

I þañ Tyma. Og þa ed JEsus kom nær/ ad hñ sa Borgena/ grtet hañ yþer heñe/ og sagde: Ef ad þu visser hvad til þyns Fridar heyrde/ þa munder þu a þessum þynum Tyma þar Vaktan a haþa/ eñ nu er þad huled fyrer þynum Augum. Þviad þeir Dagar munu koma yfer þig/ þad þyner Oviner munu byggia Hervirke i kringum þig/ og umkringia þig/ og a alla Vegu ad þier þreingia/ og nidur i Gruñ kollkasta/ og þynum Børnum med þier/ og ecke munu þeir i þier læta Stein yþer Steine vera/ aþ þvi þu þeckter ecke þiñ Vitiunar Tyma. Og hañ gieck iñ i Musitered/ og took til ad reka wt þa sem selldu og keiptu þar iñe/ og sagde til þeirra: Skriþad er/ ad mitt Hws sie Bæna Hws/ eñ þier haþed giørt þad sem añad Spillvirkia Iñe. Og hvørn Dag kiende hañ i Musterenu. Eñ Kieñemaña Hoþdingiar og Skriþtlærder/ og þeir Yppurstu Lydsins/ leitudu þast epter/ ad þyrerkoma hønum/ og gætu þ ecke funded/ hvad þeir skylldu giøra hønum. Þviad allt Folked hnie ad hønum/ og hlydde hañs Ordum.

## Exordium.

NEL wtmælar H. Paulus þad Skrimsle Agyrndena/ er hñ seger/ 1. Tim. 6. þeir sem ad ryker vilia verda/ þr falla i Freistne og Snørur/ og i Margar Gyrnder Vitlausar og Skadlegar/ hveriar ad steypa Mañenum i Tøpun og Fordiørþun. Þetta er Degenum lioosara / þvi under þeña Skap-Løst þienar svo miked Illþyde añarra Lasta/ ad valla er nockur sw Odygd/ ad ei þurþe hun Lid aþ ad þiggia / nær hun er mognud / Eins z eiñ Stoor-Herra þarþ margra Þienara / svo er og Ovættur þesse / hun tekur heila Sveit aþ siñe Kynslood i Lid med sier / Lyge / Roogur / Bakmælge/ Meinsære/ Flætskapur/ Vnderhyggia/ Oþryke/ og jaþnvel

vel Mord og Mañdrap eru heñar Førunautar / pad vottar Postulen skoñu syþar i þyssu sama Capitula / er hañ seger: Ad Agyrnden sie Root alls Ills / i hverja þegar nockrer þyksst haþa / þa haþe þeir villst fra Truñe / og sialþa sig i gegnu lagt med Harmkvælu mørgu. Hiñ Agiarne heþur Otal Beidebrellur til Vtvega sina / eñ ecke heþur Dioþullen færre Snørur / til ad veida hañ / hvad drap Achan? Jos. 7. Hvad rænte Achab Ryke og Fiøre? Hvad sælgade Judæ? Matth. 27. Alltsamañ giørde þetta Fe-Gyrnen / og Otal fleira sem ei verdur uppreiknad / og kuñugra er / eñ med morgum Ordum segia þurþe / Nu eru þo marger Veger til ad verda Rykur / sumer Leifeleger / sumer Oleifeleger / hiner fyrre eru Blessan DRottens / Astundan i syñu Embætte / og Christeleg Fyrerhyggia / og añad þvilykt / sem eg hefe nockud drepid a i næst þyrer þarande Predikun: Hiner Oleifeleguru svo marger sem Agyrnden fær uppdyktad / eñ med þeim hættustu er Ovædvænd Kauphøndlan / hverrar vegna ad DRotteñ kallar / ad Guds Hws sie orded ad Ræningiabæle hier i Gudspiallenu / þvi seger Syrach Cap. 27. Eiñ Kaupmadur gietur valla vared sig Oriette / nie eiñ Kramare fyrer Syndeñe. Nu fyrer þvi ad eg heþe ecke til forna i Book þessare neitt merkelegt uñ þeña Hlut ritad / sem þo er hardla Naudsynlegt ad vita nockud uñ / þa vil eg taka mier Orsok af Vandlæte DRottens / til ad hugleida tvent hier af / sem er. 1. Hvør ad sie leiþeleg Kauphøndlan. 2. Hvør ad sie Oleifeleg.

Hialpa oss goode Gud til þessa Verks fyrer JEsum vorn DRotteñ / Amen.

## Vtleggingen

**H**AD er vyst ad ecke gietur Verolld þesse stadest an Kauphøndlunar. Miesmun heþur hiñ Alvyse Skapare giørt bæde Landaña og Mañaña / eñ eingu heþur hñ geþed allt / þvi hñ ætlade sialþum sier allt / Rykur og Fatækur mættu hver ødrum seger Salomon / eñ Gud heþur giørt þa bæda / Prov. 22. Hañ meinar Rykañ

rijkann / enn Fatækann fatækann / þvi hvertveggia kiemur af honum: Hvar fyrer mun nu hinn Almattuge svo giørt hafa? Gat hann ecke alla fullrijka giørt / sem æ alla Jørdena / og þad sem þar innebygger? Ad vijsu gat hann / Hvar fyrer er þad svo skied þa? Eingenn hefur ad sønnu hans Radgiafe vered / enn þo mæ þad skilia / ad hann hefur giørt þenna Mismun til ad læta dyrka sig af bædum / af þeim sem noog hafa / med Kiærleikans Verkum / af hinum sem Skortenn lijda / med Þolennmædenne / enn þo ecke sijdst til ad læta Daudlega Menn æfa sig i Riettvijsenne og Kiærleikans Verkum / i allre Høndlan og Vidskiptum / þar eingenn er sialfum sier fullnoogur umm allt / ad ei sie hann annars þurfe i einhveriu: Brwke þvi nockur Kaupmansskap / þa æfer hann eingann illann Hlut / helldur Naudsynlegann: Gud hefur ecke fyrerboded sialfann Hlutenn / helldur Vanbrwkun Hlutarens: Vigt og Mæler eru þeir Hluter / sem Kauphøndlan mæ ecke ann vera / þad hefur Gud ecke bannad / enn ranga Vigt og Mæler hefur hann fyrerboded / Lev. 19. Og þetta er ecke sijdst ad taka Vara æ / i Vidskiptum Manna / riett er og hverium Manne ad kaupa þa Hlute / er hann vidþarf til þessa Lijfs-Næringar / edur skickanlegrar Brwkunar / sem Gud hefur ecke i sijnu heilaga Orde fyrerboded / svo keipte Abraham Landed af Hephron til ad grafa Kuinnu sijna / Gen. 23. Jacob keypte Land under Bw sitt af Sonum Hemors / Gen. 33. Joseph keypte Fe hinna Ægyptsku til Handa Pharao f. Atvinnu / Gen. 47. Jeremias Akurenn af Chanameele Syne Fødurbroodur sijns / og giørde Giørning þar umm / Jer. 32. Og Lamuel samlijker forsialle Konu og ydinne vid Kaupskip / þvi ad hun sæke Fædslu sijna langt ad / Prov. 31. Fyrer þvi er þad saklaust ad brwka Kauphøndlan umm þvilijka Hlute. Aller þesser Menn / er eg strax upptalde / voru Guds Viner / og kunna Menn ecke annad umm þa ad ætla / enn ad þesse Hegdan þra hafe Leifeleg vered / Enn ef þeim var saklaust ad kaupa / þa var og hinum Syndlaust ad giøra þad falt / er þr selldu / þvi ecke er Kaupande nema Seliande sie. Lydia sw er Paul-

us

us ſkyrde i Borg þra Thyatirorum/ Act. 16. Nun ſellde Purpura/og Heyreſt ecke ad Poſtuleñ haþe bañad heñe Hondlan ſyna/og var þetta þo ecke ſvo miøg Naudſynlegur Hlutur til Lyþs-Næringar / ſem hun haþde med ad fara. Sæ ed ſelur Handa-Verk ſyn/ hveriu Naþne ſem̃ heita/ Hañ brwkar ſaklauſañ Kappmañsſkap/ þvi hñ netter Brauds ſyns i Sveita ſyns Andlitis/ eþ hañ ecke þalſar Verkefned / edur brwkar i þvi adra Ræangſleitne/ þyrer þvilyku mun hier epter Ræd giørdt verda i ſydara Partenum. Hañ ed ſelur þad/ er hañ miſſa kañ wr Bwe ſynu/ þeim er vid þurþa/ hañ giører goodañ Hlut/ ſierdeilis eþ hñ ecke iñehelldur þvi er hñ mæ æn vera/ nær hiñ er Naudſtaddur:

Svo giørde Joſeph/ þegar Gud ſende Hwngur i Ægyptaland/ z þoott ad Herodes Konungur Aſchalonita være hiñ verſte Madur/ þa var þ þo Loþsverdt a hønum/ ſem Joſeph Sagna-Meiſtare ſkriþar/ ad hñ haþe ſellt jaþnvel Gerſemar ſynar fyrer Atviñu handa Þegnū ſynū. Þeirra Adþerd er og Saklaus / ſem haþa Fe i Hondum / og kaupa Naudſynlega Hlute/ a medañ Nægter eru aþ þeim / til ad ſelia odrū ſem fætæker eru / og ei hoþdu Ræd til ad kaupa til margra Ara / og þoott þr Abateſt nockud þar aþ fyrer Omak ſitt/ þa er þ ecke Synd/ nær þad ſkedur med Jøþnude og æn Okurs/og þad hygg eg ad ſie hid ſama/ ſem Paulus bydur/ 1. Cor. 7. Ad þeir ſem kaupa/ſieu ſvo ſem̃ ad ecke eige þeir / þad ræd eg aþ þvi er hañ ſeger ſtrax epter/ad Meñ ſkule brwka ſvo Heimeñ/ ad Meñ ecke Vanbrwke hañ/ þad ſkil eg ſvo/ ad Meñ fære ſier i Nyt þa Hlute/ er Gud heþur lænad/ þo ſvo/ ad þ ei verde med Aſælne vid Næungañ/ til ad giøra ſig rykañ eñ hñ fætækañ/ ſierdeilis þar hañ i þſſu Stad er ad tala um þa ſtuttu Tyd/ er Meñ eiga ad fæſt vid þetta Tymanlega. Þeirra Atburder eru z rettvyſſer/ og nærſta þarþer/ er færa þa Vøru yþer Haþed/ ſem eitt Land mæ ecke æn vera/ nær þeir giøra þeſſ er St. Pæll bydur/ 1. Teſſ: 4. Eingeñ yferſtyge edur æſæleſt ſiñ Broodur i nockurre Hondlan / þvi Gud er Hegnare alls þſſa. Eñ nær þeir giøra þad

til ad hafa þar af sitt Ærlegt Vppheллde / en ecke til þess alleina ad verda rijker af Þorf añarra/ þa er fra Verk eingañvegen lastande/ og mæ um̃ þa segia eins og um̃ hvern añañ / sem ver Erfide z Dioiu siñe til ad hiælpa Naunganum / ad verdur er Verkamadureñ Launa siña: Fyrer þvi a ecke Kaupandeñ ad sia Opsioonum yfer þvi/ þott þeir æbatest/ ef þeir giora hañ ecke ad Lægræninge/ sierdeilis þar hñ vogar Lijfe og Gootze til ad siæ hinum borged/þvi hverttveggia þetta eru dyrmæter Nluter/ og Lijfed ad vijsu hiñ Kostulegaste af Verallðar Munum/ jafnvel ad Vilne Satans/ er hañ sagde/ Job.2. Nwd fyrer Nwd/ og allt hvad Madureñ a / mun hañ gefa fyrer siælfañ sig: Þvi a ecke ad misuña þeim nockurs Agooda/er svo miked leggia i Sølurnar: Þad kañ og til ad bera / ad þess Næktar Kaupmadur/ giøre þeim eingañ Oriett/ er hañ selur Voru sijna frekt/ ef hañ mæ hana añarstadar kaupa dyrum Doomum / og þad keimur eitt hvad a mille/sem hindrar Asetning hañs/þvi þad er eins og hvert añad Tilselle i Vtrettingum vorum/og er þad margt sem Kaupande kañ ecke ad vera svo froodur um̃/ ad hañ vite hvert hiñ giorer Oriett edur ei/ mæ hañ þvi ei strax vijta hiñ þar fyrer/ og þott hañ visse sier Oriett giordañ/ þa giorer hñ siælfañ sig eins sekañ / ef hñ vill rietta Nlut siñ med ødrũ Oriette/ þvi þad heiter ad giallda Illu Illt/ hvad Gud hefur bañad. Þetta er nu svo sagt um̃ þa Kauphøndlan/sm̃ Leifeleg er/ epter þvi sem i stuttu Mæle sagt verdur/ hvert þo betur skiliast mun/ af þvi er i hiñe sijdare Greineñe talad verdur / um̃ þad sem er Oleifelegt i nockurre Kauphøndlan.

Þier erud eins z Snara i Mizpa og wtþaned Net yfer Tabor/ seger Gud vid Israel/ Nos: 5. Af þessum ORottens Doome mættu Keñemeñerner ecke hiñ miñsta Nlut/ vegna Agyrne siñar/ svo sem ræda mæ af Textanum/ eñ ecke voru þeir Rædvandare/ þegar sæ Drottnareñ kom til sijns Musteris/ sem rak wt þadañ Seliendur og Kaupendur/ svo sem i Gudspiallenu stendur/ þad verdur sañad med

Ordum

Ordum Hieronymi Læreþodur/ hverra Meiningu ég vil setia hier ad nedañ/ til Froodleiks þeim er eptertaka vilia/ eñ øllum til Vidvorunar/ þvi sierhver christeñ Madur æ ad vera Guds Kreñemadur i Hiarta ssinu/ sem er Mustere Heilags Anda/ hañ skriþar æ þa Leid i siñe Utskyringu yþer Matthæi 21. Capitula/ Kieñemeñerner uppa þeynktu hverneñ þeir giætu Abatast aþ Almœganum/ og selldu allañ Fenad þañ er þurþte til Foornañá/ svo ad þr selldu þeim er ecke høfdu/ og tækiu sialþer aptur þad þr sellt høþdu/ Eñ þeña Prett þra hindrade Fatækt margra/ sem ecke einasta ei høþdu þad þr kyñu ad offra/ helldur og ecke þad þr mættu kûpa med/ þvi tilsettu þr þa ed lænudu Peningga. Eñ fyrer þvi ad i Løgmælenu var bañad ad taka Rentu/ og lænad Fe kuñe ecke ad gagna fyrer utañ Avøxt/ þa uppþeinktu þeir añad bragd/ ad þeir tilsettu þa er i stadeñ þyrer Peninga-Rentu tækiu adskylianlega Avøxte/ svo ad þad sem ei leiþdest ad taka i Peningum/ þa tækiu þeir i þeim Hlutum/ sem med Peningum keypter eru. Fyrer Rangsleitne þessa og Hreckvyse rak DRotteñ wt þa ed med þessu moote selldu og keiptu i Musterenu/ aþ hverium þlester voru Þienarar Keñemañaña/ edur þm æhængande. Hugleided nu/ Christner Meñ/ hvad miklu Gøþugre og Dyrdlegre ad er Guds Kyrkia medal vor/ helldur eñ Jerusalems Mustere/ þar hun er bygd uppa Grundvøll Spæmañaña z Postulaña/ hvar sialþur JEsus Christur er Hyrningarsteirneñ/ Eph. 2. Siæe þvi til hver og eiñn/ ad ecke verde hañ wtrekeñ wr hiñe søñu og Osynelegu Guds Kyrkiu/ þyrer svoddañ rængsnweñ Kaupmañskap/ eñ þvi er æ verr og midur/ ad eg hygg ad margur temie sier þssa Ohlutvendne/ sm ætlar sig vel Christeñ/ Gydingum vard þra Hws i Eydelæted/ þyrer þessa og adra Glæpe/ Eñ væru þeir aller wtrekner wr Guds Kyrkiu/ sem þvilikt adhaþast nu i Heimenu/ þa ugger mig ad verda munde þuñskipad þar iñe/ Edur hvad er þad/ christner Meñ/ þegar eiñ selur sinu Naunga eiñ Hlut/ eñ dylur þa Leste er hañ heþur? jæ/ hroosar hønum i mesta Mæta/

þo liwgande/ og a Stundum ſver vid Guds ſkielfelegu Hætign/ ad þ ſie ſvo ſem Hañ ſeger/og hverſu marger Klæker eru þa ſamañkomner/ til ad ſteipa eins Syndara veſælle Sælu i Helvijtis Afgruñ? hier er Þioofnadur/ hier er Lijge / hier er Meinſære ef til vill / miña næger: Sierhvert af þeſſu/ er noog til ad fordæma Syndarañ/ hefur ei Gud bañad ad ſtela / ad liwga / ad leggia Nafn ſitt vid Hiegooma? Þier ſkulud ølldungis ecke ſveria/ſeger Lauſnareñ / eñ ydar Ræda ſie Jaa Jaa/ Nei Nei / Matth. 5. Hvad vill þad þa verda / ad leggia þad vid Svik og Prettu/ſvo þad er næſta undarlegt/ ad nockur ſkule meta Sæl ſijna ſvo lijtels/og voga heñe fyrer ſvo lijteñ Hiegooma/og nærre þvi fyrer eckert a ſtundum. Ad ei tale eg þar um/ad hañ ſem veit ad Gud er til / ſkule ſvo berlega forſmaa hañs ſtooru Hætign fyrer einkis verdañ Hlut. Eingu betre er hañ ſem gyller vonda Vøru med einhveriu Tæle þvi/ jafnvel þoott ecke liwge hañ ſiælfur/þa lætur hañ Hluteñ liwga/eñ Þioofnadureñ er allur hiñ ſame. Þeſſu er þ lijkt/ ef nockur ſelur einhveriu þad hañ þecker ecke / og hefur ei Vit a ad dæma um/ hvert þad er Jllt edur Gott/ þad eru banvæn Svik/þvi ſa þad giører/ hñ ſelur ødrum Heimſku ſijna/ og veider hañ i Nete Faakiænſku ſiñar/ þetta er altijtt þeim/ er leina þvi ſem gagnlegt er fyrer hinum Einfallda / eñ biooda þm hid Onyta/ og af þeſſum Prett vaxa tvær adrar Stoor-Skañer/ſem er/ ad hañ er þvilijkt æfer fagnar i Hiarta ſijnu/ hverſu forſiæll hañ vered hafe / z þackar Abatañ Sviñu ſiñe/ eñ hins Oſviñu forſmæer hañ / og ſkamaſt ſijn ecke ad hrooſa þeſſu fyrer ſijnu Lijkū/ leggur ſvo Drambſemeñar/ og Siælfs hælneñar Synd til Þioofnadarens / og er þa ecke Von a ødru verra/ nær Diofulleñ hefur ſvo blindad eiñ/ ad hañ ſtærer ſig af Klækiunū/ eins og Lamech er hañ hrooſade ſier af Fooſkuñe vid Kviñur ſijnar/ Gen. 4. Med þeſſum eiga þeir Seſſ i Andſkotans Rijke/ ſem brwka falſka Vigt og Mæler/ um hveria eg hefe noog ſagt/þegar eg ſege þad med Salomons Ordum: Ad þvilijkt ſie Andſtiggd fyrer Gude/ſa

þad

þad giorer hañ uppskier/ hvar hañ ecke sæde/ og selur einum þad hñ alldrei feck. Þeir ed selia Voruna op dyrt/ z miklu hærra eñ ad svarar þeim Abata er þeir med riettu hafa meiga / fyrer Omak sitt og Vm̃hyggiu fyrer sijnum Kaupmañskap / þeir meina ad soñu ad vera saklauser / og helga sig giarna þar med / ad eingañ bidie þeir ad kaupa ad sier / og Vara þeirra sie Osvikeñ / eñ hier i er þo margt athugaverdt/ sie svo ad eg hafe einhvern Hlut/ þañ eg mæ ecke missa ãn mijns Skada/ eñ hañ ætlade sier mikeñ Hagnad af/ er kauper/ þa er þad ad soñu riettvijst/ ad eg selie hañ nockru dyrara/ eñ eg keypte/ Eñ ef eg hefe þañ sama Hlut til solu/ og vil hañ falañ læta/ þegar mier lijkar Andvyrded/ eñ Brooder edur Syster eru Naudstødd/ svo þau gieta ecke ãn hñs vered/ z eg brwka neid þra Voru miñe til gylldes/ þa er þad stoor Synd/ og eingu betra eñ þad/ sem ædur er upplæted/ þvi þad heiter ad selia einum Þorf sijna/ eñ hverneñ kañ hañ ad giora Huteñ betre/ edur Dyrmætare/ i sialfum sier/ helldur eñ hañ være þar fyrer utañ? Kañ nockud Hwngur Naungans ad giora þiñ Mat betre/ og ef ecke betre/ þa ecke helldur Dyrmætare/ edur hañs Verleike/ þ Fat er þu selur hõnũ Kostulegra? Þetta er nockurskonar Hegløtes Ofrijke/ og Vlfur under Saudar-Giæru/ þvi hvert eg vijk Fe wt af einhverium / sem ecke mæ ræna mig þvi sem hõnum æliggur/ edur og ræne hñ Fe sijnu/ þvi er eg hefe eingañ Riett til/ þ er allur hiñ same Oriettur i Guds Auglite. J þessũ flocke vada þr ed kaupa upp alla Voru/ þa sm̃ hiñ Fatæke mæ ecke ãn vera/ nær þeir hafa noog i Høndunum/ eñ selia hana svo dyrt aptur/ sem̃ sialfer vilia þeir/ nær Neideñ þreinger/ og þo eru hiner hvad verster/ sem hafa a Bodænge gyrnelega Hlute/ og þo alldeilis Oþarfa/ eñ læta þa svo dyrt/ sm̃ Agyrndeñ bijdur/ nær Dæreñ sparar ecke fyrer ad giefa/ til þess ad sløckva Gyrndena um̃ Stundarsaker/ eñ svelltur sijdañ. Þetta er ad selia einũ Synd sijna/ sem er hiñ verste Kaupmañsskapur/ Þetta er ein Andskotans Sripa / af morgum Streingium/ morgum

morgum Syndum flettud/ þvi fyrst kauper hañ þesshattar Voru til ad leggia Talbettu fyrer hiñ Heimska/ sijdañ fletter hañ Fie sijnu/ og epter a hæder ad honũ/ eñ prijsar siálfañ sig og Kiænsku sijna / z þad er ecke ollu betra eñ Bileams Rad/ hver ed liet Jsraels Sonu glæpast a Moabitiska Konum/ Num. 31. Aller Heilvita Meñ/ sem þetta lesa edur heyra/ þeir munu nærre geta/ hvar um̃ eg tala/ og er allt ofmargt af þessu Jllþyde i Lande voru. Þetta er nu svo talad um̃ hañ ed selur/ eñ þoott ad Kaupande og Seliande sieu nærre þvi hid sama/ þar eingeñ selur nema hañ kaupe/ og eingeñ kauper nema hañ selie/ þa giora Meñ þo Mismun þañ i Daglegu Male/ad sa heit' er Seliande/ er hefur Voru til Kaups/ eñ hiñ Kaupande/ er ad honũ kauper/ og þvi hefur hañ og nockurs ad giæta. Einhver kañ a stund' um ad selia þad hañ ecke veit hvad kostar/ og er þeim þa vant/ sm̃ ad honum kauper/ ad ecke asælest hñ siñ Naunga i siñe Hondlan/ Ja i Sañleika/ gefe hañ miña fyrer Hlutteñ eñ ad hañ verdur er / þa er hañ eins sekur i Guds Auglite/ svo sm̃ hiñ/ er sellde þeim ofdyrt nock' urn Hlut/ er ei veit hvad hañ kauper. Eirn neydest til ad selia Eigu sijna fyrer Hwngurs saker/ edur einhvern Atviñu Brest/ svo hñ getur ecke beded epter þeirre Tijd/ sem hañ kuñe ad fa Lijfs-Næringu med odru Moote. Fae hañ ecke Jofnud af þeim er kauper/ þa giorer Kaupmadureñ stoora Synd/ og er eins sekur / og hiñ er selur odrum Þorf sijna: Vægt er allt þvilijkt upp ad telia i stuttu Male / eñ giæte Meñ þess/ er DRotteñ sagde Fordum/ Hvad þier vilied ad Meñ erner giore ydur þad sama giored þeim eiñeg/ Luc. 6. Svo og þess Syrach skrifar/ Cap. 27. Eins og Fleigureñ klemist a millum Mwr' steina/ svo þreingest Syndeñ a millum kaups og sals/ fyrer þvi er þeim einsætt/ er giort hafa slijka Hondlan ad Handaverke/ kañske leingur eñ skemur/ sumer hverier/ þeim er einsætt/ sege eg/ ad rañsaka nockud Atferd sijna i þessu/ og ef þr fiña Ranglæte hia sier/ ad bæta þad med sañre Ydran/ eñ hun er alldrei af Alvoru/ nema Meñ gefe

þad

þad aptur / sm̄ rangl'ega teked var / hvar um̄ eg heþe nockud talad i nærst fyrerþarande Predikun / og vil þad ecke hier aptur ytreka: Alleina vil eg rañsaka tveñslags Aþsakaner / sem Meñ plaga ad giora sialþū ser i þvilyk̄u Tilþellum. Ein er sw / ad nockrer latast geþa Olmusur aþ þessu rangþeingna Gootze / og þurþe þvi ecke aptur ad leggia / eñ giæt þess / ad þad sem Fatækum er geþed / þad kallast Guds lanad / eñ Gud vill ecke Þiooþs-Nautur vera / þad sem hoñū er geþed ma velþeinged vera / eþ þad a henum ad lijka: Þvi er þad tiett er Syrach skriþar / Cap. 34. Sa sem færer Foorn aþ Eigu hins Fatæka / þad er svo sem hñ slatre Syneñū i Augsyn Fodursens: Braud hins Þurþtuga er Lijþ hins Fatæka / sa ed svijker hñ / sa er Blood-gyrugur. Olympias Moodur hins Stoora Alexandri hun helgade Aþgude synum þad Sverd / er Madur heñar Philippus Konungr var drepeñ med. Alexander Phereus giørde hid sama vid Leusuna / med hverre hñ vo Fodur Broodur siñ Polyphronem / z somu Aþerd haþde Keysareñ Antoninus Caracalla / er hañ Lijþliet Broodur siñ Getam / aller Meñ kalla þetta illa giort / eñ ecke mun vera svo stoor Munur a þessum Odæda Verkum i Guds Auglite / og hinu / ad svijkia Nau-ungans Braud wt aþ hañs Muñe i Kaupum og Solum / eñ latast geþa Gude þar aþ aptur / edur hañs Vesælingum / svo miked sm̄ þm̄ sialþum lijkar. Þad geingur nærst þvi / ad kasta Bloods Verdenu iñ i Kyrkiuna med Juda / Eñ þo vil eg segia þ sem eg heþe adur sagt / ad eþ Madur fær ecke aptur skilad þeim sama er nockur heþur Oriett tilgiørt / þa er ecke añad Raad / eñ ad geþa svo miked Fatækum / sem eiñ meinar sig / epter smasmuglegt Rañsak Samvitsku siñar / ad haþa med Oriette teked. Oþlieft og eingeñ vid þad ad Synde n verdur ecke tilgeþeñ / nema aptur sie gollded hid Rangþeingna / þvi svo seger DRottiñ fyrer Muñ Ezechielis / Cap. 33. Eþ hiñ Ogudlege geþur Panteñ aptur / og lætur Raaned aþ Hende / og geingur epter Lijþsens Bodorde / og giører eckert Oriettvijst / þa skal hañ liþa og ecke deya:



Med

Med þessum Skilmálum hefur Gud Syndaranum Vægdeñe heited/
eñ añars ecke: Hier um̃ hefur Augustinus Lærefader vel talad i einū
Stad. Ef ad añars Fe (af hveriu Synden̄ kiemr) kañ aptr ad giallð
ast/ eñ verdur þo ecke golldt/ þa er þad ecke søñ Ydran/ helldur Læte
heñar/ Synden̄ verdur ecke fyrergefeñ / ef ei er apturfært þad burt
var teked. Oñur er þeirra Afbotun er segia/ ad ei mege þr aptur-
láta/ þ þr med Raungu teked hafa/ Søkū Ovirdingar þrar / er af
þvi fylget / og ad Fiarhluter sieu miña verder eñ gott Mañ-Ord/ eñ
þesse er og soo nærsta Ogylld: Fyrst er þad/ ad slijkt verdur alldrei af
nockrum Ærlegum nie Gudhræddum Mañe misvyrdt/ eñ Doom hiña
Oradvøndu má sirad litlu hafa/ sm̃ ætlar sier Guds Barn ad verda/
hañ má segia med Paale / Þad er mier fyrer miñstu / ad eg af ydur
dæmdur verde/ edur af Mañlegum Dege / DRotteñ er sá sem dæmer
mig/ 1. Cor. 4. Þar ad Auke/ eru svo marger Veger til ad bæta þm̃
er Ranginden̄ lided hafa/ svo ei verde þ Neyrum kuñugt: Og hvern-
eg sm̃ þessu er vared/ þa er betra ad missa Virdingu sijna hier i Tijm-
anum / helldur eñ eilijflega. Þegar DRotteñ rak wt Seliendur og
Kaupendur wr Musterenu i fyrra Siñe/ Joh. 2. Þa giørde hñ Svip-
ur af Streingiū/ er hñ brwkade til þessa Vandlætis: Hñ vantar eñ
nu ecke Svipur til ad reka wt þa er med svoddañ Nætte kaupa og selia
i hñs Kyrkiu medal vor: Þar er Svipa Løgmálsens er seger: Þu
skallt ecke stela/ a heñe er eiñ Hnwtur rideñ med þessū Nætte/ Bølvad-
ur sie sá ed ecke helldr allt þ i Løgmálenu ritad stendur/ Devt. 27.
Þar er ein Svipa sanfvel i Evangelio/ er slær med þessu Nøgge/ giøred
Ydran/ þvi Guds Rijke er nálægt/ hvert þad Trie sem ecke ber goodañ
Avøxt/ skal upphøggvast og i Elld kastast/ Matth. 3. Þar er hin skarpa
Svipa hañs Hegningar/ sem er tilbwen̄ þeim ed eria a Hrigg hins Ve-
sæla og Naudstadda / og eta Ranglætesins Braud i hañs Sveita. Eg
sege eñ þa aptur/ DRotteñ rak wt wr Musterenu þa er selldu ꝛ keyptu:
þad var Stundlegt Vandlæte/ margur af þeim sømu mun sijdañ hafa a
hañ trwad sier til Myskunar/ eñ ad vera wtrekeñ wr þeirre Himneska
Jerusalem/

Jerusalem/ þad er eitt Straff øllu þyngra/þad er eilijf Smaan/og Obætanlegur Skade/ fra hverium oss og alla christna Meñ Vardveite hiñ goode Gud fyrer Sonarens Forþienustu/og giefe oss svo ad rækia þetta Jardneska/ ad vier ecke afrækium þad Himneska/ helldur stundum epter hinu gooda Hlutskiptenu/ sem eingeñ maa af oss taka/ Þess gefe oss Niootande ad verda hiñ Myskunsame Gud/ fyr er JEsum CHristum/ A M E N.

# Ellefta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 18. Cap.

A Þeim Døgum. JEsus sagde til nockra þeirra sm̃ treystu uppa sialfa sig/ lijka sem mundu þeir Riettlaater vera/ og forsmaadu adra/ þessa Epterlijking. Tveir Meñ geingu upp i Mustered ad biðiast fyrer / eirn var Phariseus / eñ añar Tollheimtumadur. Phariseareñ stood og badst nu þañeñ fyr er med sialfum sier. Gud/ eg þacka þier/þad eg em eige so sem ad rer Meñ/ Ræningiar/Orietlotijser/Hoordooms Meñ/eda so sem þesse Tollheimtumadur / eg fasta tvisvar i Viku / og eg gief Tijunder af øllu þvi eg a. Og Tollheimtumadureñ stood laangt i burtu fra/ og villde ecke upplypta sijnum Augum til Himens/ helldur barde hañ sier a Briooft/og sagde: Gud/ vertu mier Syndugum lijknsamur. Sañlega seige eg ydur: Þesse foor Riettlaatur framar hinum i sitt Hws. Þviad hvør sa sem sig sialfañ upphefur/ hñ skal nidurlægiast. Og hvør sem sig sialfañ nidurlæger/ hañ mun upphafeñ verda.

# Exordium.

E Ingeñ Hlutur er svo vidurstyggelegur i Guds Auglite/svo sm̃ dramblaatt Hiarta/ og eingeñ svo fægur honũ/ s o sm̃ audmiwkur Ande. Dramblaatum hratt hañ af Stoole/ eñ upphoof Lijtelaata/ seger Guds Mooder i Lofkvædenu/ Luc: 1. Gude alleina tilheyrer Tigneñ/ hoñ hefur siñ Stool a Himnũ sett

an/ en Jordenn er hans Footskor/ þar situr hann uppe/ og sier a þ Lagga/ J hova er hans Neite/ og sijna Dyrd vill hann eingum gefa/ Esa. 42. Allt hvad vyrduglegt er/ hvad gott er/ hvad agiætt er/ hvad prydelegt er/ hvad heilagt er/ þad kemur allt fra hønum/ enn vilie nockur tileinka sialfum sier nockud af þessu/ svo sem sialfum sier/ þ er/ sem villde hann ræna Gud sijnu/ þ er riett ad stela helgum Doomum/ og þ er Afgudadyrkan/ þvi valla veit eg hvert þ er meire Synd i Guds Auglite/ ad falla fram fyrer Trestobbanum/ helldur enn ad giøra sialfann sig ad Gude / og segia med Pharao: Hvør er Jehova/ þad eg skule Ottast hann? Exod. 5. Edur med hinum blindu Judum: Gude skeitum vier ecke/ og hvad villde oss Konungurenn giøra? Menn hallda sumer/ ad þ hafe vered Svivyrding Foreidslunar/ sem DRottenn talar um/ Matth. 24. Ad Bijlæte hins Romverska Keysara hafe sett vered inn i Jerusalems Mustere/ Enn þ er Svivyrding Foreidslunar rett kølludt/ þegar Madurenn setur sitt eiged Bijlæte inn i Guds Kyrkiu/ sem ætte ad vera hans Hiarta/ eins og Phariseus þesse: Svoddann Mane er Glotunenn bwenn/ nema hann audmyke sig bradlega under vollduga Guds Hønd/ þvi Gud mootstendur Dramblatum/ og þarf sa ecke ad vænta sier annars vetra/ sem hefur Konung Himnanna fyrer Ovin. DRottenn talade Epterlijkingu þessa/ seger Lucas/ til nockurra þeirra/ er treistu a sialfa sig/ enn forsmadu adra : Svo sem eckert er Vidurstyggelegra i Guds Auglite/ enn Hofmoodurenn/ svo er hønum valla nockurt þægra/ enn audmiwkur Ande/ Þad syna oss Dæme Ephraims/ Dæme Manassis/ og ecke sijdst Davids Konungs/ allvijda i hans Psalma Book. Eg jatade DRottne Synd mijna og þa fyrergafstu mier þ/ seger hann/ Ps: 32. Og enn aptur/ DRottenn vardveiter Lijtilmagnana/ eg audmykte mig/ og þa vard eg frelsadur/ Og þ syner oss Dæme Tollheimtumannsins/ hvern Lausnarenn synest framsetia hier i Epterlijkingunne/ ollum Sorg bitnum Afbrota Mønnum til Huggunar. Viliium vier þvi tvent af Gudspiallenu hugleida. 1. Eitt Skynheilagann Hræsnara. 2. Eitt

Eitt ydrande Syndara. Styrk oſſ hier til DRotteñ miñ i JEſu Nafne / Amen.

## Vtleggingeñ

INNgaanguteñ til þeſſa Maals hia Gudſpiallamañenum/ er þañveg. Eñ Nañ TAlade Til NOckurra/ Er TREJſtu Vppa SJaalfa Sig/ Ad þEir VÆru RJEttlaater / Eñ FORſmaadu ADra/ þEſſa EþTerlijking. Aſi alls Efa eru hier med Phariſæi meinter/ þar fyrer ſetur DRotteñ eiñ Phariſæum i Epterlijkinguñe/ ſvo ſem Dæme eins Siaalfbyrgins/ er ei þyrfte nockud af Gude ad þyggia/ þeſſ vegna eru þeir i Grein þeſſare med ſijnum eigeñ Lit afmaalader/ þeir villdu vera fraaſkilder ødrum Møñum/ ꝥ ſyner þeirra Nafn/ Phariſæus/ þad merker Adgreindañ edur Fraaſkileñ. J mørgu vár þetta folged/ ſem ecke er Naudſynlegt hier upp ad telia/ eñ þo vár ꝥ hellſta/ ad þeir þoktuſt ødrũ Heilagre / þad dilur ecke þeſſe þeirra Brooder/ er hañ ſeger: EG þAcka þJer GVd/ Ad Eg Em Ecke EJns Og ADrer MEñ/ þvi køllудu þeir Almwgañ Jardareñar Foolk/ eñ ſiaalfer þocktuſt þeir Himneſker vera/ og Borgarmeñ Heilagra/ ſvo ſm̃ Paulus nefner chriſtna Meñ: Edur hvad var ꝥ þeir ſøgdu i Raadenu Fordum / þegar Nicodemus villde hafa mæltt Frelſaranum Lidsyrde? Joh: 7. Truer nockur af Høfdingiunum a hañ/edur af Phariſæis? Eñ þetta Foolk/ ſem ecke veit Løgmaaled/ þad er bølvad. þeir villdu ecke Samneite eiga med Tollheimtumøñum og Syndurum/ þvi løſtudu þeir Frelſarañ/ad hñ giørde ſvo/ Matth. 9. Jaa/ þeir meintu ad þeir ſaur guduſt/ er ſnertu þa. Svo ſagde Hræſnareñ Simon Fordum/ þegar hin Berſynduga ſat Graatande vid Fætur DRottens/ Luc: 7. Ef þeſſe være Spaamadur/ þa munde hañ vita hver ꝫ hvilijk ad þeſſe være/er hñ ſnerter/ þvi hun er ſyndug. Vm̃ þvilijka Drambſeme/ þvilijka Skynhelge talar Eſajas under ſvoddañ Mañа Perſoonu/ Cap: 65. Kom ecke nærre mier/ og ſnert mig ecke/ þvi eg em þier heilagre. O miñ JEſu/

su/ Er ecke þetta ad giøra sig Gude lijkañ/ nærre hverium eckert saut
ugt mæ koma. Ecke breytter þu svo/ DRottenn miñ/ þegar þu æst z
drackst med Tollheimtumøñū z Syndugū i Hwse Matthæi/ Matth:
9. Þegar þu giørder hañ jafnvel ad þijnum Læresveine/ þegar þu
mællest ad fyrrabragde til Dagverdar aꝑ Zachæo/ þegar aller Toll-
heimtumeñ og Bersynduger ꝑlycktust ad þier / til ad heyra þig/ z þu
mætter lijda Brixl Phariseaña þv ꝑ/ Luc. 15. Þu varst Guds Mind/
sem er eiñ forfærande Elldur/ Devt: 4. Þo hiellstu ꝥ ei ꝑyrer Ran/
ad þu Gude Jaꝑn varst/ helldur Lijtilæckader sialfañ þig / tookst a
þig Þræls Mind/ vordeñ Møñum lijkur/. Philipp: 2. TVeir Meñ
GEINgu Vpp i MVstered Ad BIDiast FYRer / EInn Var
PHARIsæus/ Eñ Añar TOLLheimtumadur. Vier vilium fyrst
hugleida Phariseans Bæn / af þvi hañ þooktest vera Madureñ
meire/ og hvad hañ talde sier til Gylldes ꝑyrer Gude. HAñ STood
Vt Af FYRer Sig: Þess var og øll Von/ ad hañ munde vilia ød-
rum ꝑræsneiddur vera i þssu/ sm øllu ødru. Hverneg badst hñ þa ꝑyr-
er? EG ÞAcka ÞIer GVD/ Ad Eg Em Ecke EIns Og Ad-
rer MEñ. Hvilijkur var hañ þa? Ad vijsu betre mørgum ødrum i
Vtvortis Lijꝑernis Hættum / Eñ hid iñra mørgum verre i Guds
Auglite: Þad saña eg med Ordum Frelsarans/ er hañ sagde:
Matth. 21. Tollheimtumeñ og Skiækiur munu ꝑyrr iñgæanga i
Guds Rijke eñ þier/ þvi Johañes kom til ydar med Veg Riettlætesins/
og þier trwdud hønum ecke / eñ Tollheimtumeñ og Skiækiur trwdu
hønum. Þetta er Dagsaña/ þvi Tollheimtumøñum sagde Johañes/
Luc. 3. Er þeir komu til hañs Skijrnar: Taked eckert framar eñ
þad sem boded er/ Eñ vid Pharisæos sagde hañ: Þier Nødru-Kyn/
hver heꝑur synt ydur ad umꝑlya tilkomande Reide? Fyrer þvi/ Giøred
verduga Avøxtu Ydraneñe/ Matth. 3. Eñ ꝥ giørdu færster aꝑ þeim/
svo var Hug-Þootteñ rijkur i Gede þeirra. Hvad er nu framar? Nñ
segest ecke vera eins og RÆNingiar: Ecke talar Frelsareñ um eiñ/
helldur

Helldur eñ aññan i þessu Maale / helldur er eiñ settur til Dæmes fyrer marga/ svo sem i hverre aññare Epterlijkingu/ Munu þvi aller hafa eitt Osskiled Maal af þessum Flocke. Eñ hvad er þad þa/ sem̃ Frelsarenn seged/ Matth. 23. Ad þeir uppswge Hws Eckna/ og Fodurlausra/ und^r Hilmingu langra Bæna? Er þ ecke hid versta Raan? Hvad er þ hañ aptur seger: Ad hid iñra hiaa þm̃ sie allt fullt af Raane og Ohoofe? Verda maa ad sumer af þm̃ hafe ei vered svo miog seker i þessu / eñ fleer af þeim munu hafa skyrst vid ad segia Naudstoddum Foreldrum/ þ er Corban/edur Gafa sem̃ eg kynne ad hialpa þier med/ Marc. 7. Eins og ad honum/sem eingu vill segia til ef hñ hungrar/ hafe þægare vered Gafa fra/ helldur eñ Hlijdne hans Bodords / ad heidra Fodur ꝛ Moodur. Hañ segest ecke vera eins og ORJETTvijser / þad kañ ad vera / Eñ hversu riettvijser voru þeir / þa er þeir fordæmdu Guds Son aller/ aflijfudu Hertoga Dyrdareñar/ þegar þr grytttu Stephanum i Hel/ Act. 7. Og villdu Paal hafa af Dogum raaded. Ecke segest hñ vera eins og HOORDOMS Meñ. Verda maa ad hañ hafe i Verknadenum saklaus vered/ Eñ mun hañ alldrei hafa lited eina Konu til ad gyrnast hana? Matth. 5. Edur hvad var þad/ ad þeir skomudust sijn/ꝛ geingu i burtu/ þegar DRottenn afleyste Hoorkonuna i Musterenu/og sagde vid þa: Hver ydar sem̃ er aan Syndar / hañ kaste fyrstur Steine a hana / Joh. 8. Þesse Ofloatungur sagdest ecke vera svo sem TOLLheimtumadur HEsse / þad er satt/þvi miklu var hñ verre ad Doome sialfs Guds Sonar/ sem̃ sijdar mun sagt verda. Tollheimtumeñ voru halldner hid versta Foolk medal Gydinga/og ecke munu þeir Raadvander vered hafa/ þvi DRottenn tekur þa samañ vid Heidingia / Eñ alldrei var þm̃ um̃ þad kieñt/ ad þr færu i kringum Land og Sioo / og giørdu eiñ ad Gydinge / eñ sijdañ ad Helvijtis Barne/ ei helldur ad þr bøñudu Møñunum iñ i Himnarijke/ Matth. 23. Nu þoott ad allt þad hefde satt vered/ sem̃ Pharisæus þesse talde til Gylldis sier/ þa var þo eiñ Losturenn/ sem spillte øllu

Koste

Kostunum/ þad var Drambsemeñ og Siælfhælneñ i Guds Auglite/ Svo hafde hun blindad þeña vÿsa Mañ / ad hun hafde giørt hañ ad Ovita / og lÿkañ Sinæbornunum / hver ed plaga ad rÿfa þad i sundur er þm̃ vænst um̃ þyker/ þvi vilium vier nu skoda i hveriu hønũ afatt vered hafe. Hañ þookteſt vera Løgspakur/ treystande þvi ad hañ være Leidtoge Blindra / og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru/ Tiptunar Madur Fafroodra/ Læremeistare Heimskra/ hafande Form Skynsemeñar og Sañleikans i Løgmalenu/ og kiende svo ødrum/ eñ siælfum sier kiende hañ ecke/ þvi hañ vantade þad sem mest a reid i Underdwninge Riettlætingareñar/ sem var ad þeckia Gud z siælfañ sig. Ecke þeckte hañ Gud/ þvi audsært er / ad hañ ætlad hefur/ ad hñ munde anægdur vera med hina wtvortis Helge/ Føstur z Tÿunda giørder / eñ þad þeckte hañ ecke ad Gud rañsakar Hiartad / Ps. 7. Ecke helldur þad hañ hefur allt under Ohlÿdneñe iñeluckt (þad er under Þeckingu Syndareñar) svo ad hñ Myskunade øllum/ Rom. 11. Og ad hñ fiñur iafnvel Brest hia Einglũ sÿnũ/ Iob. 4. Siælfañ sig þeckte hañ ecke/ þvi iafnvel þoott hañ være froodur i Ritninguñe/ þa hafde hañ gleimt þessum Ordskvid Salomons/ er ritadur stendur i 21. Capit. Mañenum þykia sÿner Veger riettcr/ eñ DRotteñ vege ur Hiartad. Edur þess ed David seger: Ad fyrer Gude sie eingeñ Maña riettlatur/ aller sieu þeir afpallner/ þar sie eingeñ sa sm̃ gott giører/ og ecke eiñ/ Rom. 3. Mun þesse Hræsnare hafa þoockst vera undanskileñ þessũ Davids Doome? Hañ var fraskileñ odrũ Møñũ til ad æfa sig i Løgmalsens Skilninge/ og þss Utskÿringu/ Eñ miøg svo vard honum a i þvi / ad hañ hlioop yfer þessar Greiner / og ad rar miklu fletre i Gamla Testamentesins Bookum/ er Sakfella allañ Heimeñ fyrer Gude / Rom. 3. Og þar ad Auke forsmade hañ/ sa/ hñ fordæmde siñ Naunga. EDur Svo Sem þEsse TOLLHEIMTU Madur/ seger Hræsnareñ: Herra Gud/ Hvad munde hiñ gamle Pall hafa sagt/ hefde hañ þetta heyrt / munde hañ ecke hafa

hafa broteſt wt med þeſſum Ordum/ Rom. 2. Meinar þu/ O Madur/ er dæmer þa er þvilijkt giøra/ og giører þ þo/ ad þu muner Guds Doom um̃flya/ i þvi þu añan dæmer/ þa fordæmer þu ſialfañ þig/ Hver ert þu ſem añarlegañ Þioon dæmer/ hañ ſtendur og fellur ſijnu Herra? EG FASTa TWISvar I VIKu/ ſeger Phariſæus þeſſe: Ecke hafde Gud boded þ ad ſøſtu/ Eiñ Foſtudag hafde Gud boded a Aare i Løgmaalenu/ þad var hiñ Tijunde Dagur hins Siøunda Manadar / þo kuña Meñ ecke ad neita þvi / ad þetta var vel giort/ hefde þad framkomed af Trwñe / þvi Faſtañ er Gude kiær/ og ma miked hia hønum / þvi ſagde Frelſareñ: Þetta Dioſla Kyn verdur ecke wtreked/ nema med Føſtu og Bænahallde/ og hia Zachariam/ Cap. 8. Er geted um̃ Føſtu a hinum Fioorda/ a hinum Fimta/ Siøunda og Tijunda Manade/ ſem DRottiñ ſpaer ad ſkule umbreytaſt i Gladværdar Hatijder/ eñ þo bydur hañ þar jafnframt / ad þeir ſkule Sañleikañ og Frideñ elſka/ Þvi ſeger hañ hia Eſajam/ Cap. 58. Hver ad ſie ſw Faſtañ ſm̃ hañ wtvelur/ ſm̃ er/ ad Meñ wthlute hinum Hwngrada Braude ſijnu/ og leide hina Fataæku/ ſem wtreknar eru/ i Hws ſitt/ ad Meñ klæde hiñ Nakta/ þa Meñ ſia hñ/ og byrge ſig ecke fyrer Hollde ſijnu: Eñ hvert ad Phariſæi edur þeirra Lijkar hafa giært þeſſa/ þad ſyner Vitnisburdur Chriſti/ er hañ ſeger/ ad þr wtſiwge Hws Eckna og Fødurlauſra/ Matth. 23. Hañ ſeger: Eg GIEld TIVNDer Af Øllu þVI Eg A/ Ei hafde DRottiñ helldur þetta boded i Løgmaalenu / hañ baud ad gialllda Tijunder af Korne/ Wijne / og Vidſmiøre / af Nautum / Saudum/ og Eplum/ Devt. 12. Eñ ecke af ødru þvi ed Ox i Alldengørdum / þetta var þo i ſialfu ſier vel giort/ ad þr Tijundudu allt hvad þr attu/ hefdu þr ecke viliad reikna til Skulldar hia Gude þar fyrer/ eñ þegar fara a betur eñ vel/ þa fer verr eñ illa/ ſeger Malltæked/ þvi ſeger Frelſareñ/ Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdu og Phariſæis/ þier Hræſnarar/ ſem Tijunded Mintu/ Anis og Cumen / eñ undañfelled þ ſem

þyngra er i Løgmaalenu/ Trwna/ Doomeñ og Myskunsemena/ þetta byriar ad giora/ eñ hitt ecke epter ad skilia/ Vagte þeir sig/ hverra Gudhrædsla ad er alleina þat i foolgeñ/ ad ganga i Kyrkiu / ad tala margt uñ Gud/og hañs Ord/og christelegar Dygder/eñ under Skyne þssu fremia þeir a moote Samvitskuñe og Ydranarlaust marga þa Rüte/ sñ Gud bañad hefur. Eñ lærū nu af þessū Sialfbyrging/ christner Meñ/ ad þegar vier giørum vort Ydrunar Verk/ þa berum oss ecke samañ vid adra/ sem oss verre þykia/ epter vorum Doome/ þvi hver eiñ mun siña Byrde bera/seger Postuleñ: Munu nockud añars Glæper þvo miña af/edur Ranglæte hñs rietlæta mig/ þoott eg ecke være svo morgum Lytum hladeñ? fiærre sie þvi / og allra sijdst ef eg forsmæe hañ hiaa mier / þvi Mættugur er Gud ad reisa hañ/ þad er eins og ad skoda sig i Ohreinum Speigle/ad vilia sia Mind siña Alhafna i añara Giørdum/ Guds Ord og hñs Løgmaal eru sw Skugg sia/er vier eigum ad skoda oss i/ þad er Lioos a vorū Vegū/og Lampe Foota vorra. Þess er og ad giæta/ Born miñ/ad ef þesse Madur var fordæmdur vegna þess/ ad hañ hroosade sier af Goodverkū siñū/ hvad mun þa uñ hina verda/sem hroosa sier af Klækiunum/og þyker vænt uñ þa/ Ef hiñ Rietlaate verdur naumast Saluhoolpeñ / hvar mun þa hiñ Ogudlege og Syndareñ byrtast/ seger Petur/ 1. Pet. 4. Þar eru ecke marger / sem geta stært sig af miklum Fostum / og Bindinde/ hiner eru fleire / sem gledia sig i Ofaate og Ofdryckiu siñe / edur ad miñsta Koste þyker þad lijtel Synd vera/ jafnvel þoott Paulus sege/ ad þeir ed slijkt adhafast erfe ecke Guds Rijke/ 1. Cor. 6. Ecke ætla eg Meñ þurfe ad hroosa sier miøg af Tijundargiørdum i Lande voru/ langtum helldur er þad førullt sumum Moñum / ad svijkia Gud og hañs Volada/og Konungeñ/svo vel sem Guds og hañs Þienara/med mangre Tijund / og þykest sa goodu bættur / sem hvad mestu getur undañskoted / jafnvel þoott valla sie meire Bølvan vid nockra Synd løgd i Guds Løgmaale/ eñ vid þessa/ eg vil ei fa mier til Orda hvad

margur

margur Dære ad hroosat sier af þvi/ ad hann hafe Feflett annan/edur
unned Sigur æ honum med raungum Doome/ Laga-Flækium og folskum
Riettargange / þvilijker Snæpar eru fleire enn telia mege / um hveria
David syneſt talad hafa/ er hann seger/ Ps. 52. Hvad ſtærer þu þig
af Illsku þinne/ sem Megtugur ert i Ranglætenu. Ei vil eg helldur
margt tala um þa Gærunga/ er ſtæra sig af Lauslæte sijnu/ þad er/
hroosa Synd sinne eins og Sodoma/ Es. 3. og jafnvel liwga æ sig
Skømmunn til ad vanvirda adra/ hafe Phariseinn giort øll sijn Good-
Verk Ogylld med Hrooſenu/ þa vite þeſſer Gudlausu Menn/ad þeirra
Fordæming er vijs/ nema þeir ydreſt af Hiarta/ og ad Ydranenn verde
þeim svo heiſk/sem ædur var þeim Syndenn ſkemteleg. Þykeſt nu nock-
ur vera sekur i þeſſu/ og vill þad Opgiort hafa/ hann lære sannann Veg
Ydranarennar af Tollheimtumanninum/ z gange hann/ ef hann vill hoolp-
enn verda / og vil eg svo nockud þar um tala i hinne ſijdare Greinenne.

Þeſſe Tollheimtumadur gieck i Muſtered/ svo sem Textenn vottar/
ecke fyrer Sida Saker / ecke til ad læta ſkoda sig edur ſkoda adra/ nie
ad syna þar Fordilld sijna i Klædaburde/ svo sem kann ſke nockrer giora
medal vor/Ecke er þad alltijd Gude edur Helgenne til Vyrdingar giort/
ad Menn bwa sig hvad meſt i Skart a þeim Døgum/ edur til ad minna
oſs a þad / ad vier eigum ad klædaſt einum nyium Mane. Hvert var
hanns Eyrende þa? TIl Ad BIDiaſt FYRer/seger Textenn: Ecke
eins og Phariseinn/til ad hroosa sier i Bænenne/ þad syna oſs Ord hans
og Atvik/ sem hier uppteiknud ſtanda: Hann hefur adgiætt Løgmæls
Tøblurnar / sem hiengu i Muſterenu/ z yfervegad þar ødruvijſe enn
Skriftlærder og Pharisæi/ sem hiengu i Bookſtafnum/ og løgdu han
wt epter eigenn Þoofta sijnum/ þar fyrer Onyttu þeir Løgmæled fyrer
Setninga sijna/ svo sem DRottenn seger: Spamennerner voru lesner
hvern Sabbatsdag i Muſterenu/ svo sem Paulus vottar/er hann flutte
Guds Eyrende til þeirra i Antiochia/ Act. 13. Þar hefur hann mætt
heyra Vtſkijringu Løgmælſens ad miklu Leite / og er hann þar fyrer

 herlega

berlega sied heþur/ ad Gud fordæmer Okur/ Ræanginde/ Underþerle/ Raungsleitne/ Gripdeillder/ Hardydge og Mýskunarleyse/ og hn visse sig i ollu þessu sekan / þa heþur honum Opbodeð Stærd Syndanna/ og Guds Heiptar Reide/ ja / honum heþur Ognad hvad morg volud Sæal ad munde hroopa i Himenen yfer sier / og Ottast ad Þra Hroop munde inngeinged vera i Eyru DRottens Zebaoth/þesse þwnga Byrde heþur a hans Hiarta leged/sem er Brunnur allrar Illsku og Ogudlegs Athæþes/ Matth: 15. Þvi ber han sier a Brioost/ svo sem villde han þad straffad haþa/ sem mest haþde tilunned/og mest klagade synar eigen Bondsku/med Slogum og Bite Samvitskunnar/Illa var vared þessum Besælinge i sialþum sier / En Gud giæþe ad vier sem betre þyk-iumst/ad vier/ sege eg/ geingium med sama Hiartalage i Guds Hws/ og sætum under hans Orda Heyrn eins og han/ þa mundum vier ecke svo kallder vera i voru Ydrunar Verke / svo sem berlega ma sia ad margur er. HAnn STood LAngt FRa / seger Textenn: an Efa þess vegna/ ad han heþur reiknad sig verre en adra Menn/ og Overd-ugan ad koma nærre þessum heilaga Phariseo/han heþur skolþed aþ Kvijda vid Guds Reide/ er han hugleidde sinn Overdugleik / og hans Logmals straungu Hootaner/ Ecke sijdur enn Israel þegar ad dun-ade i Horeb/ nær hid sama Logmal var wtgeþed / Exod. 19. Hvad giora þeir þa/sem jafnvel i Guds Hwse keppast epter hinum fremstu Sætum/og wtvelia sier þau/en þoott ei rijde svo miog a þessu wtvortis Hattalage / þa giætum þess / ad i Kyrkiunne byrtumst aller vier fyrer Guds Auglite / þar er sa mestur Madurenn/ sem minnstur er i sijnum Þanka/sa er best bwenn/sem sundur-rijþur Hiarta sitt med Tollheimtu Mannenum/ Enn eingenn er svo heilagur/ad ecke skilie hns Synder mille Guds og hans/ eþ han vill þær tilreikna/og hversu eigum vier þa ad audmykia oss under Vollduga Guds Hond / nær vier inngaunguu i hans Helgedoom / til ad Fridmælast vid hans Guddoomlegu Hatign/fyrer hverre oll Verolldenn leikur a Reideskialþe/en vier erum Dupt z Aska/

og

og hvad meira er / allet svo sem hiñ Ohreine / og jafnvel Kietilæte vort svo sem nidlags Fat/ svo ad allt Hollded er siukt/ allt Hofuded veikt/ fra Hvirfle/ og allt til Ilia / er þar ecke nema Saar / Kaun/ Beniar z Prote/ Og þssa vora Siukdomá hefur Guds Sonur bored/ þessum Orkumslum hefur hañ a sig hladed / svo ad vier fyrer hañs Beniar heilbrigder yrdum / Esa. 53. Eñ vier hofum læted oss þad lijted til Hiarta gänga / Ecke hafa þeir Naglarner er i giegnum groofu hañs Hendur og Fætur / Ecke hafa þeir eñ nu til Fulls Krossfest hiñ gamla Adam i oss/ og ecke sw Lensañ/ er opnade hañs Sijdu / vid Hiarta vort svo miøg snorted/ ad vier hofum læted Porteñ vijd opeñ þ Konunge Dyrdareñar/ þegar sa Drottnareñ hefur vitiad sijns Musteris/ miklu helldur hefur opllega vid þvi leged/ ad vier mundum Hertoga Dyrdareñar ad nyiu Krossfesta. Æ miñ Gud/ Æ miñ Frelsare/ Hver af oss er þa svo Heilagur/ svo Fullnoogur sialfum sier/ad ei skyllde hañ beria sier a Briooſt med Tollheimtu Mañe þessum/ og segia : GUD VERtu MJer SYNDugum LIKNsamur/ og med hinū tapada Syne/ Fader/ Eg hefe syndgaſt i Himiniñ og fyrer þier. Nu/ þoott ad Vesælingur þesse være svo lijtt staddur/ þa orvænter hañ ecke: Ei grijpur hñ til Knijfsens/ eins og Saul til Sverdsens/ Ecke til Snoruñar med Juda/ og ecke ofbiooda honū svo miøg Syndernar/ ad hñ orvænte sier Guds Myskunar: Ad vijsu skamadest hñ sijn ad lijta Augū sijnū til Himens/ þvi hñ hafde styggt þañ svo Mootþrooanlega/ sm̄ i Himnenum byr/ eñ þo rædur hñ þ af/ad leita Lijknar hia honū/ af hvers Giæsku ad oll Jordeñ full er/ og meinar sig vesælañ Orm ecke frædkileñ vera eins og Phariseiñ odrum Moñū. Gior hid sama/ Barn mitt/ nær þier med David ofbiooda Synder þijnar/ svo þu hefur ecke Frid i Beinum þijnum fyrer þm̄/ þa vil þo þad og treyst þvi/ ad Syndeñ kañ alldrei ad vera svo stoor i Jllskuñe/ ad Gud sie ei meire i Giæskuñe/ þad vottar Johañes/er hñ seger/1.Joh.3. Ef vort Hiarta fordæmer oss/þa er þo Gud

meire Hiarta voru/ z Paulus hefur oss epterlæted eina dyrmæta Hugg un/ dyrmætare en̄ Verølldeṅ er/ þar hn̄ seger/ Rom. 5. Hvar sem ad Synden̄ yfergnæfer / þar yfergnæfer þo Nøden̄ miklu framar. Christur er Forlykun fyrer allar Veralldaren̄ar Synder/ þvi mun hn̄ ecke og svo vera fyrer þijnar/ nema þu sert fyrer utan̄ Verølldena? J hønum hefur Faderen̄ alleina Velþoocknan. Ef Paulus þorde ad segia vid Philemonem um̄ Onesimum/ hafe han̄ þier nockurn Skada giørt/ edur sie þier skylldugur/ þa reikna mier þ til/ Eg Pall hefe skrifad þad med min̄e Hende/ eg skal betala. Hvad miklu meire Rett hefur Guds Sonur til ad tala þan̄ig oss til Fridar vid sin̄ himneska Fødur/ Jæ/ vid sialfan̄ sig/ ad hønum skule tilreiknast sæ Skaden̄/ sm̄ vier høfū giørt: Sæ Skullden̄ er vier lwka ættū/ þu min̄ Herra/ þu hefur neglt þa Handskriftena a Krossen̄/ sem moote oss var/ Col. 2. Hver vill þa æklaga Guds Utvalda / þu ert sæ sm̄ dæmer ert/ Rom. 8. Þu hefur eina Kvittan gefed i Umbode allrar Guddoomsins Þren̄ingar/ er svo hlioodar: Hver sem truer a Sonen̄/ han̄ kemur ecke til Doomsins/ Joh. 3. Jæ/ sendt oss eitt Afløt med Þienara þijnū Paulo/ skrifad med Guds Fijngre/ sem er heilagur Ande / ad eingen̄ Fordæming sie hiæ þm̄/ sem eru i Christo JEsu/ Rom. 8. Þu hefur betalad þad þu rænter ecke/ Ps. 69. Þvi skyllde þa ein̄ Rænsmadur kosta fyrer þeim Betaling/ sem þu hefur lofed? Þvi mun eg þa mistreysta Gude? Er han̄ ecke Trufastur? Kun̄a hn̄s Ord ad forganga/ þoott Himen og Jørd forgange? Hønum sie Dyrd og Heidur um̄ Allder/ Amen. Nu hafed þier heyrt af Tollheimtumanenum hin̄ rietta Veg Apturhvarfsins fræ Vondskun̄e/ hver sem han̄ geingur/ sæ mun med hønū Rettlætur verda. EG SEge YDur/ Ad Þesse FOOR REttlætur FRamar HJNum i Sitt Hws / seger Frelsaren̄ i Textanum: Hver Ord ecke þan̄veg skiliast eiga/ svo sem ad Phariseein̄ hafe ad sønu Rettlætur heim aptur fared / en̄ Tollheimtumaduren̄ þo Rettlætare/ helldur var sæ Munur Rettlætesins/

ad

ad Phariſæus þeſſe var Rettlætur i ſynu Þanka/ og fyrer Mønnunum/ um hvert Rettlæte DRottenn ſeger/ Matth. 5. Nema ydar Rettlæte yfergnæfe meir enn hinna Skriptlærdu og Phariſæanna/ þa kunned þier ecke inn ad ganga i Guds Ryke: Enn Tollheimtumadurenn/ ſem jatade Synder ſynar/ og afneitade ſynum Verdugleik/ enn beidde um Myſkun/ hann vard Rettlætur fyrer Gude/ med þvi Rettlæte/ ſem Paulus ſeger/ ad ſie af Trunne/ og þvi var hann framar Rettlætur/ ad hann hafde þad Rettlæte/ ſem fyrer Gude gyllde/ enn hinn fyrer Mønnunum.

HEim APTur i SJtt Hws ſtendur i Textanum: Nockrer meinaſt ad hann hafe yfergefed Tollheimtuna/ þar hann foor ecke til Tollbwdarennar/ helldur heim i ſitt Hws/ Enn ecke er þad viſſt/ ad hann hafe læted Syſlan ſyna/ þeſſ var og ecke þørf/ þvi hun var Rettviſs i ſialfre ſier/ ef þad er Rettviſſt fyrer Yfervallded ad taka Skatta z Tolla/ ſvo ſem þad i allann Mata rett er/ þvi Paulus ſeger/ Rom. 13. Giallded øllum hvad þier ſkyllduger erud/ þeim Toll er Tollur heyrer/ þa er þad ecke Orettviſſt fyrer Þienara þeirra ad ſafna Tekiunum: Ecke bannade helldur Johannes þeſſu Mønnum Tollheimtuna/ alleina/ ad ei ſkylldu þeir taka meir enn boded være/ Luc. 3. Giøre þeir þeſſ/ er ſlykt Starf a Hende hafa/ þvi hvad ſem þar er framm yfer/ þad er af hinum Bonda. Enn hvernig ſem þeſſu er vared/ þa er þad viſſt/ ad Kvittun Syndanna Einuſinne feingenn/ hun er Onyt/ nema Syndarenn læte af Illu/ z lære Gott ad giøra/ z hier til heyrer þ/ ad bæta þad Orett var giørt/ ef bæta ma: Hvar um eg hefe nockud talad i tveimur næſt þ farande Predikunum/ enn minneſt enn nu a þ hier i þridia ſinn/ af þvi/ ad ſvo miked liggur a þeſſum Hlut/ þvi ſie þ ecke giørt/ þa er Ydranenn alldeilis Onyt. Þad er ei noog/ ad ſtynga a einu Meine/ nema hinn vonde Veſſe/ ſem i þvi er ſamanndregenn/ hann verde wtdregenn/ ſvo er þad ei helldur noog/ ad Mønnum Svijde einuſinne af Brodde Løgmalſens/ nema þvi illa ſie fra ſier kaſtad/ drecke nockur Eitur inn/ þa er hønum einſætt ad æla þvi upp aptur/ enn eingenn Olifian er ſvo banvæn Kroppnum/ ſvo ſem

rang-

[illegible] Munet Samlune/ þvi er þad Omissande/ ad skilia sig af med þa/ædur eñ þeir sælga heñe i Daudanum/ þegar Meñ [illegible] po vid þa skilia/ og þeir vid oss hvert sem er/ eñ eingeñ veit nær hañ ber ad Dyrum/ og hvad hefur þu þa þess Madur/ er þu hefur med Ahyggiu & Orietke safnad. DRottèñ miñ/ keñ þu oss ad Nuta þ vier hlioótum ad deya/ lát oss ecke deya med Mamona/ helldur med vorn Frelsara i Hiartanu/ gef oss ad hafa Fesiood a Himnenum safnad/ fromar eñ i Heimenum/ svo þegar hin Forgeingelega Tialldbwd vors Lykama i sundurgliónar / ad vier þa høfum svo fyrer oss giørt i Tým-
anū/ ad þeir medtake oss i eilyfar Tialldbwder/ Bænheyr þad
DRottèñ miñ og Gud miñ/ fyrer JEsu skaru Kvol
og Blessadar Under/ AMEN.

# Tolfta Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled / Marc. 7. Cap.

OG þa JEsus gieck i burt aptur wr Landsælfum Tyri og Sidonis/ kom hañ til Siæfarens i Galilæa/ i midiar Bygder þeirra Tíju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs þañ Mañ/ sem Daufur og Málhalltur var/ og bædu ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hñ veik hønum afsydis fra Foolk-enu / liet sijna Fingur i hañs Eyru / hrækte wt / og æhrærde hañs Tungu/ leit upp til Himens/ andvarpade & sagde til hañs: Hephatha/ þad er/ opna þig. Og jafnsnart upplukust hñs Eyru/ þa uppleyst-est og eirneñ Fiøtur hañs Tungu/ so ad hañ talade riett. Og hañ skipade ad þeir segdu þad eige neinum / Eñ þvi meir sem hañ fyrer-baud þeim þad / þess meir þa vijdfrægdu þeir þad wt / og þa stórlfa undrade þetta næsta miøg/ seigiande: Allt giørde hñ vel/ þviad Daufa lætur hañ heyra/ og Mállausa tala.

## Exordium.

MARGT er vid Morgu/ seger i fornkvednum Ordsqvætte/ hefst ad DRotteñ hafe straffad Syndena epter Falled med ad[illegible]
legum

legum Siwkdomum/ til ad aga vort giælgba Hollð/ þa hepur þo hũs Giæska lagt þa Lykn med Þraut þessare/ ad Nætturañ er rijk aþ þm Nlutum/ sem bætt geta Mein Maña/ þegar þar med er skynsamlega høndlad/ þvi seger Syrach/ Cap. 38. Ad hiñ Hærste haþe framleidt Læknisdomeñ aþ Jørduñe / og um Læknereñ seger hañ i sama Capitula: Heidra þu Læknarañ fyrer Naudþurþtareñar Saker/ þvi DRott eñ er hañs Nøþundur/ þvi aller Læknesdomar koma aþ hinũ Hærsta. Nu misþellur þo þetta a stundum/ þvi jaþnvel þoott Læknereñ kuñe margt og mikeð ad giøra/og hañs Verk sie gott/ þa er þo ecke Heilsa nie Vanheilinde/ Lijþ edur Daude i hañs Hende/ helldur Guds/sem er allra Meina Grædare/ og sa DRotteñ DRotteñ/ sem fra Dauðñ frelsar. Eñ Guds Sonur / a sijnum Hollds-Vistar Døgum/ hañ Auglyste þad øllum Heime/ad hañ sañur Gud være/ med þvi ad hañ læknade allrahanda Mein z Krankleika/ecke med Nætturuñar Medølum/þvi hñ var Nætturuñar Herra/ helldur med einu Orde a stundum. Kona/ mikel er þijn Trwa/ sagde hañ vid hina Canaanisku: Verd Hughraust mijn Dootter/ þier eru þijnar Synder fyrergeþnar/ vid hina Bloodþallsiwku: Far þu / Sonur þiñ liþer / vid Konungs Mañeñ: Verde þier epter Trw þiñe / vid Hundrads Høþdingiañ: Eg vil/verdu hreiñ/ vid hiñ Lijkþraa: Fared og syned ydur Keñemøñ unum/ vid þa Tiju: Og er þesse Dæme nærsta mørg ad lesa i Gudspialls Søgunum. A Stundum brwkade hñ nockurskonar Ceremoniur til ad lækna hina Siwku/ svo sem hier i Gudspiallenu verdur fra sagt/hveriar þo ecke munu forgeþens uppteiknadar/þvi allt hvad skriþ ad er/ þad er skriþad oss til Lærdooms/ Rom. 15. Helldur til ad þijda þær uppa vor Andleg Vanheilende/ og þeirra Lækningu: Eñ nu vil eg i þetta Siñ Einungis Hugleida þeña auma Mañ / og svo vort Hættalag i Andlegum Eþnum / sem ecke erum betur æ oss komner ad þvi Leite/ helldur eñ hñ/marg̃ hver. Send oss þijna Nææd z Adstod til þijsa Eyrendes/ vor Gud/ þ̃ Lausnarans Forþienustu/ Amen.

# Utleggingeñ.

OG ÞEir LEIddu Til HAñs ÞAñ MAñ Sem DAUF- ur Og MAALhalltur VAr. Þesse Mañeskia hefur þwng- lega hålldeñ vered. Þegar David wtmælar Mootgæng siñ/ þa segest hañ heyra sijna Mootstødu Meñ / svo sem Daufur/ og svo sem eiñ Mælleysingur ecke upplwka Muñe sijnum/ Ps. 38. Eins og hefde hñ valla nockurn lakare Kost vid ad jafna/ Illa er hinũ Daufa fared i mørgum Hlutum/ Eiñ Daufinge er nærre þvi eins i Verølld eñe / og wtlægur Madur i framande Lande / hvar hañ einkis Mæl skilur / hañ hefur eckert Gagn edur Skemtun af þvi ed adrer tala/ Varer þeirra sier hañ bærast ad Söñu/ eñ þad ma vera stoor Hug- Raun ad sia þad/ eñ hafa þess þo eingeñ Not sem Gud hefur giørt til ad vidhallda Selskap Mañaña i Heimenum / gænge nockud ad honum/ þa getur eingeñ huggad hañ / eñ þo tekur þad yfer / ad þeir ei geta Guds Ord heyrt til Sæluhiælpar sier/ þvi fyrer Heyrn Guds Orda kem: Trweñ seger Postuleñ/ eñ an heñar er Omøgulegt Gude ad þocknast/ Heb. 11. Og Hversu er honũ þa illa vared fyrer Mañ- aña Sioonum/ er hefur Brest a þessu Skilningar Vite. Nu eru þr þo med tveñu Moote er þeña Skort mega lijda: Sumum fellur þad til nær þeir komner eru til Vits og Aara / þeir mega þess Not hafa ad søñu / er þeir numdu a medañ þeir høfdu Hluster heilar / bæde i Daglegre Umgeingne/ og hvad mest ærtĳdur i Verke Sæluhiælpar siñar/ og satt er þad/ ad ei glepur fyrer þeim Bulldran Heimsens/ þr hafa valla ad skemta sier nema vid Gud siñ / ef þeir eru Lundlægner þar a/og bera siñ Harm i Hioode/ Og Reyndar þa er betra Daufur ad vera/ eñ ad heyra margañ þañ Oþarfa / sem taladur er i Heim- enum/sierdeilis skamarleg Ord og fiþlslegt Hial/ sem christnum soom- er ecke. Adrer eru þeir ed Daufer eru borner / þvi þar a epter fylger Mælleysed/hverneg kañ sa ad nema Maña Mæl/sem ei getur heyrt a Tal þeirra/ og hafa Meñ þess Dæme nockur hia oss / þad ma og

marka

marka ad þesse aume Madur sem hier talar um̄ i Gudspiallenu/ han̄ hefur æn Efa heyrt einhvern Tijma/ þvi jafnvel þoott han̄ Mæl-hallfur være / þa hefur han̄ þo nockud talad: þessarra Kostur syneſt mikl̄u þyngre ad vera / en̄ hiña i fliootu Alite / þvi sæ sem Daufur er en̄ hefur þo Mæled / han̄ getur sagt til þess er han̄ vardar um̄ / og lofad Gud med Tungun̄e/hafe han̄ nockud af Guds Orde numed/en̄ hiñ ecke/ þo er þad hier aftur ad segia/ ad eingañ langar til þess sm̄ han̄ þecker ecke/ svo kan̄ og ei helldur þm̄ ad leingiast svo miøg epter ad heyra æ Tal Mañа/sm̄ þad alldrei heyrt hefur. En̄ hvad Sæl areñar Efnu̅ vidvijkur/þa hygg eg ad eingeñ kuñe ad fordæma þssa Guds Vesælinga/sæ/ kan̄ vera ad þeir fleu miklu nær Guds Rijke en̄ hiner sem eingañ Breſt hafa a Skilningar Vitunum/en̄ bruka þau Fiandanum til þioonuſtu/ og Nauungan̄ til Ogagns/Gud er Riett-latur/ og þo under eins Myſkunſamur/þad er ecke lijkt honum/Fød-ur Giæskuñar / ad han̄ mune heimta Reikningskap af þvi Punde/ er han̄ ecke feck einum i Hendur/og hver vill efast um̄ Mætt hañs edur Vijsdoom/ hn̄ sem gat læted Johañem fagna Tilkomu siñe i Mood-ur Lijfe/ Luc. 1. Mun hn̄ og ecke geta verkad undarlega Hlute i þess Hættar Mañeskium/ satt er þad / ad æn Truareñar er Omøgulegt Gude ad þocknaſt / Heb. 11. En̄ han̄ sem getur innplantad Truna i Niørtum Smæbarnaña/ mun han̄ ecke med Orañſakanlegum Hætte geta tilbued hana i þessara Niørtum? þad sem ecke er af Trun̄e þad er Synd/ En̄ af Muñe Smæbarnaña og Briooſtmylkingaña hefur han̄ sier Lofed tilreidt/ þvi mun han̄ og ecke geta opnad Skilning þss-ara Skepna siña / svo þær þeckie han̄ til Myſkunar sier? Er nockurt Ord fyrer honum Omættugt/Luc. 1. Kan̄ hn̄ ecke alla Hlute framar ad giøra/ en̄ vier kuñum ad hugsa edur mæla? Eg vil hier um̄ segia/ þad sem Christur sagde vid Læresveinana / er þeir søgdu: Hver mun þa hoolpen̄ verda? þad sm̄ Omøgulegt er fyrer Møñum/þad er møgu-legt fyrer Gude/Matth. 19. Nu Søkum þess/ ad fyrer hiñu̅ Daufa

verdur ecke talad/Gud verdur sialpur fyrer hønum ad Predika i hañs Hiarta/ og er eingeñ slijkur/ þa tala eg þetta til Huggunar þeim sem angrast þar af/ ad Børn þeirra edur kiærustu Naungar hafa slijkañ Brest/ og efast kañ ske um Velferd þeirra / og þar ad auke leida sier i Hug/ ad þta kome fram vid þa vegna Synda siña. Til hins fyrra heffe eg ad nockru Leite Allareidu svarad/ eñ þo vil eg þessu vidauka sem epterfylger. Gud hefur skapad Afkvæme þitt i Moodur Lijfe/ Job. 10. edur þijns Naunga / Hver hefur Mañenum Muñeñ gefed? Hver hefur giort hiñ Mallausa edur Daufa? Edur hiñ Siaande / edur Blinda? Hefe eg þad ecke sialfur giort? seger DRotteñ vid Moysen/ Exod. 4. Og fyrst hñ hefur þetta sialfur giort/ Mun þa ecke hañ / sem vill ad aller Meñ verde Saluhoolpner / mun hañ ecke sia þeim Farborda til Himnarijkis / sem ecke hafa Skulld i þvi/ ad þeir geta ecke Guds Ord heyrt? HAñ SEm GIOrde ALLT Vel/ Þvi DAufa LJet HAñ HEyra Og MALLausa TAla / A Døgum Holldsvistar siñar / mun hønum vera afturfared sijdañ hañ setstur er til Kraptarens hægre Handar/hañ er uppfareñ i Hæderñar/ og hefur Mønum Gaafur gefed/ Eph. 4. Mun hañ þa ecke gefed geta Barne þijnu Heyrn og Maal / nema ad hañ giæfe Salu þess Heyrn/ og giørde þad vel talande fyrer sialfum sier / med þvi Moote sem ecke skilur þu/ eda nockur añar? Barn þitt er i Skijrneñe iñtekid i Guds Sattmaala/ Hver sem trwer og verdur skijrdur/ hñ skal hoolpeñ verda/seger Christur. Hier stendur/ Hver sem trwer/ eñ ecke hver sem heyrer og talar / mun hañ þa kalla afbrugded Sattmaalanum fyrer þessa Orsøk / er Vesælingeñ sialfur giørde / og getur þo Trwna i hønum verkad/Gud laate oss alldrei meir afbregda/sem Maal z Heyrn høfum. Seg þvi med David / Eg vil þegia og Muñe mijnum ecke uppliwka/af þvi þu giørder þad/ og hallt Barn þitt ad vera eiñ Lim a Christi Lijkama / Mustere H. Anda / og Erfingia Himnarijkis / ef eckert añad i Vege stendur / eñ þesse Brestur / sem Skap-

areñ

aren alleina og eingen annar læknad getur: Enn hvad þvi vidvíkur / ad margur freistast af/ ad Vanheilende Barnanna Orsak, est af Syndum Forelldranna / þá verdur þvi ad sönnu ecke neitad / ad allt Mootlæte er Verdlaun Syndarennar / svo sem Daud enn er/ svo er og allur sa Her/ sem under hann þioonar/ enn þad heiter ecke svo Strapp/ svo sem Reynsla hia Guds Börnum/ hverre Jacob Postule skipar oss ad taka þegens Hende/ Jac. 1. Þvi Orsakast þetta ecke af þvi/ ad Forelldrar þessarra Vesælinga sieu verre i Guds Auglite enn adrer Menn/ þar fyrer svarade Endurlausnarenn fordum Lærisveinunum/ er þeir frettu hann ad/ hvert þesse hefde syndgad edur hans Fader: Hverke syndgade þesse nie Fader hans/ sagde hann: helldur svo/ ad Guds Dyrd yrde opennber/ Joh. 9. og vidlijkt skedur i þessu: Gud setur oss þesse Dæme fyrer Siooner/ oss sem hann gefed hefur heilbrygda Sal i heilum Lijkama/ til ad syna oss hvada Vallo hann hafe yfer Manneskiunne/ til þess/ ad þacka sier og lofa sig þar fyrer/ ad oss z vorum Börnum og Naungum er betur vared i Lijkamans Nattalage / til ad minna oss þar a/ ad ei brwkum vier Skilningu vora til þeirra Hluta/ sem Gude til Styggdar eru/ miklu helldur til Vegsemdar hönum/ z Naunganum til Þarfa. Enn Gud nade/ ad wt af þessu ber nærstamiøg a stundum/ z þad er nu hin andlega Deyfa/ sem er miklu hættare/ miklu Skadsamlegre/ og þo miklu Almennare/ enn sw sem a Lijkamanum er/ yfer hverre ad David klagar/ er hann seger/ Ps. 58. ad þeir tilbyrge Eyru sijn/ eins og Höggormurenn fyrer Raustu Særinga Mannsins: Marg falllt er þetta Heyrnarleyse/ og i mørgu foolged/ enn Rooten til alls er þad/ ad Menn Dauf heyrast vid Guds Orde/ svo þad fær ecke Rwm i þeim/ helldur enn Tal Christi i Phariseis. Aller Menn lasta þa fyrer þetta/ sem verdt er: Enn þoott ad einge Madur talad hafe/ edur enn nu tale svo sem hann/ jafnvel ad Vitne þeirra/ sem voru Vtsendarar hans Fiandmanna/ þa eru þad þo Guds Ord/ er hans Þienarar tala i hans Vmbode/ nær þeir byggia Mal sitt a Ordum hans Spamanna z Postula/

yfer hvetra Grundvøll/ad hns Christne er byggd/pvi svo seg' Drott' en vid Jeremjam/Cap. 1. Eg hefe lagt myn Ord i pin Mun/ z vid Esajam/Cap. 59. Min Ande sm i pier er/ og myn Ord/er eg hefe sett i pin Mun/ pau skulu ecke wr pynu mune vykia. Nu poott ad ecke sie Andans Gafa svo ryk him oss/ sem hun var him Spamonn unu z Postulunu/ pa eru p po Guds Ord/sm hns Pienarar tala/nær p er af peirra Toga rett spuned/z pr tala eckert an Ritningarenar: Guds Ord elldest ecke/ p blyfur Eilyflega/ seger Esajas/Cap. 40. Pvi er p eins gott i Mune hins vesælasta JEsu Christi Pienara / nær pad er hns Ord/ svo sm i Mune Peturs edur Pals / pvi vil eg hier um segia p hid sama/ sem Paulus sagde vid pa i Tessalonica/ ad peir hafe medteked p Guds Ord/ er peir heyrdu af hønum / ecke svo sm Ord Manana/hielldur svo sm p var/eins z Guds Ord/1.Tess. 2. En ef pad Guds er/ hvern forsmæed pier pa/ pier hiner daufu Veralldar Syner/nær pier p ecke heyra vilied af hns Pienara Mune/ nie læta undervysa ydur og Børnu ydar i Christenddoomenu/ecke læta straffa ydar Synder/ og ecke lifa epter pvi / er ydur af Guds Alfu boded verdur. Hvern forsmæed pier pa/ sege eg/ Gud edur Menena? Seger hn ecke/Luc. 10. Hver hn forsmæer ydur/ hn forsmæer mig/ Hver hn heyrer ydur/hn heyrer mier? Svoddan er rett skelfelegt Heyrn arleyse. Munu pesse Frelsarans Ord nа alleinasta til Postulana/edur pra er lifdu a pm Døgum/ og ecke til vor/ sem nu lifum? Mun han ecke hafa lofad ad vera him oss / allt til Veralldarenar Enda? Matth. 28. Hverneg er hn pa him oss? Med synu H. Anda i Ordenu og Sacramentunum. Nu/ ef Men vilia nioota Nalægdar hns/ pvi læta Men pa svo tregt vid ad heyra hns Ord? J Ordenu talar Gud vid oss/ vid hn tølu vier i Bænu vorum/en sa sem ecke vill heyra han Talanda/ pan vill hn ecke heyra Bidianda / pvi hver sem forsmæer mig/ pan vil eg forsmа/seger han/1. Sam. 2. Eg em gladur af pvi/ seger David/ ad til myn verdur sagt: Vier skulum ganga i

Hws

Nws DRottens/Ps.122. Þetta sagde hn̄/sem i Ritninguñe er nefnd ur Madur epter Guds Hiarta. Eñ margur Gorungur/margur Sælkiere/ margur Fepwke/ sm̄ er Madur epter sijnu Hiarta/ hañ verdur þeirre Stundu þegnastur/ ad hn̄ þurfe ecke i Guds Nws ad ganga/ edur hn̄s Ord ad heyra/ og þoott þeir gange edur heyre/ þa geingur Ordenu eins og Sædenu þvi/ er Frelsareñ talar um̄ hia Lucam i 8. Cap. Nvert ed þtell utañ hia Vegenum/ ad þ verdur Footum troded/ og Fuglar Himensens ætu þ/ Dioþulleñ tekur þad i burtu wr Hiortum þeirra/ svo þr ecke trua skule/og verda Hoolpner. Hvar fyrer? þvi þeir hyrdtu ecke um̄ ad taka a sig Guds Alvæpne / til ad moostanda Prettum Andskotans/Eph. 6. Guds Ord skal til þess haþa/ ad vard veita Guds Ord/eñ þr gleymdu Sverde Andans/ sm̄ ad er hid sama Ord/ ad þr kyñu ad beita þvi þyrer sig/ nær Ovinureñ ad Garde geck/ til ad ræna þa Dyrgrip þessum. Oskande være/ ad ei hyxudu þeir hid sama/ er Judar sogdu Fordum vid Jeremjam: Vier skulū ecke heyra þvi Orde/er þu sagder oss i Nafne DRottens/ helldur skulū vier giora epter sierhveriu Orde/ er þramkemur aþ votum Muñe/ Jer. 44. J svoddañ Gyllde er DRottens Ord hia sumum Moñū. Munu þr þa ecke nærsta Þyckheyrder vera? Heyr mier þo um̄ Stund/ Barned gott/ Þu ert Oskerdtur a Hlustum þijnū/og eñ nu ert þu svo i Dag: Þar fyrer/ i Dag/ i Dag/ ef þu heyrer Roddu hn̄s/þa forherd ecke Hiarta þitt/ Hebr. 3. Seg mier/ Heþur þu Bref þra Gude/ ad hañ lijde þijn Skilningar-Vit til Morguns / meir eñ þesse Dauþe og Mælhallte Madur. Gud steypte hiñe Vantruudu Verollд um̄ Koll i einu. J einu dreckte hañ Pharao med ollu hn̄s Lide. J einu þargade hañ Canaanitum fyrer Hond Josuæ. J einu Augnablike sloo hañ þa med Blindne/ er þælmudu epter Hwse Loths / Gen. 19. J einu Augnablike stack hañ Augun wt a Elimas/ sem moostood Paulo/ er hañ þoor med Christne-Boded/Act. 13. Mun hn̄ ei kuña ad giora hid sama vid þig/ eþ þu mootstendur hn̄s Þienurum/ og villt ei heyra

þeim/

þm̃/nær þeir tala Guds Eyrende z ecke sitt? Eda hvad villtu giøra/ nema þu haper eitthvad þier til Sælargagns numed ap Orde DRott ens/ æ medañ þu hapder Eyrun heil/ ep hañ kyñe ad læta þier til= palla þvilijkañ Brest/eg vil þad i stuttu Mæle segia/þu hepder eckert til ad keña þier ad þeckia Syndena/ eckert til ad fæ Boot heñar / og eckert til ad hugga þig i þessu Volæde? Og fyrer þvi/ ad þu alldrei hapder smackad hid Gooda Guds Ord / so sem þad er / þa getur ecke æ þier saññast Mælshættur sæ/ad eingeñ vite hvad hñ att hepur fyrr eñ hañ miste / einhver vill segia; Eg get lesed Guds Ord þoott ecke heyre eg þad / þvi er verr / ad þeir eru svo fæer / sem lesa kuña/ jæ/ þoott siælper kuñe/ þa hyrda sumer ecke um̃ ad keña þad Born= um sijnum/ og er þad Gudlaust Rækiarleyse / eñ hverneg sem þvi er vared/ hvad veitstu nema Gud take under eins fræ þier Sioonena og Heyrnena / og hvar stendur þu þa / ep þu hepur forsmæd Rijkdoom hañs Langlundargeds/ Rom. 2. J þvi/ ad vilia ecke hañs Ord heyra þier til Sæluhiælpar/ z þoott Gud spare Eyru þijn allt fram̃ i Daud añ/ þa vita Meñ / ad ecke siæ þa Augun leingur / og ecke heyra þa Eyruñ leingur/Hiartad verdur þa ad tala vid Gud/og heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere/eñ ep Meñ hapa styggt hñ med Vanrækt Guds Orda/ og sløkt hañ med Forøgtun þeirra/ hvar i æ hñ þa ad lipa/ep eckert var numed sem hñ kuñe ad lipa i / og er þetta eitt Skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu/ad gannga i Guds Hws/og helldur þad fyrer Eintoomes Ceremoniu/þvi er verr/ kañ ske þad sie og svo hiæ allmørgum/ sem þar byrtast/ alleina fyrer Sida Saker/eñ giæte Meñ þess/ ad fyrer utañ þad/ ad Gud hepur Skulldbunded sig til ad vera midt a millum Tveggia edur Þriggia/sm̃ eru samañsapnader i hñs Nafne/Matth. 18. Þa er þad ei svo miøg vijda i Lande voru/ad Almeñingur fæe Guds Ord heyrt nema i Kyrk= iuñe/ O hvad miklu Goodu firrer sæ Madur sig/ er byrger Eyrun fyr= er Guds Orde/ þau eru Lijp og Ande/seger Frelsareñ /Joh. 6. Þvi

er

er hn̄ Andlega daudur sem an þra er. Vier trwū/ ad fyrer Trwna verde Madurenn hoolpen̄ an Verkana/ seger Paulus: En̄ Trwen̄ er af Heyrnenne/ en̄ Heyrnen̄ af Guds Orde/ seger hn̄/ Rom: 10. Hvat vill hn̄ lenda þa/ sem er Trwarlaus/ nema i Eilyfre Glotun? Utan han̄ betre sig. Myner Sauder heyra myna Raust/seger Frelsaren̄/ Joh: 10. En̄ hvers munu þeir vera/sem ei vilia heyra Roddu hans? Munu þeir ecke setter verda med Hofrunum a vinstre Hlid/og þa um̄ syder heyra hina skelfelegu Raust alls Hollds Doomara / fared fra mier bolvader i eilyfan̄ Elld/sem fyrerbwen̄ er Dioflenum/og ollum hans Aarum / Matth. 25. Sa sem er af Gude/ han̄ heyrer Guds Ord/ seger Lausnaren̄/ Joh. 10. En̄ þeir sem þad ecke heyra vilia/ og þo heyra kun̄a/ af hverium eru þeir? Af Fodur þr Andskotanū/ svo sem D. Rotten̄ sagde vid Gydinga fordum. Vt af þessare Deyfu fædest margfalldur Eyrna Dofe. Hvad giora þeir ed heyra Vein hins Naudstadda og Volada/ en̄ byrgia sig þo fyrer synu eigen̄ Hollde? þad er fyrer þeim sem ad eru somu Natturu og vier/og gefa þeim eckert/iafnvel þoott sumer hafe Audlegd Heims þessa. Eingen̄ hefur um̄ Allder sitt eiged Holld hatad / seger Guds Ande/ helldur foostrar han̄ þad og nærer / og hvad er þad þa / ad eg skule sia mitt eiged Holld/ ein̄ Guds Vesæling / min̄ Broodur i Christo / ad eg skule sia han̄ frioosa edur svellta i Hel/ þar eg hefe þo noog iafnvel til ad kosta uppa Munade myna? þetta er stakt Heyrnarleyse. Sa sem Oskunda og Orietten̄ lydur/ hn̄ flyr til Doomarans/ og bidur um̄ Adstod/en̄ han̄ sem af Gude og Konungenum er settur til ad skipa Rettendum Man̄a/ hn̄ styngur Fyngrenum i bæde Eyrun/ og vill ei heyra Kvein Log-Ræningsens/ an̄adhvert fyrer Lete/ fyrer Vinattu/ fyrer Hrædslu edur Agyrnes Saker/svo hin̄ fer iafnnær fra honū: Verr er honū fared en̄ hinum Ranglata Doomara/ er Frelsaren̄ talar um̄ i Eptirlykinguñe hia Luc. 18. Hver þoott han̄ Ottadest hverke Gud nie Men̄/ þa liet han̄ sig þo samt leida af þrabeidne Eckiun̄ar/ til

ad ælijka Mæl heñar. Ein gomul Kona beidde Augustum Keysara eitt Sinn / ad heyra Mæl sitt/ eñ hañ kvadst ecke Toom hafa/ hun svarade: Svo legg þa af Stioornena: Vid þesse Sañyrde bra svo þeim vijsa Nøfdingia/ad hañ leit strax a Mæl heñar/og dæmde pad/ eñ pad være Rædlegt/ ad þesse Varmeñe/sem ædur er umtalad/ ad þu legdu af sier þetta Starf / þar þeir valla eru hæfare til þss/eñ Asn' eñ til Norpu' Slættar. Meñ nema þañ Lim i burtu af Kroppnū/ sm er daudur/ og lijklegur til ad spille ødrum/ sæmra være og þeim er svo þyckheyrder eru / sem nu hefe eg sagt / ad Eyru þra være afskoreñ/ helldr eñ þau stædu þeim til Vanheidurs/ eñ eingū til Gagns a Nøfd enu. Þar er eingeñ kiendur sm hñ kemr ecke: ef þier blinder værud/þa hefdud þier ecke Synd/Eñ nu seged þier/vier siañ/þar þ blijfr Synd ydar/ sagde Lausnareñ vid Phariseos/ Joh. 9. Svo være og hinum betra/ ad Nluster þeirra byrgdar væru/ helldur eñ ad hafa Eyru og heyra ecke/eins og oñur Lijkneskia. Margt mætte hier um fleira tala/ þo læt eg þetta duga ad svo stoddu: Eñ þad eg hefe ad framañ talad um Neyrnar Skorteñ/þad sama vil eg um Mælhellteña tala/ad søñu er hun stoor Vanse Lijkamans/ margur Ohlutvandur forsmæer þañ/ sem er svo Mæle fareñ/ þeir hæda ad hønum/ herma epter þeim/og læta miklu verr optast / eñ hiner sem þeir epter herma: þetta heiter ad lasta Skaparañ/ þvi hañ hefur Mañenum Mæled gefed/ og sæ ed fremur þvilijkt Gudleyse / hañ er nærsta illa talande i hñs Eyrū/ sm allt heyrer/ hañ giører Mælsnylle sijna Þusundsiñum argare eñ Brest hins Mælhallta. Ecke helldur bañar Tungu Nafted nockrū ad gánga fram fyrer Rædarstooleñ / sem Gud hefur sett i hañs Bloode/ hañ sem ecke upplauk sijnum Muñe/ helldur eñ eitt Lamb til Slætrunar leidt/ hañ getur vorkent þessum sijnum Vesælingum/er hñ sialfur skapad hefur/ gete hañ ecke ødrum keñt/ gete hñ ecke brwkad Mæled til ad tala Mæle Eckiuñar og hins Fødurlausa / þa getur hañ þo lofad Gud/hañ skilur Mæl hñs/sem adgreinde Tungurnar/

og allar hefur giört af eiñe/ hañ getur beded Gud sier til Hialpar og Myskunar/ hañ er noogu sniallur i Guds Eyrum/ sem bidur i Anda og Sañleika/ Joh. 4. Eins vel ækalla hiner ungu Hrafnarner Gud og Svanureñ/ og hverutveggiu þessa fader hañ / þvi stendur nu eingum þesse Tungu-Brestur fyrer neinu Goodu hiaa honum/ sem bæde hef-ur skapad hiñ Mallausa / og hiñ Veltalande: Hin er Malhellteñ meire og skadlegre/ þegar Meñ brwka Muñeñ til ad lasta Gud/ hañs Nafn/ hañs Ord/ rangfæra þad / og ad Hæde hafa / til ad skeñia Naungañ / til ad rægia hañ / liwga a hañ Lÿstum og Skomum þo-saklausañ/ brÿxla honum/ leggia Napt a Tungu sÿna/ þegar hañ a ad forsvara/ þegar Sañleikanum a Vitne ad bera/ og færa Alutena til betre Vegar / Þetta er skelfelegt Malleyse / þad er ein Hofud Skoñ i Guds Auglite/ þarfara være þeim Mañe / ad hañs Tunga være fra Rootum uppskoreñ/ eñ ad brwka hana til slÿkra Odæda/ þvi svo seger Frelsareñ: Betra er ad þu halltur og Handarvane iñganger til Lÿfsens / eñ ad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur / og verder i eilÿfañ Elld kastadur/ Matth. 5. Hver ed vÿs er þeim sem kemia sier Þogn þessa/ og þessa Malhellte/ og nema þeir ydrest af Hiarta/ og læte af slÿku Æde/ þa munu þeir eilÿflega med honum verda/ er vier Rægekall nefnum/ og hefur sitt Nafn af þvi/ ad hñ æklagar Guds Utvalda Dag og Noott/ þar ellda þeir Saluñ eñ eta Tungur/ Elld-ureñ er noogur/ Kostureñ er mikill/ Blastur DRottens upptendrar hñ svo sē añad Breñesteins Flood/ Esa. 30. Fra hveriū Ofkopū hiñ goode Gud vardveite alla christna Meñ/ Eñ þu siñ ALLT GJorder VEl/ Þu SEm LJEtst DAUfa HEYra Og MAALlausa TAla/ Vÿk þeim afsÿdes fra Foolkenu fra vondre Verølldu þessare/ hverra Eyru ad allt ofmiøg klæia epter heñar Glaum/ hverium ekkert Mool lÿk-ar/ nema þad sem heñe er þocknanlegt/ Rek þa wt af Babilon/ DRott-eñ miñ/ jafnvel med Svipu þÿns Krossburdar / svo ad ecke medtake þr af Plagum heñar / snert Eyru vors Hiarta med Fÿngre þÿnum / sem er þiñ Ande/ svo ad vier hefum vora Lÿsting i Logmale þÿnu/ og upp

leys Fiøtur Tungu vorrar/ svo ad vier tølum rieft / þad sem Gude sie til Lofs og Dyrdar / Hans Kyrkiu medal vor til Vppbyggingar / en Andskotans Rijke/ og allre hans Ydn til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnare/fyrer þijna Forþienustu/Þier med Fødur /og hei løgū Anda / sie Walld og Kraptur / Rijke og Mattur/ Æra og Dyrd/ fra eine Eilijfd til anarar/Amen.

## Prettanda Sunudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 10. Cap.

OG JEsus han snere sier til sijna Læresveina/og sagde þm einslega. Sæl eru þaug Augu sem sia þad / hvad þier sieed/þviad eg seige ydur/þad marger Spámeñ og Kongar / villdu hafa sied hvad þier sieed/ og sau þad ecke/ og ad heyra hvad þier heyred og heyrdu þad eige. Og sia / ad nockur Løgvitringur stood upp/ freystade hans og sagde: Meystare / Hvad skal eg giøra/ so ad eg eignest eilijft Lijf? En han sagde til hans: Hvad er skrifad i Løgmálenu? Hvørneñ les þu? Han svarade og sagde: Elska skalltu DRotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu / og af allre Sálu þiñe/ og af øllum Mætte þijnum/ og af øllu Hugskote þijnu / og þiñ Náunga sem sialfañ þig. JEsus sagde til hans: Þu svarader rieft / giør þad og muntu lifa. En han villde riettlæta sialfañ sig/og sagde til JEsu: Hvør er þa miñ Náunge? JEsus svarade z sagde: Madur nockur foor fra Jerusalem/ ofañ til Jericho/ og hrasade a medal Ræningia/ hvørier ad ræntu hañ Klædum/og lemstrudu hañ Sárum/ geingu sijdan i burt/ og lietu hañ þar epter hálfdaudañ liggia. En so bar til/ ad Kieñemadur nockur foor ofañ þañ sama Veg/ og er hañ leit hañ/ gieck hañ fram hia hønum. Slijkt hid sama Leviteñ/ þa hañ kom nærre þeim Stad/ og sa hañ / gieck hañ þar fram hia. En Samverskur Madur nockur foor um fareñ Veg/ kom þar nærre hønum / og sem hañ sa hañ / þa hrærdest hañ af Myskun vid hañ/ og gieck ad hønum/ batt um Sár hans/ hellte þar

þollum i Freiſtne/ og dregur hañ hier Dæme aß Læknurum: Oſſ er eingeñ Hlutur kiærare eñ vorer Limer/og þo ef nockur af þeim er ſvo toteñ/ad hætt er vid/ad hañ meige feigia hina/þa lÿdum vier þ Lækn-ernum/ ad hñ ſkere hñ af/ þvi ſkylldum vier þa ecke deyda vora Jardneſka Limu/Saurlÿfe/Ohreinleika/illa Tilhneiging/ vonda Gyrnd/ Agyrne/ hver ad er Skwrgoda Dyrkan/ ſvo ſem Paulus ad Orde kemſt/ Col. 3. Og þad ſem hñ hier ſeger um̃ þeſſa Leſte/ þad vill hñ ſagt hafa um̃ allt hid Vonda/ ſem i gegn Saluñe ſtrÿder/ hvert hañ upptelur i Piſtlenum til Galatas Cap. 5. Þeſſe er Lÿkame Syndareñar/ ſem um̃getur Rom. 6. Þad er hiñ gamle Madureñ / hver ed brwkar ſÿna Limu / vondar Gyrnder/ til ad reka Andſkotans Eyrende / eins og eiñ Verka-Madur brwkar Hendur og Fætur til ad þioona Nætturlegu Lÿfe/þa byriar oſſ ad deyda/þa eigum vier ad aßſnÿda og ſnara þeim fra oſſ/ ſvo þeir hneixle oſſ ecke. || Hverſu opt verdum vier hneixlader aß Hondunum/ þegar Fooſkañ blæs þær upp/ til ad meida Holld Naungans / þegar Agyrndeñ tefter þær wt til ad grÿpa hans Goots og Peninga/ þegar Leteñ ſvæfer þær til ad leggia ſig ſamañ/Prov. 24. ſvo Meñ geta ecke eted ſitt eiged Braud/og verda þvi ad leita þſſ i añarra Andlites Sveita. Fæturner hneixla oſſ/ nær Leideñ a Guds Orde og Toomlæted i vorum Saluhiálpareßnũ giörer þa trega til ad ganga i hans Hwſ/ eñ fwſa til ad hlaupa þangad ſem þr Hluter eru idkader/hverja Gud heßur bañad/þa er hiñ Gamle Madureñ ſkiootur a Fæte/eñ hiñ Nye halltur/ og þa helltum vier oſſ og hneixlũ næſta miog ſiælßer ſiælßa. Sama er um̃ Augun ad ſegia/ hverra Frelſareñ og getur hier i Gudſpiallenu. Hvad er i Heimenum? Þad er Gyrnd Holldſens/ Fyſn Augnaña og Drambſamt Lÿferne/ Hverſu opt feſta ſig vor Augu a þeim Hlutum/ ſem eru fuller aß þeſſu? Fogur Aſynd / Audæße/Meford/ z ſvoddañ Tal Verallldareñar/þad er vor Augna-Bode: O hvad miklu betur være þad Auga wtſtwnged/er lætur ſig blinda aß þeſſum Hlutum/ eñ hverßur aß Gude

ſynum og hans Bodordum: Þeſſvegna giørde Job Sattmaala vid Augu ſyn/ ad ei lite hn̄ þeim til Meyareñar. Þvi biidur David Gud: Snw þu Augum mynū/ ad ei lyte þau a Hiegoomañ/ laat mig gaanga a þynum Vegum/ geþande þar med til Vitundar/ ad ſa ſem ſtarer a Glis Veralldareñar/ hañ kuñe ecke Guds Veg ad rata/ Eñ þad ſm̄ DRotteñ hier ſeger um̄ þeſſa Timu hins gamla Mañs/ þad vill hañ ſagt haþa um̄ allt þad ſem oſſ maa fraa Gude draga. Sa ſm̄ virder meir Fødur og Moodur/ Syſtur edur Broodur/ edur Eigiñkonu ſyna/ og jaþnvel ſitt Lyþ/ helldur eñ Chriſtum / hañ hneixlar ſiaalþañ ſig. Sa ſem gyrneſt þad Embætte/ ſm̄ hañ er ecke Madur fyrer/ (hvad margur Daare giører a þeſſum Døgum) hañ hneixlar ſiaalþañ ſig/ þvi hañ giører ſig verre med þvi/ ad hañ fer illa med Guds Vm̄bod/ ſøkum Faakiænſku edur añars Dugleyſes / þar hañ heþde añars kañ ſke goodur Madur vered. Sa ſem tekur ſier Hneixle aþ þm̄ Hlutū/ ſem ecke eru Hneixlanleger/ helldur gooder og Gude þecker/ ſvo ſem er ſkynſamlegt Vandlæte i Keñinguñe/ Røkſeme Yfervalldſens i Stioorñ eñe/ Alvørugeþne Skolameiſtara / Forelldra og Hwsbænda i Typtaneñe og Vm̄vønduneñe/ hver ſm̄ ſteiter ſig a þſſu/ hn̄ ſame hneixlar merkelega ſiaalþañ ſig / Svo hneixludu þr ſig a Moyſe Guds Mañe/ þvi hañ rak Guds Eyrende ſkøruglega: A Elia/ Michea og Jeremia / aþ þvi þeir vandlættu i Guds Stad: A ſiaalþum Chriſto / þvi hañ heidrade ſiñ Fødur / eñ þeir vanheidrudu hañ: A hans Poſtulum/ þvi þeir hlyddu framar Gude eñ Møñum. Sa ſem ſteiter ſig a añars Hæglæte / og meinar ſier leiþiſt allt vid hañ ad giøra / þvi hiñ er ecke Heiptrækur/ hañ hneixlar ſiaalþañ ſig/ ſvo hneixluduſt Iſraels Syner a Moyſe/ þvi hn̄ var hiñ þoleñmoodaſte Madur a Jørduñe: A Chriſto/ þvi hn̄ hroopade ei nie kallade/ hn̄ aat og drack med Tollheimtumøñum og Berſyndugum. Sa ſem er Raangeygdur eþ nockur er Goodgiarn / hañ hneixlar ſiaalþañ ſig / ſvo voru þeir ed fyrſter voru leigder i Vyngardeñ/ eñ øþundudu hina/ ſem ecke høþdu neina

Eina Stund erfvidad: Svo var hæktad Broodur hins fortapada Sonar/er ecke gat lided ad hans Fader Myskunade sig yfer hañ/ Svo eru og aller þeir/ ed sia Ofsioonū yfer añarra Velgeingne og Lucku-Lane/svo sem hefdu þeir af Gude eins miked edur meira forskulldad. Sa ed vogar sier i nockurn Selskap sem honum er Ofvaxtñ / edur leggur Lag sitt vid þa/ sem hñ kañ ad hlioota Skada af/ hñ hneixlar sialfañ sig/ Þvi bañade Gud sijnu Foolke/ad taka til Egta Canaans Dætur/ edur ad giora Sattmaala vid þa/ er hañ wtrak fra þeim/ad ei yrde þeir þeim ad Snøru/þvi bañar Salomon ad hafa Vmgeingne med Reidegiornum Mañe. Þad Maaltæke er satt/ Ef nockur tekur a Tiøruñe / þa loder hun vid hañ: Hefde Israel ecke samlagad sig Skiækiunū i Moabs Lande/ þa hefde ecke svo skelfeleg Guds Hegning yfer þa komed: Hefde Samson ecke bunded svo fasta Ast vid Dalila/ þa hefde hñ Augunum hallded/og hefde Petur ecke geinged iñ i Biskups Høllena/ munde hñ ecke hafa sijnū Meistara afneitad. Sa sem reider sig uppa sialfañ sig edur sitt Atgerfi/ Abl/Vitsmune/ Magt/ Rijkdoom/ edur nockurn añañ Hlut/ Eñ gleymer þvi/ad hañ hafe þad þeged/ hañ hneixlar hvad mest sialfañ sig / og kañ ecke Oluckuna ad umflya/ Þad keña oss Dæme Egyptalands/ Assyriæ og Caldealands Konunga/er a Augnablike urdu uppræter/þvi þr gafu ecke Gude Dyrdena/ Og hefe eg svo nockud um̄ Hneixled talad: Eñ hvert ad sie þess Straff/þad seger Frelsareñ med þessum Ordū. Vei ÞEim MAñe FYRer HVErn AD HNEIXLaneñ KEMur: Eñ hvad þad sie/ keñer hñ oss sialfur er hñ sagde: Vei þm̄ Mañe sem Mañsens Son forrædur/ og hier i Gudspiallenu ma þad sia/ad hañ sem ecke kastar fra sier þeirre Hende edur Fæte sem hañ hneixlar/ hñ hefur forþienad ad kastast i eilijfañ Elld: Sama er ad segia um̄ hinar adrar Greiner af Hneixlenu/ þvi ecke skulum vier meina/ad sa sem Børneñ hneixlar edur adra Guds Vesælinga/ hañ mune sleppa þar med/ AD MYLNVsteiñ HEJNGDest Vm̄ HAAls HON

um/ Og VERde J SIAFARdiwp SDEKTur: Helldur tek
ur DRottenn til þessa/ eins og hins Smanarlegasta Lijfs-Straffs a
medal Gydinga / til ad syna Stærd þessarar Syndar. || Þar fyrer/
christner Menn/ gefed nu Giætur ad þessare Volldugu DRottens Præ-
dikun/ og lated ydur hana i Eyrum loda/ Rannsaked ydar undannfar-
ed Lijfferne & spyried Samvitsku ydar ad/ hvern þier hafed dreged med
Orde/ Verke/ edur Epterdæme a vondann Veg / med Giælijfe / med
Lauslæte/ med Fegyrne/ med Hofmood og Oflæte/ og i einu Orde ad
segia/ med Dyrkan Veralldarennar og hennar Muna/ og ef hann geing-
ur enn nu a honum/ þa legged allann Hug a / ad leida hn̄ a hina rettu
Leid / ef þier vilied lifa / og idrest hins af Hiarta. Sa sem nockru
stoled hefur/ hn̄ a epter Moyses Løgmale Ferfallt ad giallda. Sa-
chæus sagde vid Christ/ þegar hn̄ ætlade sier Christinn ad verda/ Hafe
eg nockrum Rangt giort/ þa gelld eg þad Ferfallt aptur / Enn svo
miklu dyrare sem Salenn er Fenu/ svo miklu þyngre sem Guds Reide
er Mylnusteinenum/ svo miklu fegra sem Himnarijke er Stundlegu
Epterlæte/ svo miklu meire Hug skylldūm vier leggia a/ christner Menn/
ad bæta þeim aptur / sem vier rænt hofum sijnum Andlegum Fesiood.
Nær þier siaed eitt Vngmenne/ einn Vesæling/ einn sem DRottenn bydur ad
medtaka i sijnu Nafne/ þa hræd med ydur/ smaer eru þesser ad Vijsu/
enn hann er Stoor / sem er þeirra Fader og þeirra Brooder/ Smæling-
iar eru þeir ad sønnu/ enn Hneixled er stort/ Syndenn er mikel/ og Stroff-
ed Oværelegt: Vesælingar eru þeir/ enn sæll er sa/ sem ecke hneixlar sig
a þeim/ þvi hann hneixlar sig a Christo/ enn Vei sie hinum: þar fyrer/ ef
þier vilied Guds Viner vera/ ef þier vilied Saluhialpena erfa/ ef þier
vilied heilagra Engla Þioonustu niooта/ ef þier vilied Helvijtis Kvaler
undanflya/ þa gefed þeim eckert Hneixle/ hverke med Orde/ Verke/ nie
Epterdæme/ þvi nær þier hneixled þessa/ þa hneixled þier sialfa ydur/
þar fyrer medtaked þa i Christi Nafne/ svo medtaked þier hann/ og faed
ad heyra a hinum efsta Dege/ Þad þier giordud einum af þessum
mijnum minstu Brædrum/ þ giordud þier mier. Þess unne oss ad niooта hin
eilijfa Guddoomsens Nadign/ ꝼ JEsu blessada Forþienustu/ Am.

# Atianda Sunudag epter Trinitatis.

## Gudspialled/ Matth. 22. Cap.

Y Þan Tijma. Þa Pharisearner heyrdu þad/ ad hañ hafde niddurþaggad þa Saduceos/ samañsoþnudust þeir i eitt. Og eirn Løgvitringur aþ þeim spurde hañ ad/ freistande hañs og sagde: Meistare/ Hvort er hid hædsta Bodord i Løgmalenu? Eñ JEsus sagde til hañs: Þad/ Ad þu skallt elska DRottenn Gud þiñ/ aþ øllu Hiarta þijnu/ og af allre Aundu þiñe/og aþ øllu Hugskote þijnu. Þetta er hid þyrsta og stædsta Bodord. Eñ hitt añad er þessu lijkt/þad/ Ad elska skalltu Naunga þiñ so sem sialf añ þig. J þessum tveimur Bodordum er iñebunded allt Løgmal og Spamenerner. Eñ þa Phariseearner voru so til samans komner/ spurde JEsus þa ad og sagde: Hvad virdest ydur um Christ/hvørs Son hañ sie? Þeir søgdu hønum/Davids: Hañ sagde þa til þeirra: Hvørneñ kallar David hañ þa i Anda eirn HErra? Þar hañ seig-er: DROTTeñ sagde mijnum DROTTne: Sit þu mier til hæg-re Handar/ þangad til ad eg legg Ovine þijna Skør Foota þiña. Nu eþ David kallar hañ eirn Herra/ hvørneñ er hañ þa hañs Sonur? Og eingeñ gat svarad hønum einu Orde. Og eige dirþdest nockur upp þra þeim Deige/ hañ þramar ad spyria.

## Exordium.

T Veir eru Partar Christelegs Lærdooms/ Løgmaled og Evangelium. Løgmaled er fyrer Moysen wtgeþed/ eñ Naad og Sañleikur er þyrer JEsu Christu vordeñ/Joh. 1. Aþ Løgmalenu verdur eingeñ hoolpeñ/þvi þ veitar Reide: Fyr er Truna i Evangelio verdum vier Rettlæter/Moyses seger oss hvad vier eigum ad giøra/ Christur/ hverneñ vier eigum ad trua/ Moyses foor med Skugga epterkomande Giæda/ i Christo er sialþur Lijkam-eñ oss veittur. Nu er þetta þo ecke svo ad skilia/ ad Fedurner i Gam-

la Testamentenu hafe af Evangelio Hlutlauser vered: Sia eg kem/ i Upphafe Bookareñar stendr skrifad af mier/ þiñ Vilia/ miñ Gud/ giøre eg/ seger Messias fyrer Davids Muñ/ Ps. 40. Hver er sa hñs Vilie? Sa/ ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmola Høggormsins Høfud. Fyrer þad blessada Fyrerheit hafa þeir aller hiælpast eins og vier/ sem hoolpner eru vordner/ allt þar til ad Christur leidde Sañleikañ i Lioos. Fyrer Truna vard Abraham Rettlætur/ z fyrer Truna seger Petur ad Fedurner hafe hoolpner vorded: Eñ svo sem þeir voru ecke æn Evangelii og þess Astgiafa/ svo skulum vier þ og vita/ ad vier ecke erum æn Løgmalsins/ þvi DRotteñ kom ecke til ad uppleysa/ helldur ad uppfylla Løgmaled/ Matth. 5. Satt er þ/ ad þr sem Christo tilheyra/ þeir eru ecke under Løgmalenu/ þ er under Løgmalsins Bølvan/ Eñ þo Krossfesta þeir sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum/ Gal. 5. Þad heimtest ecke af þeim/ ad þeir uppfylle Løgmaled/ eñ þess krefur Gud/ ad Meñ life epter þvi/ sem fremst vier megnum/ edur þvi mundu hñs Postular svo opt biooda oss ad lifa Gudrækelega/ Sparsamlega og Rettvijslega i Heime þessum? Þvi munde Jacob segia/ ad Trueñ sie daud æn Verkaña? Þvi munde Frelsareñ sialfur utleggia Løgmaled/ og vijsa Møñum til þess/ ef ecke ættum vier epter Løgmalenu ad lifa. Þetta siaum vier i þessa H: Dags Evangelio/ i hveriu oss verdur fyrer Siooner sett øll Skylldа christens Mañs/ sem foolgeñ er i þessu tveñu. 1. Ad elska Gud og Naungañ. 2. Ad þeckia Christum og hañs Persoonu rettelega. Um þetta hefe eg æsett mier framar ad tala.

Eñ þu goode Gud/ styrk oss hier til med Nad þijns Anda/ i JEsu Nafne/ Amen.

## Utleggingeñ.

Ninu fyrra hofum vier tvo Bodord ad athuga/ sem er/ AD ELska GUD/ Og Añad/ AD ELska NAungañ. Þad fyrra kallar DRotteñ hid ædsta z mesta Bodord i Løgmalenu/

svo

ſvo ſem Von er aa/ ecke einungis þeſſvegna/ ad eckert er ſvo Yppar-legt/ ſvo Saaſamlegt/ ſvo mikillrar Elſkuverdt ſem Gud/ helldur og þeſſ vegna/ ad øll øñur Bodorden̄ hafa ſiñ Krapt og Mindugleika aþ þvi/ þar allt hvad vier giørum med Ord og Verk/ hverſu vel ſem þ ſyneſt giort/ þad er Onytt/ utañ þad þramkome aþ Elſkuñe og Virdinguñe til Guds. || Allt þad ſem Gud hefur boded/ þad eigum vier ad giøra/ af þvi vier Ottumſt og Elſkum hañ/ Eñ hañ eigum vier ad elſka fyrer þa Ometanlegu Yþerburde/ er hañ hefur yfer allar ſiñar Skepnur/ hans Magt/ hans Dyrd/ hñs Rettlæte/ eñ þo allra meſt þyrer hans Giæſku / þvi vier hoþū ei ſvo Skynbragd a ødrū Greinū hans Dyrdlegu Haatignar/ Eñ hana þiñum vier og þreifum a heñe a hveriu Augnablike/ þvi hñ uppþyller vora Epterlaungun med Giædum/ ſeger David/ Pſ. 103. || Og eþ vier fyrſt viliū hugleida Giæſku hñs i Lijkamlegañ Maata: Er hañ þa ecke ſaa ed heþur gieþed oſſ Ond og Lijkama? þvi ſkylldum vier þa ecke elſka hañ aþ allre Ondu vorre? Heþur hañ ecke iñplantad Raad og Skilning i Saaler vorar? þvi ſkylldum vier þa ecke elſka hñ aþ øllu Hugſkote voru? Hefur hañ ei gieþed oſſ Hiartad/ ſem er Bwſtadur Elſkuñar? a hverium ſkyllde hun helldur feſta ſig/ eñ a honum/ ſem hana heþur ſiaalfur tilreidt/ z bwed ſvo Saaſamlega uñ hana? Mun hñ ei vera ſaa/ i hverium vier lifum/ erum og hrærumſt? Act. 17. Uppfyller hañ ecke Hiørtu vor med Fædſlu og Fognude? Upplykur hañ ecke ſiñe milldu Hende/ og ſedur allar lifande Skepnur? Pſ. 145. og hvad meſt hina Opacklaatu Mañeſkiu. || O vor Gud/ eg hugsa til þeſſ / er DRottiñ brixlar ſijnu Foolke hiaa Jeremiam / ſegiande: Heþe eg vered Jſrael ſvo ſem Eydemørk edur Jørd ſu/ er tapar Avextenum? Jer. 2. Gud giæþe/ ad vier villdum z laata oſſ til Riþia reſta þeſſa hñs Fødurlega Hiarta Giæſku/ og athuga, hvad ørlaat hñs Millde heþur vered/ hverſu Vijsdooms full hñs Guddoomlega Forſioon/ ad hñ heþur aled oſſ a þeſſū Arum/ ei ſijdur eñ þrioo þſom Jord Akurkalleñ/ ad honum Sofande/

M

a hveriumm vier høþũ þo hvad verst liþad: Eþ vier hugleidum þetta/ ad miñsta Koste i hvert Siñ/ er hñ veiter oss nockurn sierdeilis Velgiørning/ þa mundum vier helldur leidast til ad elska Gud/ og ecke segia med Gudlausum Judum: Vier drottnum og vilium ei þramar til þyn koma/ Jer. 2. Og þo nu ad Drotteñ læte oss keña hardt a stundum/ añadhvert alla Almeñelega/ edur og nockra sier i Lage/ til ad typta oss þar med Lyfada Kalþa/ Jer. 31. edur til ad reyna syn Børn/ þa eigum vier samt ad elska hñ/ þvi hvern hañ Son/ sem Fadereñ elskar/ þañ agar hñ/ seger Paulus/ Hebr. 12. Eñ eþ þetta er hans Elsku-Merke / hvilyk Fæsiña er þad þa/ ad elska hañ ei aptur a moote? Svo sem þad er lytill Heidur halldeñ / ad elska Vine syna medañ þeir kuña ad duga oss/ svo er þad lyted Rækarmerke vid Gud/ ad elska hañ alleina medañ allt ad Oskum geingur: Og Gud næde/ þad eru þo svo þæer / sem giøra þad: Eñ svo sem Gulled reynist i Ofnenum/ svo proofast og Elskañ til Guds i Mootgangenum: Og hvad mørgum hefur hañ þryst til ad elska hañ/ sem þvi ædur þiarlæger voru/ og haþa Meñ til þess fulla Orsøk/ nær Meñ giæta þss/ ad hvad sem hans Elskendur vantar hier/ þad mun oss margþalldlega Endurgollded verda i Vpprisu Rettlætra/ þad vottar sialfur DRotteñ/ er hañ seger: Hver sem ad yfergeþur Hws/ og Brædur & Systur/ edur Fødur edur Moodur/ edur Eigeñ-Konu/ edur Børn/ edur Akra þyrer myns Nafns Saker/ hañ skal fa Hundradfallt aptur & eignast ad Erþdum eilyþt Lyþ/ Matth. 19. Eñ hvern sem ad hañ svipter øllu þessu/ edur svo Miklu edur Litlu sem hønum þocknast / og hñ elskar samt Gud siñ/ og kysser a hans Vønd / hañ giører allt hid sama. Munum vier þa nockud miñast Harmkvæla þessarra Tyma/ nær vier skynum eins og Sool i Ryke vors Fødurs? Matth. 13. Mun Sonureñ reikna þau Høggeñ/ er Fader hans sloo hañ/ nær hañ situr i Tign og Heidre? Þvi er þad svyvyrdegt/ ad vilia ei kaupa þessu/ og þvi skylldum vier þa ei elska vorñ Himneska Fødur / jaþnvel mitt i

Hørm-

Normungunum. || En hvad Almenelegre Typtan vidvykur/ þa Gud giæfe/ad vier villdum eins lynder z samhuga vera i þvi/ad elska Gud/ þo hañ age oss / sierdeilis þar vier i þessu fatæka Lande meigum jata þad/ ef vier adgiæta viliñ/ad hañ burtrekur ecke tilhæflega/vier meigum þeckia þad vid oss frañkomed vera / sem hañ heiter synu Foolke fyrer Muñ Joels Spamans : Eg skal Endurgiallda ydur þau Areñ sem ad Eingesprettañ / Trie-Ormureñ og Gras-Madkureñ hafa eydt fyrer ydur/ Joel: 2. O vor Gud/ þvi skyllder þu Mañenum betala? Hver hefur þier nockurn Tyma gefed/ svo þu þurfter hønum aptur ad gefa? Rom: 11. Viljer þu giallda oss epter Verdugleikum/ þa eru vor Laun Daudeñ/ vier høfum ecke añad medteked i Straff Syndareñar/ eñ hvad vier tilunned høfum/ og þad med nærsta smaum Mæler/ eñ þvi velldur þyn Giæska/ þyn Fødurleg Elska/ ad þu villt svo ad Orde komast: Þar fyrer Hugleidum nu/christner Meñ/ Hafe Gud typtad oss Ohlyduga Synda-þræla med O-Aran nockurre/ edur ødrum Landplagum/Hefur hañ oss þ ecke margfallølega aptur-golldet/med hiñe mestu Ar-Giæsku og ødru Blydlæte synu? Skylldum vier nu elska nockurn jafnframt hønū/ er svo leikur vid oss eins og Børn syn? Eñ hvad seger DRotteñ þ Muñ Joels sydar i þessū sama Capitula? Nær þier eted jafnadarlega og erud Metter/ munud þier Lofa Nafned DRottens? Eñ hvert ad hiñ goode Gud hefur ei optlega funded Brest a þessu hia mørgum af oss/ þ bid eg þa ad Hugleida/uñ hveria eg hygg þ rett-talad sie/er stendur hia Hoseam Spamañe/i Cap: 13. Vnder eins og þeir sadder urdu/ hoofst upp Hugur þeirra/ þar þ hafa þr gleymt mier. || Eñ øll þsse Lykamleg Blessan/ svo mikel sem hun er/ sem þo er svo mikel/ad alldrei verdur hun fullþacked/ þa er hun þo Sma-Muner hia hinum Andlegu Giædum ad reikna/er oss veitt eru i JEsu Christo. Fæum oss er tamt ad Elska Gud fyrer þær Gafur/sem aller jafnt niota/fyrer hans Sool/er hañ lætur skyna yfer Vonda og Gooda/ fyrer þad Regned er hañ falla

lætur yfer Ranglata og Rettlata/ Matth: 5. Hvar fyrer? Þviad aller meina sig þess verduga/ fyrst aller hafa þess sømu Not/ eñ Avøxt-ureñ verdur þo meire hia sumum/ eñ sumum miñe/ jafnvel þoott ad Tveir hafe hina sømu Atburde/ þvi Blessan DRottens er þad sem Hwsed bygger/ Eñ hans Heilsusamleg Nad i Christo er Augliоos vordeñ øllum Moñum/ Tit: 2. Hun er alldrei Avaxtarlaus hia þm/ sem hana medtaka vilia/ og þar er eingeñ Mismunur a øllum þeim/ sem jafnt bera sig epter heñe/ þvi hia hønum er eckert Mañgreinar Alit/ þar er hverke Gydingur nie Griskur/ Þræll edur Frelsinge/ helldur aller Eitt i JEsu Christo/ Gal. 3. Eñ fyrer þessa Hlaleitu Guds Velgiørninga elska flester hañ hvad minst/ Hvar fyrer? Þvi Meñ dæma epter Holldenu / eñ Hollded skyniar ecke hvad Guds Anda er/ 1. Cor. 2. Athugum þo hvert meira er / ad skapa Himen og Jørd/ edur ad lata Gud/ sm̃ hverttveggia skoop/ taka a sig Lykingu Syndugs Hollds/ Rom. 8. Ad skapa Mañeñ/ edur ad Endurskapa hañ: Ad giøra hans Lykama af Molldu/ og blasa lifande Anda i hans Nas-er/ Edur ad skapa i hønum eitt nyañ Mañ/ og gefa hønū H. Anda: Ad leggia alla Hlute under hans Fætur / Ps. 8. Edur ad gefa sitt Eingeteñ Son wt fyrer hañ / ad hañ fyrerfarest ecke / helldur hafe eilyft Lyf: Ad gefa hønum Jardneska Fædslu / edur ad ala hañ a syns Sonar Hollde og Bloode: Ad gefa hønum Þroott og Atburde til ad wtvega Næringu syna/ eda gefa hønum Styrk i Mootgangen-um/ Freistingunum og Ofsooknunum: Hvert er meira ad gefa hønum Vit og Rænu/ til ad sia fyrer þessu Lykamlega Lyfe/ edur sitt H. Ord/ sem hañ uppfræder til eilyfs Lyfs/ og ad upplysa bæde Viliañ og Skilningeñ/ ad hañ gete bæde þeckt Gud og elskad? Hvert er meira/ ad gefa hønum Maled/ til ad tala vid syna Lyka i Heimenum/ edur ad giøra hans Tungu vel talande/ svo hañ fae vid sialfañ Gud tal-ad? Og ad Sydurstu/ hvert er meira/ ad gefa hønum Gull og Silf-ur/ Akur og Kvikfenad/ edur ad wtvega hønum þañ Fe-Stood/ sem er

a Himnum/ hverium ei kañ Mølur nie Rid ad granda/ Matth. 6. Hver ed Guds eiged Blood z hans dyrañ Dauda kostad hefur: Sa sim̃ þetta samañ ber/ hañ mun fiña/ ad svo miklu Ædre sem Saaleñ er Lijkamanum/ svo miklu fegre sem Himnarijkis Dyrd er forgeingelegu Glise Veralldareñar/ ja / svo miklu Ædre sem Gud er øllum sijnum Skepnum/ svo miklu heitar eigum vier hañ ad elska fyrer hina Andlegu Velgiørninga/ helldur eñ þa Lijkamlegu/ þviad i þessum veiter hñ hvad Forgeingelegt er/ eñ i hinum sialfañ sig/ sem ad blijfur/ sim̃ er eiñ og hiñ same/ og hans Ar þrotna ecke/ Heb. 1. Og hver sim̃ Gud alleina fyrer Jardneska Mune elskar/ hañ hefur alleina Matar Ast a hønum/ eins og eiñ Nræfnare sem tilbidur hiñ Rijka a medañ hañ elur hañ. || Og fyrer þessar Ometanlegu Guds Astgiafer/ eigum vier hañ nu ad elska hvad mest Af ØLLu HJARta VØru / Og ALLre ØNdu VØrre/ Og ØLLu HUGskote VØRu/ þad er / af øllum Saalar og Lijfs Kroptum/ svo sem David bydur/ Lof seg þu Ønd mijn DRottne og allt hvad i mier er hans heilaga Nafne. || Eñ sw Elska er vier a Gude høfum fyrer Tijmañlega Mune/ hun a ad vera svo kroptug/ ad hun nae þvi Maale / er hañ tilætlad hefur / sem er/ ad hun leide oss til ad elska hañ i Christo og fyrer Christum/ hvers Elska ad Paulus seger ad sie betre eñ allt ad vita/ og hañ lyser Bolvan yfer þeim/ sem ecke elska DRotteñ vorn JEsum Christum / og þetta er nu svo talad um̃ hid Mesta og Ædsta Bodord i Løgmaalenu.

|| HJtt ANNad Er þEssu LJJkt/ seger Frelsareñ: ELska SKallt Þu þJñ NAUNGA Sem SJALfañ þig. Sier hefur Gud sialfur hiñ fyrsta og mesta Neidur skiled / eñ fyrer þvi / ad sa sem segest elska Gud/ eñ hatar siñ Broodur/ hñ er Liwgare/ seger Johañes/ 1. Joh. 4. Þa er audsært/ ad Naungans Elska fylger Guds Elsku jafnañ a epter/ þess vegna samteinger og Lausnareñ þesse Tvø Bodord/ þvi hverugt maa añars missa. Sa sem elskar Gud / hañ elskar siñ Broodur / og eingeñ elskar siñ Broodur rettelega / nema hañ elske

hn̄ fyrer Guds Saker. Hier til þarf og mikla Alvoru/og þar Bodord þesse eru svo skylld/þa rydur eins miked a bædum / Svo sem Helvyte er vyst þeim sem ecke elskar Gud/ svo seger og Christur/ ad sa sim̄ reidest Broodur synū/ han̄ sie sekur Helvytis Ellds/ Matth. 5. | Þetta Bodord þyker morgū næsta þwngt/ z sierdeilis epter þvi sem Christur wtleggur þad hiaa Matthæum / segiande : Elsked Ovine ydar/ blessed þa er ydur bølva / giored þeim Gott sem hata ydur / og bidied fyrer þeim sem eru ydur mootþallner og Ofsækia ydur. En̄ Johan̄es seger þo / ad hans Bodord sieu ecke þwng / eg vil og segia/ ad eckert Bodord er rettvysara og eckert nytsamlegra til Velferdar. Rettvyst er þad/þvi hn̄ hefur oss þad boded sem er sialfr Rettvysen̄/ sim̄ a Valld a ad biooda oss hvad han̄ vill/ sem elskade oss/ þa vier vorum hans Oviner/ sem ad eingum er um̄ neitt skylldugur/ en̄ vier erum hon̄i skyllduger Sæl og Lyf/ og allt hvad vier erum. Gagnsamt er þad/ þvi sa er svo giører / han̄ vin̄ur hin̄ besta Hlut / þvi han̄ verdur af Gude elskadur. Hver er þvilykur Hlutur/sem ad vita Synder synar kvittar? En̄ þad veit han̄ / sem svo elskar Ovin sin̄ / ad han̄ tilgefur hønum hans Misgiørder/ad Vitne Frelsarans/ er han̄ sagde : Ef þier fyrergefed Møn̄unū þeirra Misgiørder/ þa mun min̄ Fader tilgefa ydur ydar Synder / þvi vil eg segia hid sama hier um̄ og Pæll sagde um̄ Man̄ og Kvin̄u/ Sa sem elskar syna eigen̄ Konu/ han̄ elskar sialfan̄ sig/ Eph. 5. Og allt hid sama giører hn̄ sem elskar sin̄ Broodur/ og hver sem hn̄ hatar/ hn̄ hatar sialfan̄ sig. | En̄ þessa Elsku til Naungan̄s eigum vier ad Auglysa/ ecke med Orde og Tungu/ helldur med Verke og San̄leika / an̄ars elskum vier ecke rettelega : Gud ein̄ veit hvad i Hiartanu bygger/þvi han̄ ran̄sakar Nyrun̄/ þad veit Madur-en̄ ecke/ han̄ dæmer af Avoxtunum. Þvi kan̄ eg ecke ad segia/ ad sa elske sin̄ Naunga / sem eckert Gott lætur af sier leida / þar til gefur Jacob mier Orsøk/ er hn̄ seger : Ef Syster edur Brooder eru naken̄/ og vantar Daglegt Vidvære/ en̄ Einhver ydar seger/ Fared i Fride/

vermed

vermed ydur og mettest/ eñ gefed þeim þo ecke þad Lykamañ vidþarf/ hvad gagnar þad? (Og þetta er nu svo framsagt um þesse Tvo Stooru Bodord/ i hverium Frelsareñ seger/ Ad ALLt LOGMAALed Og SPAMENNerner SIeu INNEfalder/ Eñ þegar vier nu rañsøkum hvad miked oss vantar a ad fylla þesse Guds Bod/ þa mun oss til Hugar koma/ ad leita eins añars Lærdooms / hvar fyrer vier kuñum hoolpner ad verda. Til hans vijsar oss Christur i siñe Spurningu til Gydinga/ er hañ sagde: HVad VIRDest YDur Um CHRIST HVers SOn HAñ Sie/ hvar um vier nu vilium med faam Ordum tala i hiñe Sijdare Greineñe.

Gydingar høfdu framsett fyrer DRotteñ Tvær Onytiu Spurningar/ ądur eñ þesse kom til ~~um~~ Bodordeñ/ Adra bąru Pharisæi og Herodis Þienarar fram/ Hvert ad leifdest ad gefa Keysaranū Skatt edur ei/ þeim svarade hañ wt af/ ef eg ma svo ad Orde komast/ sem verdugt var / þvi Madur skal ei svara einum Daara uppa sitt Tal. Adra Saducæi/ er þeir spurdu/ Hvers ad Konañ skyllde verda i Upprisuñe af Sio Brædrum/ sem aller høfdu haft hana/ þa nidurþaggade hañ/ og straffade þeirra Oviturleik. Þesse var hin Þridia / og voru um hana ymsar Meiningar hia Gydingum. Adrer hielldu hin hellstu vera um Foornernar: Adrer Umskurnareñar Løgmaal: Nockrer um Hølldardageñ: Eñ DRotteñ / er sialfur hafde Løgmaaled wtgefed / i hverium ad biuggu aller Fiærsiooder Vitskuñar / hañ leyste wr heñe an Umþeinkingar / til þess / ad syna þeim hvad miked þa vantade a Guds H. Løgmaals Uppfylling/sem meintu hana ad vera einungis foolgna i wtvortis Verkum/ eñ ecke til ad keña þeim/ ad nockur giæte af Løgmaalenu hoolpeñ orded/ og þvi vijsar hañ þeim til Christum og hans Persoonu/ svo þeir vel mættu læra Saaluhiaalpareñar Veg/ hefdu þeir haft Vilia edur Vit a epter ad taka/ edur framar hier um ad spyria/ eins ᛘ Nicodemus/ HVad VIRdest YDur Um CHRist HVers SOn HAñ Sie? seger Frelsareñ:

sareñ: ÞEir SAGdu HAñum DAvids. Ecke neitar DRottiñ þvi/ ad hañ være Davids Son/ svo sem ei var Von til. Gud hafde David heited/ ad hañ villde gefa honum eiñ Son/ hvers Rÿke ad skyllde eilÿft verda/ 2. Sam. 7. Hañ er Sonur Davids epter Hollde-nu/ sem Paulus vottar/ Hañ er giördur af Sæde Davids/ eñ þesse hiñ same Davids Sonur/ sm̃ ad er fæddur af Fedrunum epter Hollde-nu/ hñ er þo Gud blessadur um̃ Allder: Þvi seger nu Lausnareñ fram-vegis: HVERneñ KALLar DAvid HAñ Þa i ANda Eiñ Her-ra? Eingeñ Fader er svo Audvirdelegur/ z eingeñ Sonur svo Megt-ugur/ ad Fadereñ kalle Soneñ Herra. Lꝏtum vera/ ad eiñ Fader sie ecke Kongboreñ/ og Synenum Konungs Tign hlotnadest/ svo ad Fad-ereñ kallade hañ Herra/ af þvi hañ ber Guds Persoonu a Jörduñe: Eñ hverneñ mꝏtte þad eiga heima hiꝏ David/ hver ed siꝏlfur var Konungur/ og ꝏtte sier eingañ ædre/ nema Gud alleina/ sem byr i Himnenum/ og er allra DRotteñ? Þvi er þ audsied/ ad sꝏ er Gud/ og Guds Sonur/ er hañ Herra kallar: Þar fyrer seger Frelsareñ: EF DAvid KALLar HAñ HErra/ HVerneñ Er Hañ Þa Hans SONur? Og svo ad eingeñ kyñe ad leida sier i Hug/ ad þad være nockur af Einglunum/ edur Höfud-Einglunum/ sem David kallar HErra i þessum Stad/ þa færer DRotteñ til sÿns Mꝏls þa Greiñ af Spꝏdoome Davids/ sem eingum Eingle edur nockurre Skepnu til-heyrer/ og ecke utañ alleina Guds Syne/ sem er sañur Gud/ Gude Föd-ur og heilögũ Anda Sameiliÿfur z Samjafn ad allre Tign/ Magt og Vellde/ og þo sañur Madur vordeñ/ svo mikklu ædre Einglunum/ epter Mañdoomenum/ sem hañ hefur þeim ædra Nafn/ þad er Tign hloted fyrer Ibwd Guddoomsins: Þa seger hñ: DROTTeñ Sag-de Mÿnum DROTTne/ Sit Þu MJer Til HÆGre HANdar/ Þar Til Eg Legg OVine Þÿna Til SKarar FOOta ÞJña. Þviad til hvers af Einglunum hefur hañ nockurn Tÿma sagt/ Sit þu mier til hægre Handar? seger Paulus/ Hebr. 1. Jꝏ/ Eingilleñ

kvadst

kvadst vera Sampioon Johañis/ er hñ talade vid hañ i Opeñberan-
ñ. Hverneñ mætte þa David nockurn Eingel siñ Herra kalla? |Su
er þa Meiningeñ i þessu Tale Frelsarans vid Gydinga/ ad CHRist-
ur sie DAvids Son/ þad er aþ Fedrunum þæddur/ epter Holldenu/og
þo Guds Sonur aþ hønu geteñ þyrer allar Allder/ þad er sañur Gud
og sañur Madur i eiñe Persoonu/ hvad og sia ma af þeim Mæls-
hætte/ Ad SITia Til GUDS HÆGre HANDar/ hvad eingu
getur tilheyrt/ nema þeim/ sem er ein Persoona samsett af Guddoo-
me og Mañdoome. Þetta heþdu Gydingar kuñad ad læra/ z þo miklu
skilianlegar og betur/ eñ nockur syndug Tunga fæe wtmælad/ hefdu
þr lagt nockurn Hug a sitt Mæl/ z spurt þremur hier um̃. Eñ vier
sem þeinged høfum þad ad heyra/ og trwum þvi sem þeir heyrdu ad
søñu/ eñ trwdu þo ecke/ vier/ hverium Christur er þyrer Augunum
mæladur i hñs Orde/ Vier skulum reikna oss þad fyrer eitt̃ fañ Soo-
ma/ z hina ædstu Huggun/ad Gud er Madur vordeñ/og ad vort Holld
er upphaþed a Guds Tignar-Stool þyrer Jbwd Guddoomsins. |Eñ
hvad er þad/ ad sitia a hægra Veg Gude? Þad leggur Paulus wt/
er hañ seger/ 1. Cor. 15. Hønu byriar ad rijkia þar til hñ leggur alla
Ovine til Footskarar hønum. Eñ hvilijkt er þetta Rijke? Þad er/
ad hañ er settur yþer allañ Hoþdingskap z Vellde og Krapt z Herra-
dæme/ og øll Noþn sem neþnast/ ecke einasta i þessare Ølld/ helldur z
hiñe Tilkomande/ Eph. 1. Eñ undañ þessu dyrdlega Rijke urdu Pijsl-
ernar ad ganga/ þvi lyser hañ sialþur/ er hañ talade vid þa tvo/ sem
til Emaus geingu/ Luc. 24. og lagde wt fyrer þeim Ritningarnar/
segiande: Hlaut ei Christur þetta ad lijda/ og iñganga sijdañ i sijna
Dyrd. | Guds Sonur er ad søñu Konungur fra Eilijfd/ þess getur
David/ segiande: Gud/ þiñ Tignar-Stooll varer um̃ Alldur og um̃
Allder Allda. Eingeñ ma Konungur heita/ nema hñ Rijke hafe/
eñ Mañsins Sonur braut sig til Rijkis i gegnum Pijslernar/ Daudañ
og Port Helvijtis/ þegar hañ took Herleidinguna ad Herþange/ eñ

wt/

wisnarade honum/ sem hefur Magt Myrkrana/ og setteft a Guds Hægignar-Stool/ liifer og ryker ad Eiliifu/ svo ad hann er vor Konungur vordenn/ epter vorre Natturu/ enn vier hans Brædur/ pad er oss eilijf Huggun. Verde eg aumare enn Lazarus/ verde eg audvirdelegre enn hans Postular/ verde eg Afrak og Hreinsunar Foorn Veralldar/ eins og peir/ verde eg svo fatækur sem siælfur hann/ ad eg ecke hafe par eg kunne ad halla ad Høfde minu/ pad er mier noog/ ad mitt Holld og Blood ryker a Himnum/ og situr a hægra Veg Gude/ med hverium hann fæder mig og Dryckiar/ til Stadfestu par umm/ ad eg sem med honum lyd/ mune og siidann med honum rykia/ og hversu sem minn Lykame yrde afskræmdur af Volæde og Vesolld/ pa skal hann po verda samlijkur hans dyrdlegum Lykama/ Ja/ pad er mier ecke lytel Huggun/ ad pad sama Holld og Blood/ sem situr a Guds hægre Hond/ pad medtek eg i H. Alltaresins Sacramente/ til Styrkingar umm Kvittun Synda minna/ pviad i peim Lykama/ sem brotenn var a Krossenum/ og i pvi Bloode/ er par var wthellt/ i pvi sama bygger øll Fylling Guddoomsins Lykamlega/ svo pegar eg medtek Lykama og Blood Mannsins/ pa medtek eg og siælfann Gud/ a moote hveriumm eg syndgad hefe/ og af hveriu hvad mest hanger Verdugleike mijns Syndagiallds. Par fyrer/ nær eg skielfist af Stærd Synda minna/ pa verd eg af pessu huggadur/ pvi ef ad mitt Hiarta fordæmer mig/ pa er Gud meire Hiarta mijnu/ og pad mun alldrei bregdast/ er Gud hefur heited i Christo fyrer Munn Jeremiæ: Ef leitad verdur ad Ranglæte Israelis/ pa skal par eckert vera / og Synder Juda skulu eingar finnast / pvi eg mun fyrergefa peim er eg mun eptersskilia. || O minn HErra JEsu/ fyrer hvers Skulld mun pad vera/ ad pinn Fader midt i Reidenne minne/ est a Myskunsemena/ Hab. 4. Hvar fyrer brestur hans Hiarta i honum/ svo hann hlytur Syndaranum Myskunsamur ad vera? Jer. 31. Hvar fyrer skedur petta / DRottenn minn / nema fyrer pijna Medalgaungu/ sem situr honum a hægra Veg? Pegar eg sed eina preytta

Sal

Sæl og uppfylle sierhveria Angræda Sæl/ þa vake eg til þess/ minn Svefn er mier jafnvel sætur/ seger DRottenn epter Mannlegum Plagsid / til ad wtmæla sijna Elsku til Mannkynsens i Christo JEsu. Vier segiumst ad vera vakner og sofner i þeim Hlut / er vier hofum Ynde af/ og svo talar hann hier umm sig/hver þo ecke sefur og ecke sifiar hann/ O Gud giæfe/ ad vier værum eins Arvakrer og Ydiusamer i hans Þioonustu/ Jaa/hvad Stoor og Omælanleg sie hans Giæska/yfer þui/ sem jafnvel hafa hinar versstu Synder drygt / þad seger hann skommu sijdar med þessum allra Hiartnæmustu Ordum : Ef ad Himenenn verdur mældur ad ofann / edur rannsakadur Grundvollur Jardarennar ad nedann/þa skal eg forsmaa allt Israels Sæde/ fyrer allt þ þr giort hafa/ Enn svo sem þer Omøgulegt ollum nema honum Einum/ sem Himenenn hefur wtþaned/z mæler hann med sinne Spønn/z Jordena hefur Grundvallad/ Svo er þad Omøgulegt/ad Brunnur Myskunsemennar verde uppausenn/ hver ed alldrei tæmdur verdur/nema af þeim/sem ecke vilia koma til þessara Vatna/og forsmaa Rijkdoom hans Polenmædis/ þar til þeir hafa uppfyllt Mæler Syndanna. Hvad mun nu vallda þvi/christner Menn/ ad hann/sem er einn forterande Elldur/ sa ed brennur allt til hins nedsta Helvijtis/ hann vill þo vera oss Syndugum Ormum svo Nadugur? Hvad velldur þvi/ ad Himnarijke lijdur svoddann Ofrijke? Hvad annad enn þad/ ad hann sem er sialfur Gud/ hann situr i voru Hollde/ hveria hann skammast sijn ecke Brædur ad kalla? Hann situr/ sege eg/ til Kraptarens hægre Handar z bidur þ oss/ Þesse er saa stoore Leyndardoomur/hvern Paulus seger/ad Vitringar Verralldar hafe ecke skyniad/enn þo er Opennberadur oss/ sem erum Guds Smælingiar. O þa stooru Nad/ O þau diupu Myskunnar Jdur Guds/i hveriu hann hefur vitiad vor upprunnenn af Hædum/ honum sie Lof/Dyrd z Heidur/ Speke z Kraptur/ umm Allder Allda/ A M E N.

## Nijtianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Matth. 9. Cap.



J þann

J þañ Tijma. JEsus stie a Skip/ foor hañ yfer um aptur/ og kom i sijna Borg. Og sia/ ad þeir færdu til hñs Limafallssiwkañ Mañ/ þañ er la i siñe Reckiu. Eñ þa JEsus leit nu þeirra Trw/ sagde hañ til hins Limafalls-siwka: Vertu hughraustur Sonur/ þijnar Synder eru þier fyrer giefnar. Og sia/ ad nockrer af Skriftlærdum søgdu med sialfum sier. Þesse Gudlastar. Og sem JEsus sa þeirra Hugreñingar/ sagde hañ: Hvar fyrer huxed þier so vont i ydrum Hiortum? Hvørt er audvelldara ad seigia/ þier eru þijnar Synder fyrergiefnar? Ellegar ad seigia/ Statt upp og gack? Eñ so ad þier vited/ þad Mañsins Sonur hefur Magt a Jørdu til ad fyrergiefa Syndernar/ (Þa sagde hñ til hins Limafallssiwka.) Statt upp/ tak i burt Sæng þijna/ z gack i þitt Hws. Og hañ stood upp/ og foor i sitt Hws. Eñ þa Foolked sa þetta/ undradest þad/ prijsande Gud/ sa ed þvilijka Magt hefde Møñunum giefed.

## Exordium.

MArga Hlute kalla Meñ Vonda i Heimenum/ þar er þo eing eñ Vondur nema Syndeñ alleina/ Vier køllũ Straff Syndareñar Illt/ eñ þad er þo ecke Illt i sialfu sier/ þvi þar er eingeñ Olucka/ ad ei kome hun fra Gude/ sm̃ er alleina Goodur/ fyrer vora Skulld verdur þad Illt/ sem þad forþienad høfum med Syndeñe/ og verdur þad þo mørgum Gott/ sem þvi taka svo sm̃ Guds Børn/ sier til Andlegrar Heilsubotar. Være þar eingeñ Root/ þa være ecke helldur neiñ Avøxtur/ og være þar eingeñ Synd/ þa være eingeñ Olucka/ Daudeñ er Verdlaun Syndareñar/ seger Paall/ svo er og allur hans Her/ sem under hañ þioonar/ Siwkdoomar/ Orbyrgd/ Hallære/ Ofsookner/ Bloodswthellingar/ Skadræde af Vøtnũ og Voda-Elde/ svo er þa Syndeñ hin einasta Orsøk til allrar Olucku Andlegrar og Lijkamlegrar/ þess getur Esajas/ Cap. 42. Hver hefur giørt Jacob ad Herfange og Eydelagt Israel/ hefur ecke DRotteñ

giørt

giørt þad/ a moote hverium vier syndgad høfum / og þeir villdu ecke ganga a hans Vegum/ og hñ wthellte yfer þa Grimd sinar Bræde/ og megnu Strijdeb? Og þarf hier ecke lengt ad Røkū ad leita/ DRott eñ JEsus keñer oss hier i Gudspiallenu / hver ad sie Orsøk til alls Mootlætis Mañaña/ þar ed hañ sagde vid hiñ Nalfvisna: Vertu Nughraustur Sonur/ þier eru þijnar Synder fyrergefnar. Vilium vier þvi af Gudspiallenu læra / hvernig vier eigum ad fæ Boot vid Syndeñe/ i hverre vier alder erum/ hverrar Illsku Krapter ad Daglega brytst wt um Lijkama þessa Dauda / spillande allre vorre Vmgeingne/ Eñ þad er Tvent fierdeilis/ sem er hrein Idran / og ørugg Trw og Traust a JEsu Forþienustu.

Hiaalpa oss hier til/goode Gud/med Nad þijns Anda/fyrer JEsū Christum/ AMEN.

## Vtleggingeñ.

DROTTENN Sagde Vid þEña NALFvisna MAñ/ VERtu NVGhraustur SONur / þJer Eru þIJNar SYNDer FYRERgefnar. Eingeñ Efe er a þvi / Brædur M. Ad þesse Vesælingur hefur Angradur vered vegna Synda siña/er hñ hefur þeinkia mætt/ad væru Orsøk til sijns Krankdæmis: Þess vegna sagde hiñ goode Meistare/ er visse hvad med Mañenum bioo/ad hñs Synder væru hønū fyrergefnar/ Eñ þu/ christeñ Madur/ sem þetta heyrer/athuga hvad JEsus svarade sijnum Lærefveinum/ Joh. 9. Er þeir spurdu hñ / hvert hañ/ sem blindur boreñ var/ hefde syndgad/ edur Forelldrar hans/ DRotteñ svarade: Hverke synd gade þesse/ nie Forelldrar hans/ helldur svo ad Guds Dyrd Opinber yrde/ecke meinte JEsus þad/ad hñ edur hans Forelldrar væru Syndlauser/ þvi þa hefde hñ ecke blindur fæddur vered/ þar Gud straffar eingañ fyrer eckert/ Nitt meinte hañ / ad hverke hañ nie Forelldrar hans hefdu meira uñed til þessa Vanskapnadar / eñ marger adrer/ helldur være þesse Vanheilinde/ sem margur hefde forskulldad/ a hñ

løgd til ad byrta Guds Dyrd og Almætte hans Sonar / eg hygg þad ſie Mala ſañaſt / ad ef Gud villde tilreikna Syndernar / þa munde Fæer heilſkygner i Verølldena fædaſt/ Fæer heilum Fæte a Jørdena ſtijga/ Fæer Ovisiñ Arm wtretta/og eingeñ uñ Eitt Augnablik heill vera / helldur hefur Gud lagt ſumar Skepnur ſijnar i Tijma / til ad ſyna þier Heilbrygdum ſijna Dyrd / og hvert Valld hañ hefur yfer þijnum ſyndugum Kroppe/ ef hñ vill i Rettlætis Doom gaanga/ Lat þar fyrer þau Orkumſleñ/ er þu a ødrum ſier/ eñ þu hefur til uñed/ þrijſta Hiarta þijnu til ad idraſt þeirra Syndaña/ et hafa þañ gooda Gud ſtygdañ/er lient hefur þier heilvita Saal i heilbrygdum Lijkama/ og leikur vid þig eins og Barn ſitt med allſkonar Medlæte / jafnvel þoott þu hañ Daglega til Reide reiter: Hvernig a þa Jdraneñe hætt ad ad vera/Barn Guds? Hun a ad vera heit og alvarleg/ þeſſe Halfviſne Madur hefur æn Efa vered Sorgfullur i Hiartanu vegna Synda ſiña/ þad keña oſſ Ord Christi/ ſvo ſem eg ſtrax ſagde: For gefins kemur þu/ Barn mitt/fram fyrer Gud/til ad bidia uñ Kvittun Synda þiña / nema þig ængre þær / nema þu græter beiſklega med Petre/ nema þu þvoer Christi Fætur med Tarum Hiarta þijns/eins og Maria/nema þitt Hiarta brædne i þier ſvo ſem añad Vax/eins og Davids/ecke ſvo miøg af Tilfiñingu Guds Reide/ ſvo ſem af Elſkuñe til hans Giæſku / ſem upplauk þijnum Augum / er varſt blindur boriñ af Moodur Lijfe z daudur i Syndunũ/er þig hefur Endurkeypt fræ eilijfu Helvijtis Bæle/med ſijns Sonar Dauda/z ſparad þig ſijo añ midt i Syndunũ: Lat þier þ til Hiarta gaanga/ad þu hefr hñ mood gad oz Daglega ſtygger / jafnvel med vitanlegum Syndum. Svo a Guds Barna Jdran hættad ad vera/z er hun Gude ſvo þæg/ſvo ſem ad Syndeñ er honum leid/ jæ/ eñ þa þægare/ þvi Syndeñ getur alldrei ſvo ſtoor vorded/ad ei ſie meire Myſkuneñ/ hvar ſem Syndeñ yfergnæfer/ þa yfergnæfer Nadeñ myklu framar/ ſvo lijted giører Gud wr Syndeñe/ þegar hun er af þvegeñ med Jdraneñe/ eñ hun æ ad

vera

vera alvarleg/ eige hun Gude ad þocknast/ Sa sem vill aþ Hiarta id-
rast Syndaña/ hañ skal vel rañsaka sialþañ sig/ og hallda Reikning
vid sitt eiged Hiarta aþ Ordum og Giordum/ og svo mikla Kiæte sem
hiñ Idrande heþur haþt af Syndeñe/ svo miked Angur byriar hoñu
ad haþa i Idraneñe: Meñ eiga ad breyta vid Syndena/ eins z Amon
Fordum vid Systur siña Thamar/ a medañ hñ framde siñ Vilia med
heñe/ elskade hñ hana/ þar epter rak hñ hana wt aþ Dyruñ: þvi
hoñu fære svo Skamarlega/ ad ecke sie nærre þvi verra Dæme til/ þa
eigum vier þo eins ad breyta vid Syndena/ Vier eigu ad lata oss ha-
na leida vera/ og er þad vyst/ ad sa sem heþur Gaman aþ giordum
Syndum/ nær henum þær i Hug koma/ honum eru þær eñ þa aptur-
halldnar: Drage eingeñ sialþañ sig a Talar/ Ætlum ecke ad Gud
nægest þar med/ ad vier latumst um Stundarsaker Idrast Syndaña/
eñ gongum þo aptur til þeirra/ eins og Hundur til Spyiu/ edur Svyn
þad/ er vellter sier i sama Saur/ 2. Pet. 2. Þegar DRottiñ hafde
fyrergeþed Hoor-Konuñe Glæp heñar/ þa sagde hañ þo: Gack nu
burt/ og syndga ecke framar: Geþande þier þar med til Vitundar/
Christeñ Madur/ Ad þad er forgefens/ ad þu þigger Kvittun Synda
þiña aþ Gude/ nema þu sporner vid þm framvegis þ mesta þu matt.
Þegar IEsus sa þañ Mañ i Musterenu/ er hñ skomu adur læknad
hafde vid Dyked Betezda/ þa sagde hañ: Sia/ nu ertu heill vordeñ/
syndga ecke framar/ ad ei hende þig añad verra/ Joh. 5. Teiknande
þar med/ ad Syndeñ heþde vered Orsøk til hans Siwkleika/ Eñ þu/
sem framkemur fyrer Guds Fætur/ til ad lata þier boda Kvittun Syn
da þiña aþ hans Vmbodsmañe i Skripta-Stoolnu / Þad er ad søñu
vyst/ ad eþ þu Idrast aþ Hiarta Syndaña/ og treyster a IEsu Guds
Sonar Forþienustu/ þa verda þier þær fyrer hñs Blood fyrergefnar/
þvi þær sieu raudar sem Blood/ og svo sem Purpure raudar/ og þu
Læknadur aþ ollum þynum Andlegum Oheilendum/ eñ eþ þu ecke
leitast vid framvegis ad Krossfesta þitt Holld aþ fremsta Megne/ þa

mun Forþienusta hins Krossfesta ecke miøg gagna þier/ miklu helldur fordæma þig/ nema þu sporner vid Syndeñe. Vit þad fyrer vyst/ ad Christur hefur ecke forgefins talad um̃ þañ Ohreina Anda/ sem wtfer af Mañenum/ ad hañ take siø Anda sier verre/ og hverfe aptur i sitt fyrra Nws/ og verde svo þess sama Mans hid sydara argara hinu fyrra. Eingeñ er Efe a þvi/ ad DRottenn meinar hier þa/ sem Einusiñe hafa wtreked Diøfuleñ wr Niarta sijnu fyrer Guds Krapt og saña Jdran/ eñ byggia hønum þo iñ aptur/ og æfa sømu Synder Jdrunarlaust/ edur og adrar verre/ þad vitnar St. Petur/ hñs eigeñ Læresveiñ/ er hañ seger um̃ þa/ er vellta sier i sømu Syndum/ ad þeirra hin sijdare Kiør sieu verre hinū fyrre/ þvi betra hefde þm vered/ ad alldrei hefdu þeir Veg Riettlætesins vitad / helldur eñ ad þecktum hønū ad hverfa aptur fra þvi Bodorde/ er þeim feinged er. Christner Meñ eiga ad breyta epter þessum Nalfvisna Mañe i hans Audmykt og Angre fyrer Syndernar/ eiñig i Truñe og Traustenu a Guds Sonar Matt og Miskun/ Eñ ecke eigum vier hans Soottar Ferle lijker ad vera/ i voru Apturhvarfe til Guds fra Syndunum: Nañ var Nalfviseñ/ Svo eigum vier ecke ad vera/ þott vier sieum veiker/ þa eigum vier ecke Nalfvisner ad vera/ svo vier meinū ad gefa Gude Nelftena Niarta vors/ eñ Nelmingeñ Syndeñe og Fiandanum. Gud bañar i Moysis Løgum/ ad hafa eiñ Mæler fyrer hiñ Jñlenda/ og añañ fyrer þañ Framanda. O hvad giøra þa synduger Meñ/ þegar þeir skamta Gude wt i Dropa Tale/ hver med sijnum Blood Dropum hefur afþveged Synder vorar / eñ Andskotanum gefa Meñ fullañ Mæler mestallra vorra Lijfdaga/ Þad er Baals Þioonusta/ eñ ecke Christs: Eñ St. Pall seger: Ad Christur og Belial/ þad er hiñ same Diøfull sem Baal/ eige eckert Nlutskipte samañ. Verum þvi añadhvert heiter edur kallder/ þvi þeim sem volger eru/ vill hañ skirpa wt af sijnū Muñe/ Apoc. 3. Þesse Madur leitade NErrans/ þa hñ var Veikur ordeñ: Lær þad af hønū/ Guds Barn/ ad Akalla

DRott-

Drotteñ i Neydeñe/ eñ bijd þo ecke epter þvi/ ad hñ neydest til ad straffa þig Syndareñar vegna/ Mørgū hefur ad søñu Guds Hegning komed til Idranar/ sem ecke hafa þeckt Synder sijnar fyrre/ Eñ giæt þess/ ad þeirre Idran/ sem fram̄kemur af Otta Hegningareñar/ heñe er hættara vid ad koolna aptr/ eñ hiñe/ sē af Jhugan sijns Overdugleika og Guds Giæsku uppsprettur/ Þad sie eg af Achab/ er klæddest i Seck fyrer Gude/ nær hønum illa geck/ eñ strax sem Gud hafde liett Hrijs-enu af hans Hrygg/ þa fiell hañ fra hønū til añarlegra Guda. Sꜳ sū̄ undañ dregr Tijma Idranareñar/ & meinar ad þar sie alltijd noog-ur Tijme til/ hañ virdest mier vera eins og sꜳ/ er ecke hyrder um̄ þoott hañ lijde Skipbrot/ af þvi þad kuñe ad henda sig/ ad hañ kuñe af ad komast a einum Flaka. Meñ segia/ Ad sꜳ sem giører sitt Testa-ment/ ecke fyrr eñ a Dauda-Sængeñe/ hñ gefe af Erfingians Fe/ & ecke af sijnu: Hætt er vid/ ad Gud mune eins hallda/ og kalla þad ecke sier gefed/ sem þa er fyrst boded/ nær sagt verdur: Giør Reikn-ingskap þiñar Rꜳdsmeñsku/ Þu mꜳtt ecke leingur Rꜳdsmeñsku hafa. Sa sem Daglega frestar Idraneñe/ hñ er eins og sa Skulldu-Nautur/ er gefur jafnañ good Ord / eñ betalar alldrei: Skyllda vor er þad Mañaña/ ad lijda þvilijkt hver af ødrum/ Nꜳungans Kiær-leika vegna/ i leingstu Løg/ þvi vier erum Gude meira skyllduger/ sem er Fader vor allra/ eñ hañ er ecke skylldugur ad lijda svoddañ Hræsne af oss/ hverium vier erum skyllduger um̄ Sꜳl og Lijf. Malachias Spꜳmadur lyser Bølvan yfer þeim/ sem eiga Heilbrygt Fe/ eñ offra þvi hallta og Limlesta. O Guds Barn/ mun sa ecke þurfa ad Ott-ast fyrer þessare Bølvan/ sem gefur Fiandanum siñ Ungmeñis Alld-ur/ eñ ætlar ad Footnfæra Skaparanum þad/ sem hañ verdur a Hæ-kium ad bera? Skioot þvi ecke a Frest Idraneñe/ Barn Guds/ helldur þeink a þiñ Skapara i þijnum Ungdoome / þvi þu veitst ecke nær Angisteñ kemur / og þu leitar ad Fridnum/ & fiñur hañ ecke/ Ezech. 7. Og er þad svo hier um̄ uttalad.

Hoad hinu Sijdara vidvijkur / sem er um TRVNA / Pa eru heñar furduleger Kraptar/og eg mæ segia/ Guddoomlegar Verkaner/sem langt yfergænga Mañlegañ Skilning/svo miklar/ad pad mæ valla med Ordū wtskijra/hañ sem ad er Nøpundur Trwareñar JEsus Christus/ Heb. 12. Hañ hepur giørt hina bestu Grein a pvi/ er hañ seger vid sijna Læresveina: Ep pier Trw hepdud svo sem eitt Mustards-Korn/svo mundud pier segia Fialle pessu / tak pig upp og fleyg pier i Sioveñ/ og ep ein lijtel Trw kañ pvilijks ad orka / hvad mikla Nlute mun pa hin sterka fæ aprekad/ svo sem var Abrahams/er hñ trwde til Vonar par eingeñ Von var/ Rom. 4. Nu vil eg i petta Siñ ecke um pvilijka Nlute tala / helldur ad pvi Leite sem hun pienar til Syndaña fyrergepningar/og er pad Mæla sañast/ad eingeñ er stærre Kraptur heñar eñ sæ / pvi miña var pad/ad giøra Moyses Stap ad Nøggorme / miña ad sundurskipta Napenu / miña ad læta Soolena standa kyrra/miña ad tilbyrgia Nimeneñ/ z kalla Elld ap Nimne/ pvi allt eru petta Guds Skepnur/er høñū hlijda Mootmælislaust: Miña er allt petta/ sege eg/helldur eñ ad koma Mañenum/ ap Syndeñe og Andskotanum vanskøpudum i Sætt vid Gud/ z pvi er pad hin stærsta Jarteikn og Kraptaverk Trwareñar. PEGar JEsus Sæ PEJrra TRV/ stendur hier i Gudspiallenu / SAGde NAñ Til NJns NALFvisna/ VErtu NVGhraustur SONur/ PJer Eru PJJNar SYNDer FYRERgepnar. Tvent giørde JEsus hier Gott / sem var / ad hañ gap pessum vesæla Mañe Lijkamans Neilbrygde aptur/ og svo under eins Sælareñar/ eñ mikell var pess Munur/ og svo mikell sem ad skilur Sælareñar og Lijkamans Vanheilsu/ pvi talade DRotteñ eckert um Lijkamans Ohraustleik/ helldur sagde hañ: PJer Eru PJJNar SYNDer FYRERgepnar/ par fyrer sagde hañ og vid hina vantrwudu Gydinga: NVert Er AVDvelldara Ad SEGia/ PJer Eru PJJNar SYNDer FYRergepnar/ EDur Ad SEGia / STAtt Vpp Og Gack. Eñ hier sier pu

Krapt

Krapt Trwareñar / ædur eñ þesse aume Madur talade Eitt Ord til Fødur Myskunsemdaña/ þa hræduist hans Myskunar Idur i honum til Medaumkunar / heiter ecke þetta ad Bænheyra ædur eñ kallad er? Nins sama mætti þier væntа/ christiñ Madur/ nær þu lætur þig aþ Niarta angra þijnar Synder / fyrr meiga Nimen og Jørd fore ganga/ eñ ad Eitt aþ hans Ordum falle a Jordu / er sagt heþur til eins Idrande Syndara / ad þegar hañ lætur aþ Illu / og lærer Gott ad giøra / þa skule hans Synder vera honum fiarlægar / sem Austred er Vestrenu/ fyrr mæ Siaþar Naþed uppþorna/ eñ ad Bruñur Mysk unareñar verde uppausteñ/ sem loþad heþur ad kasta Idrande Mañs Syndum i Naþsins Diwp/ svo þeirra skule ecke ad Eilijþu minst verda: Þessu kemur Trueñ til Leidar. DRotteñ undradest ecke yfer neinum Nlut/ sem hañ sæ hier a Jardrijke: Allt Veralldareñar Yfer læte þootte honum einkis vert/ svo sem Von var æ / þvi allt Silþur og Gull var hans / hañ gaþ sig lijted ad Tale Læresveinaña/ þegar þeir syndu honum hina kostulegu Byggingu Mustaresins / og þootte eckert til þess koma/ eñ vid hina Canaaniſku sagde hañ: Kona mikel er þijn Trw. Svoddañ Gerseme er jaþnvel eins Gaungumañs Trw i Auglite DRottens / og hversu dyrmæt ad hun sie i Guds Auglite/ þad geþur DRotteñ siælþur til Vitundar i Epterlijkinguñe uñ hiñ tynda Saud og Pening/ er hañ ælycktar med þessum Ordū: Svo sege eg ydur/ ad meire Glede er i Nimnenū yþer einum Syndugū sem Idran giører/ helldur eñ yþer Niju z Niutiju Rettlætum: Nølldum þvi þad fyrer satt sem Johañes seger/ 1. Pist: 1. Cap. Eþ vier jætum votar Synder/ þa er hñ Trwr og Rettlætur/ ad hñ fyrergeþur oss Synder nar/ og hreinsar oss aþ øllu Ræanglæte voru/ Svo voru Myskunar Idur DRottens vidkvæm/ er hañ leit Eymd þessa vesæla Mans/ad hñ sæ strax Aumur a honum. O þu Guds Barn/ villtu þa eþast uñ/ ad hañ hrærist Myskunar yfer þier/ þegar þier taka til ad svijda þijn Andleg Kaun/ þegar þau fwnu Særeñ taka til ad liþna/og þu tekur

til ad Andvarpa i Lepnum/ segiande: JEsu Goode Meistare/ Myske
una þu mier. Hvad seger JEsus hia Lucam/ Cap. 11. Ef ad þier/
sem Vonder erud/ kuñed ad gefa Børnum ydar goodar Gæfur/ hvad
miklu framar mun ydar Himneskur Fader gefa þeim heilagañ Anda/
sem hañ þar um bidia / Þvi vil eg i fullu Trauste segia / þegar þu
audmyker þig under Vollduga Guds Hønd / og bidur af Hiarta um
Fyrergefning Synda þiña / þa mun hans Ande bera þÿnum Anda
Vitnisburd um/ ad þu siert Guds Barn/ Rom. 8. Þvi jafnvel þoott
vier sieum Otrwer/ þa er hñ samt Trwr / Sialfum sier kan hñ ecke
ad neita / seger Paulus. Nu er þad satt / Br. M. ad Sañidrande
Mans Trw verkar svo miked hia Gude/ sem nu hefe eg sagt/ eñ hñ
a þa ad vera viss um þad/ ad hañ sie bæde Sañidrande og Rett-trw-
adur. Margt er lÿkt med Skylldum / segia Meñ i Ordtæke gømlu/
Eñ Trweñ og Idruneñ eru Tvær Systur/ er ei meiga skilia/ eins og
þad/ ad sw Idran er Onyt i Guds Auglite/ sem ecke þvÿngar Mañeñ
til ad Krossfesta sitt Holld/ svo er og Trweñ daud ∣ an Verkaña/ seger
Jacob/ og Pall seger/ Ad sw Trw alleina gyllde/ sem ad er kroptug
fyrer Kiærleikañ. Med Trwñe foornfæra Meñ Gude sÿnu Vitsmun
um/ og gefa sÿna Skilningu fangna under heñar Hlydne: med Id-
raneñe Offra Meñ Vilianum / ad hañ sie Guds Bode undergefiñ.
Trweñ giører oss ad Guds Læresveinum: Idraneñ ad hans Þioonum.
T weñ upplyser vor Hiørtu i Skilninge vorra Sæluhialpar Efna:
eñ Idraneñ / ef hun er alvarleg / hun þrÿster oss til ad giøra Guds
Vilia/ og alla Skylldu christens Mans. Svo sem þ er ecke noog / ad
idrast um Stundarsaker/ og ganga aptur til ad drygia sømu Synder/
svo er þad ei helldur fullur Christindoomur/ ad trwa um Hrÿd/ eda giøra
Avøxt Trwareñar/ eñ falla þo fra a Tÿma Freistingareñar: være
þad noog til Sæluhialpar ad byria vel/ þa sæte Vileam hatt i Himna
rÿke/ og ef ei þyrfte ad vaka og bidia/ þa hefdu hinar Favÿsu Jom-
frwrnar ecke vered wtelokadar. Þad er skemtelegur Draumr/ ad ætla

